FIMTÍU

# HUGVEKJUR

ÚTAF PÍNU OG DAUÐA

DROTTINS VORS JESÚ KRISTS,

EPTIR

DR. P. PJETURSSON.




ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.

1859.

# 1. hugvekja.

Þegar Jesús og hans lærisveinar eptir kvöldmáltíðina höfðu lofsönginn súngið, gekk hann út ásamt með þeim, eins og hann var vanur, yfir um lækinn Kedron til Olíufjallsins. Hann sagði þá við þá: „Á þessari nóttu munu þèr allir hneyxlast á mèr, því skrifað er: ‚hirðinn mun eg slá og sauðir hjarðarinnar munu sundurtvístrast'; en þegar eg rís upp aptur, mun eg birtast yður í Galíleu". Pètur svaraði: „þó allir hneyxlist á þèr, skal eg þó aldrei hneyxlast". Jesús sagði: „sannlega segi eg þèr, að í dag, áður en haninn gelur tvisvar, munt þú afneita mèr þrisvar". Pètur talaði þá enn frekar og sagði: „já, þó eg ætti að deyja með þèr, skal eg ekki afneita þèr". Hið sama sögðu og hinir lærisveinarnir.

---

Nú var sú hræðilega nótt upprunnin, sú hræðilegasta hörmúnga nótt, sem nokkurn tíma hafði komið yfir Jerúsalem. Jesús var nú búinn að skipa hið heilaga kvöldmáltíðar-sakrament og búinn að kveðja lærisveina sína með

þeirri guðdómlegu skilnaðarræðu, sem lesa má hjá Jóhannesi guðspjallamanni í 15.—17. kapít.; hann var búinn að biðjast fyrir með þeim og biðja fyrir þeim. Þá gekk hann út og yfir um lækinn Kedron til Olíufjallsins. Þenna sama veg fór Davíð konúngur forðum, harmþrúnginn og grátandi, þegar hann flýði fyrir syni sínum, sem hafði gjört uppreist móti honum; og Jesús Kristur, hinn annar Davíð, gekk nú þessa leið móti þeim píslum og dauða, sem fyrir honum lágu. Æ, Drottinn! leyfðu oss nú líka að ganga út með þèr og hugleiða dásemdir pínu þinnar og friðþægíngar. Gefðu oss náð til þess á þessum nýbyrjaða föstutíma, að fylgja þèr trúlega með guðrækilegum hugleiðíngum; hræðu vor köldu hjörtu með þínum anda, svo vèr finnum til þíns óendanlega kærleika og getum liðið með þèr; vek þú í sálum vorum innilega löngun eptir að lifa og deyja með þèr, svo vèr fáum að upprísa með þèr til eilífs lífs. Allir höfum vèr þörf á að biðja þessa, kærir bræður! Ef vèr með hreinskilni rannsökum sjálfa oss, hljótum vèr að viðurkenna, að vèr höfum verið næsta tregir til og tómlátir í að taka þátt í líðunum frelsara vors, að hjörtu vor hafa verið fúsari á að halda kyrru fyrir í veröldinni og að höndla hennar gæði, en að ganga út með honum og fylgja honum á krossgöngu hans, svo vèr gætum höndlað eilíft líf. Eða megum vèr ekki játa, að það einatt rættist á oss, að „hirðirinn var sleginn og sauðir hjarðarinnar

tvístruðust"? að hinn góði hirðirinn var sleginn úr hjörtum vorum af óhreinum girndum og syndsamlegum hugsunum, svo vèr fórum villir vegar í solli og gjálífi veraldarinnar? En sælir erum vèr, ef frelsarinn hefir birzt oss aptur og tekið sèr aptur bústað í sálum vorum. Æ! hversu opt höfum vèr ekki heitið því, eins og Pètur, að vèr skyldum ekki hneykslast á lausnara vorum, að vèr skyldum aldrei sleppa honum úr vorum hjörtum! En hversu opt höfum vèr þó ekki hrasað eins og hann; hversu lítið þurfti ekki til þess að koma oss til að afneita Jesú í hugsunum, orðum og verkum! þegar heimurinn og vor spillta náttúra freistuðu vor, þá hlupum vèr eptir þeirra ginníngum, eins og vèr hefðum aldrei þekkt Jesúm, eins og vèr aldrei hefðum fundið til þess, hve óvenjulega mikið hann varð að líða vegna vorra synda, aldrei fundið til hans óendanlega kærleika; eins og vèr aldrei hefðum þekkt hans heilaga lærdóm, aldrei heyrt þessa áminníngu: „eflið yðar sáluhjálp með ótta og andvara"! þá var allt þetta gleymt; öll vor góðu áform gleymd; Guð og frelsarinn, dauði, eilífð og dómur — allt þetta var þá hvorfið úr huga vorum, og vèr sáum ekkert nema syndarinnar ímynduðu gæði, heyrðum ekkert nema hennar tælandi rödd. Æ! af hverju kom þessi lèttúð hjartans, þetta hviklyndi og staðfestuleysi? Af því vèr ekki þekktum vorn eigin veikleika, af því vèr treystum of mjög vorum eigin kröptum; af því vèr gleymdum að vaka og biðja

og leita liðs og krapta hjá honum, sem máttugur er í veikleikanum, og sem einn getur gjört þann enda á freistíngunni, að vèr fáum staðizt. Flý þú til Jesú, kristinn maður! þú sem angrast af hviklyndi þínu; lær þú af honum stillíngu og stöðuglyndi í hinu góða; fylg þú honum með hug og hjarta á göngu hans til Golgata, og settu þèr lifandi fyrir sjónir allar þær píslir og þjáníngar, sem hann varð að þola þín vegna, allar þær hörmúngar, sem hann af einskærum kærleika til vor syndugra manna bar með guðdómlegu stöðuglyndi og undirgefni undir Guðs vilja, og þessi sjón mun spekja hjarta þitt og sefa girndir þínar; hún mun aptra þèr frá að afneita frelsara þínum, því þá muntu verða snortinn af krapti hans friðþægjanda kærleika, og hans kærleiki mun þvínga þig til að elska hann og fylgja honum; þá munt þú geta barizt trúarinnar góðu baráttu, því þú berst þá ekki lengur einn saman með þínum veiku kröptum, heldur í krapti þess himneska kærleika, sem með sínum dauða hefir sigrað synd og dauða, og þú megnar þá alla hluti fyrir hann, sem þig máttugan gjörir, megnar að afneita sjálfum þèr og heiminum; já! megnar að deyja með lausnara þínum, deyja frá synd og óguðlegu athæfi, en lifa nýju og heilögu líferni. Ó, Drottinn! sendu oss þinn anda, anda máttarins og kærleikans og stillíngarinnar, svo vèr elskum þig, ekki eins úngis með orði og túngu, heldur og í verki og sannleika. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

## 2. hugvekja.

Þá kom Jesús með þeim í það akurgerði, sem hèt Getsemane; þar var grasgarður, og þar gekk Jesús inn með lærisveinunum; en Júdas, sem sveik hann, þekkti og þenna stað, því Jesús safnaðist opt þangað með lærisveinum sínum. Þá Jesús kom í þann stað, sagði hann við lærisveinana: „Setið yður hèr á meðan fer burt og biðst fyrir; biðið, svo þèr fallið ekki í freistni". Hann tók með sèr Pètur, Jakob og Jóhannes, þá tvo sonu Zebedeusar, og tók til að hryggjast, titra af hræðslu og harmþrúnginn að verða, og sagði til þeirra: „Sála mín er hrygg allt í dauðann; bíðið hèr og vakið með mèr". En hann sleit sig frá þeim og gekk lítið lengra fram, nær einu steinsnari, kraup á knè, fèll fram á ásjónu sína til jarðar og bað, ef það mögulegt væri, að sú stund hjá sèr liði, og sagði: „Faðir minn! ef mögulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mèr. Abba, faðir minn! allt er þèr mögulegt, tak þenna kaleik frá mèr; þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt".

---

Þegar Jesús kom inn í grasgarðinn, sagði hann við lærisveina sína: „Setið yður hèr

á meðan eg fer burt og biðst fyrir; biðið, svo þèr fallið ekki í freistni". Frelsarinn vissi það, að lærisveinar hans mundu ekki geta horft upp á hans beisku kvöl og sálarangist. Hann tók einúngis þá Pètur, Jakob og Jóhannes með sèr lengra inn í grasgarðinn, af því hann átti von á meiru sálarþreki hjá þeim en hinum, með því þeir höfðu verið vottar að hans mestu dásemdarverkum og að hans dýrðlegu ummyndan á fjallinu helga. Nú áttu þeir líka að vera vottar að hans guðlegu tign mitt í hans djúpu niðurlægingu. Oss veitir Drottinn einnig þessa náð, kærir bræður! Einnig vèr eigum kost á því, að fylgja frelsara vorum inn í grasgarðinn, sjá hans djúpu sálarangist, heyra þau himnesku bænarandvörp, sem hann úr hörmúnganna djúpi sendir upp til síns himneska föður. Æ! lærum af honum í sèrhverri eymd og mæðu þessa lífs, að lypta hjörtunum upp til himins og úthella þeim fyrir miskunsemdanna föður í heitri og innilegri bæn; æ! lærum af honum sjálfsafneitun og undirgefni undir Guðs vilja, svo vèr eins og hann getum sagt af hjarta: „þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt"! En það var ekki neyðin, sem þrýsti lausnara vorum til að biðja; allt hans líf var Guði helgað, sèrhver hugsun hans og tilfinníng, öll hans orð og öll hans verk voru sífeld bænariðja og vottur um hans innilegu sameiníngu við föðurinn; vottur um það, að hann lifði í Guði og Guð í honum, og að hann einnig var á himnum meðan hann

dvaldi hèr á jörðunni. Ó, hversu ólíkt er þetta breytni margra, sem kalla sig kristna! Meðan allt leikur í lyndi, gleyma þeir að biðja Guð; lypta huganum sjaldan eða aldrei upp til hans; þakka honum ekki fyrir hans miklu og mörgu velgjörðir, nè láta ríkdóm hans gæzku mýkja þverúð hjarta síns. Og þegar Guðs náð vitjar þeirra með þjáníngum og krossburði, þá fara þeir að biðja, „að þessi kaleikur megi víkja frá þeim"; en fái þeir ekki strax bænheyrslu, verða þeir óþolinmóðir og óánægðir með guðlega stjórn og bæta þannig synd á synd ofan. Æ, Guð minn góður, gakk þú ekki í rèttlætisdóm við oss auma syndara! Lát þú, kristinn maður! hið sama lunderni búa í þèr eins og var í Jesú Kristi; lær þú af lausnara þínum að biðja Guð, ekki einúngis á neyðarinnar tíma, heldur og í meðlætinu og á hinum blíðu dögunum; vendu þig á að hafa umgengni þína á himnum og úthella hjarta þínu jafnaðarlega fyrir Guði í heitri og innilegri bæn; þakka þú honum fyrir hans velgjörðir, og bið þú hann um náð til þess að geta varið þeim rèttilega; bið þú hann að skapa í þèr hreint hjarta og veita þèr stöðuglyndi í freistíngunum og krapta til að berjast trúarinnar góðu baráttu. Ef þú temur þèr þetta, þá munt þú einnig á mótlætínganna tímum finna hvíld og huggun fyrir sálu þína í bæninni til Guðs; þá munt þú læra sjálfsafneitun og undirgefni undir Guðs vísdómsfulla vilja, og geta sagt af hjarta: „Verði ætíð hvað vill minn Guð, vild hans er æ hin

bezta"! Sendu mèr, Drottinn! anda bænarinnar, svo eg falli ekki í freistni, svo eg verði ekki yfirbugaður af hinum vonda anda spillíngarinnar, nè ljái honum rúm í hjarta mínu; svo eg ávallt hugsi til þín og þíns heilaga kærleika þegar mèr flýgur eitthvað syndsamlegt í hug. Æ! eg finn til þess og angrast af því, að þegar eg hrasaði, þá var þinn andi, andi bænarinnar, vikinn frá mèr, svo eg gleymdi því, hve andstyggileg syndin er í þínum augum, gleymdi þèr og frelsara mínum og minni eilífu sáluhjálp. „Setið yður hèr, á meðan eg fer burt og biðst fyrir". Þannig mælir þú, vor guðdómlegi lausnari! við lærisveina þína. Af hjarta langar mig til að vera lærisveinn þinn, og mega setjast niður og tárast yfir syndum mínum. Nú situr þú við Guðs hægri hönd og biður fyrir oss; æ! bið þú líka fyrir mèr. Bið þú með mèr þegar eg biðst fyrir, og bið þú fyrir mèr þegar eg ekki biðst fyrir, þegar eg ligg og sef sætt og vært í næturinnar myrkrum, eða þegar sál mín ætlar að sofna í andvaraleysi, eða þegar eg ekki veit, hvers biðja ber. Æ! bið þú fyrir mèr þegar eg ekki get sjálfur beðið lengur, þegar líf og sál vanmegnast í dauðastríði minu. Æ! bið þú þá fyrir mèr, svo eg fái að koma til þín og vera þar sem þú ert um alla eilífð! Amen.

---

# 3. hugvekja.

Hann kom aptur til lærisveinanna, en fann þá sofandi. Hann sagði við Pètur: „Símon! sefur þú? megnaðir þú ekki að vaka með mèr eina stund? Vakið og biðið, svo þèr freistizt ekki; andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt". Í annað sinn gekk hann burt aptur, baðst fyrir, talaði sömu orðum og sagði: „Faðir minn! ef það er mögulegt, að þessi kaleikur víki frá mèr, án þess eg drekki hann, þá verði þinn vili". Hann snèri aptur, kom og fann þá enn sofandi; augu þeirra voru svo þrúngin af svefni, að þeir vissu ekki hverju þeir svöruðu honum. Jesús skildi við þá, gekk burt aptur, bað í þriðja sinn með sömu orðum og sagði: „Faðir! ef þú vilt svo, þá tak þenna kaleik frá mèr; þó ekki minn, heldur verði þinn vili". Honum birtist þá engill af himni, sem styrkti hann. Þegar Jesús var staddur í dauðans stríði, tók hann ákaflega að biðja; en sveiti hans varð eins og blóðhniklar, sem fèllu á jörðina.

---

Nú var Jesú pína byrjuð. Nú var hann farinn að titra og skjálfa og sál hans var hrygg allt í dauðann; en „sveiti hans varð eins og

blóðhniklar, sem fèllu á jörðina". Hvað mun hafa valdið þessari óvenjulegu og kvalafullu sálarangist? Mun Jesús hafa verið hræddur við dauðann? Fjarri fer því; hann gekk með hugprýði móti dauðanum. Sál hans var hrygg allt í dauðann, ekki vegna hans dauða, heldur vors dauða, vegna vorra synda, sem eru broddur og beiskja dauðans. Hegníngin lá á honum, og „hann leið pínuna í allra syndugra manna stað". Ó! hvílíkrar ángistar og hrygðar hlýtur það að hafa valdið frelsaranum, sem af einskærum kærleika til vor syndaranna framseldi sjálfan sig fyrir syndir vorar, að sjá það og finna til þess í sínu blessaða hjarta, að vèr bökuðum oss eilífa ófarsæld. Það voru því vorar eymdir, sem hann sampíndist, og vor eilífi dauði, sem gjörði sálu hans hrygga allt í dauðann. Ef þú, kristinn maður! ættir einhvern ástvin, sem þú annt af hjarta, og vissir að fyrir honum lægi eilíf glötun, mundi þig ekki taka þetta sárt? Ef hann hèldi iðrunarlaust áfram í syndunum og sinnti hvorki Guðs nè manna áminníngum, mundir þú ekki titra og skjálfa af umhugsun um hans eilífu forlög? Mundi ekki sál þín verða hrygg allt í dauðann? Og hvað er þó einn ástvinur í samanburði við allt mannkynið? hvað er þín kalda og ófullkomna elska í samanburði við Jesú eilífa og óumræðilega kærleika? hvað er þinn viðbjóður við syndinni í samanburði við hans heilaga vandlæti? Þú þykist hata syndina og hafa viðbjóð við henni. En lýsir þitt eigið líf-

erni þessu? Og þó þú stríðir við þínar spilltu tilhneigíngar, eru það þá ekki fremur syndarinnar ófarsælu afleiðíngar, en hún sjálf, sem þú hræðist og hatar? Mundir þú ekki einatt láta eptir syndsamlegum girndum þínum, ef þú ekki óttaðist, að það mundi hafa slæm eptirköst fyrir þig hèr í tímanum? Vilir þú verða sannkristinn og sanniðrandi, þá verður þú að hata syndina sjálfa, af því hún er óvinátta við Guð, af því hún stríðir gegn hans heilaga vilja, af því hún skilur þig við Guð og frelsara þinn og gjörir þig þannig eilíflega ófarsælan. Æ! ef þú hugleiðir Guðs óendanlegu gæzku og að hann elskaði þig svo heitt, að hann fyrir þig gaf í dauðann sinn eingetinn son; ef þú hugleiðir Jesú óumræðilega kærleika, sem þín vegna lèt líf sitt á krossinum og varð hryggur allt í dauðann: hlýtur þá ekki þessi hugleiðíng að vekja elsku til Guðs og Krists í hjarta þínu og innilegt hatur til syndarinnar? Hvernig gætir þú fengið af þèr að móðga miskunsemdanna himneska föður með vísvitandi syndum og krossfesta frelsara þinn á ný? Ó, Jesú! láttu þína sáru kvöl og pínu vekja hjá mèr djúpa hrygð yfir syndum mínum; láttu hjarta mitt verða sundurkramið af tilfinníngu míns óverðugleika, svo eg læri að setja allt mitt traust til þín og þinnar verðskuldunar; og þegar sála mín er hrygg allt í dauðann af syndum og misgjörðum mínum, æ, sendu mèr þá engil af himni, er styrki mig og huggi; láttu þá þína friðþægíngu lina brodd og beiskju iðrun-

arinnar, og sendu mèr krapta til að deyja syndinni og feta í þín fótspor! Því til þess miðaði pína þín og dauði, til þess varð sála þín hrygg allt í dauðann, að hrygð iðrunarinnar skyldi snúast í fögnuð, að hrygð sanniðrandi syndara skyldi verða hrygð eptir Guði, og að allir þeir, sem erfiða og þúnga eru hlaðnir, gætu komið til þín og fengið endurnæríngu, fengið huggun og hvíld fyrir sínar örmæddu og angráðu sálir. Amen.

---

# 4. hugvekja.

Jesús stóð upp frá bæninni, kom til lærisveina sinna og fann þá sofandi af hrygð; hann sagði við þá: „Sofið þèr nú það eptir er og hvílizt! hvað? sofið þèr? Nóg er komið! standið upp og biðið, svo þèr fallið ekki í freistni. Sjáið! sú stund tekur að nálgast og er þegar komin, að mannsins sonur mun ofurseljast í syndugra hendur. Standið upp og göngum hèðan; sjáið! sá er mig svíkur, hann er í nánd; en biðið, svo þèr fallið ekki í freistni".

---

Meðan Jesús skelfur og titrar af sálarangist og sveitist blóðinu undir syndabyrði vorri, sofa lærisveinar hans og gleyma að búa sig undir þá hina miklu freistíngu, sem fyrir þeim

lá. En Jesús fer til þeirra og vekur þá; mitt í þeirra sálarangist, sem hann leið vegna alls mannkynsins, missti hann ekki sjónar á lærisveinum sínum. Ó, hvílíka huggun hlýtur þetta að veita oss syndugum mönnum! Guðleg náð og miskun nær ekki einúngis til alls mannkynsins yfir höfuð, heldur og til hvers einstaks manns. Sjálfur Drottinn vakir yfir sínum lærisveinum, biður fyrir þeim, stríðir og líður fyrir þá, og þegar þeir ætla að sofna og verða andvaralausir, þá kemur hann og aðvarar og áminnir, svo að óvinurinn fái ekki inngöngu í þeirra hjörtu. Drottinn minn! tak þú líka mig í þína vernd og varðveizlu og gættu sálar minnar. Oss kann, ef til vill, að þykja það sæta furðu, að Jesú lærisveinar vóru svo yfirkomnir af svefni, að þeir ekki gátu vakað eina stund með honum í hans miklu hrygð og angist. En vörumst, kærir bræður! að leggja harðan dóm á þá fyrir þetta sinnuleysi þeirra; því ef vèr rennum augunum til sjálfra vor og vors umliðna lífs, þá megum vèr vissulega játa, að vèr einatt vorum næsta tregir til að vakna, þegar Jesús kom til vor og vildi vekja oss af vorum syndasvefni, að „augu vor vóru svo þrúngin af svefni" munaðar og syndsamlegra girnda, að vèr „ekki vissum hverju vèr svöruðum honum", heldur lètum hans orð og áminníngar eins og vind um eyrun þjóta. Og því hegníngarverðara er þetta andvaraleysi, þegar vèr gætum þess, hversu opt Jesús hefir komið til vor og fundið oss sofandi, hversu

opt „hann hefir vitjað vor með sínum náðarmeðulum", með áminníngum síns orðs og sinni heilögu náðarmáltíð, með sèrhverri velgjörð, sem hann veitti oss, með sèrhverjum krossi, er hann lagði oss á herðar, með sèrhverri aðvörun samvizkunnar, með sèrhverri góðri hugarhræríngu og sèrhverri guðrækilegri hugsun, sem hans andi vakti í sálum vorum. Þó hefir ekkert getað vakið oss, ekkert vakið hjá oss þann ótta og andvara, sem nauðsynlegur er til að gjöra vora útvalníngu vissa. Öll vor umliðna æfi hefir verið einlæg náðarköllun Drottins; en því miður hefir hún samt sem áður verið einlægur syndasvefn, sofandi trú og sofandi kærleiki, og því miður sofa margir enn allt fram á þenna dag. Mega þeir þá ekki óttast fyrir því, að þegar Jesús kemur til þeirra í næsta sinn og finnur þá enn þá sofandi, þá segi hann við þá: „Sofið nú það sem eptir er"; sofið þau fáu augnablik, sem eptir eru af lífstíma yðar; þèr hafið enn ekki megnað að vaka með mèr eina stund, þó eg hafi komið til yðar á hverri stundu dagsins, á hverri stundu lífsins, og kallað yður með kærleikans himnesku röddu; yður getur ekkert vakið nema hinn síðasti lúðurhljómur! Æ, Drottinn! þú sem ekki vilt dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi, virztu af náð og miskunsemi þinni „að upplýsa augu vors hugskots, svo að vèr þekkt getum, hver að sè von köllunar vorrar" og „skilið hvílík að sè breidd, lengd, dýpt og hæð" þinnar elsku, og

hversu óumræðilegur sá kærleiki er, sem kom þèr til að ganga í dauðann vor vegna. Þá munum vèr, vaktir af þínum anda, megna að vaka með þèr eina stund, þá stuttu stund, sem eptir er æfidaga vorra. „Vakna þú, sem sefur", segir postulinn, „og rís upp frá dauðum: þá mun Kristur lýsa þèr"! (Efes. 5., 14.). Æ! allir þurfum vèr að vakna; allir þurfum vèr að vaka og biðja, svo vèr föllum ekki í freistni, því „sá er oss svíkur er jafnan í nánd" og óvinur sálnanna er ætíð reiðubúinn að sá illgresinu í akur hjartnanna meðan vèr sofum. En þú guðhrædda, sanniðrandi sál! sem fegin vilt vaka með frelsara þínum, en finnur til vanmáttar þíns og breyskleika, þreyztu ekki að biðja, svo þú fáir vakað; þreyztu ekki að biðja frelsara þinn að koma til þín og vekja þig með sínum anda, því þú munt vissulega fá bænheyrslu; hann mun koma til þín, vera hjá þèr og veita þèr nýtt fjör og nýja krapta, svo þú ekki sofnir, heldur getir vakað og eflt þína sáluhjálp með ótta og andvara; og þegar dauðans svefn loksins sígur á augu þín og þú sofnar á grafarinnar beð, þá munt þú aptur vakna á eilífðarinnar morgni hjá lausnara þínum, í samfèlagi við Guð og alla hans útvalda. Gef þú oss þína náð til þessa, himneski faðir, í Jesú nafni! Amen.

---

# 5. hugvekja.

Jafnsnart sem Jesús var enn að tala um þetta, sjá, einn af þeim tólf, sem Júdas hèt, þá er hann hafði nú með sèr tekið flokk manna og þènara kennimannahöfðíngjanna og faríseanna, kom hann þangað og með honum flokkur mikill með blysum, lömpum, sverðum, stöngum og vopnum, út sendur af kennimannahöfðíngjum, skriptlærðum og öldúngum, og hann gekk fyrir þeim. En svikarinn hafði gefið þeim sameiginlegt teikn og sagt: „Hvern eg kyssi, sá er það; grípið hann og leiðið hann varlega burt". Sem Jesús vissi nú allt hvað yfir hann átti að koma, gekk hann fram og sagði við þá: „að hverjum leitið þèr"? þeir svöruðu honum: „að Jesú frá Nazaret". Jesús svaraði: „eg er hann". En Júdas sá er sveik hann, stóð einnig hjá honum. En er Jesús sagði til þeirra: „eg er hann", hörfuðu þeir á bak aptur og duttu til jarðar.

---

Nú var grasgarðspína frelsarans afstaðin; hann var nú búinn að vekja lærisveina sína með þessum orðum: „Standið upp og göngum hèðan; sjáið! sá er mig svíkur, hann er í nánd". Þá nálgast hermanna flokkur með blysum,

sverðum og vopnum, heiðnir hermenn og þjónar hins mikla ráðs, allir í þeim sameiginlegu syndsamlegu erindagjörðum, að handtaka Jesúm; og Jesús gengur móti þeim með djörfúng og hugprýði, eins og hann hefði ekki rètt áður átt í neinu stríði í grasgarðinum, eins og hann ekki gengi mót grimmum óvinum nè ætti von á nokkrum þrautum og þjáníngum. Hughraustur spyr hann óvini sína: „að hverjum leitið þèr"? og þeir svara: „að Jesú frá Nazaret". — Allir leita að einhverju í þessu lífi; allir leita sèr lukku og farsældar á einhvern hátt, en mjög er því misjafnt varið, hvernig menn leita hennar. Sumir leita hennar í auðlegð, sumir í upphefð og metorðum, sumir í munaðarlífi; en enginn, sem þannig leitar, finnur hana, því sanna farsæld er hvergi að finna nema í Jesú frá Nazaret, og oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða. Þeir hinir tímanlegu hlutirnir eru fallvaltir og hverfulir í eðli sínu og geta ekki fullnægt hinum æðstu þörfum sálar vorrar, og því geta þær hvergi fengið sanna hvíld nema í frelsara sínum. Leitaðu því, sála mín! hèreptir lausnara þíns, og láttu hann vera hið einasta mark og mið allra hugsana og tilfinnínga þinna. Híngað til hefir þú, því miður, of mjög leitað farsældar þinnar í heiminum; hann lofaði þèr friði og fullsælu og hèt þèr öllu fögru, en sveik þig um það allt; þú týndist sjálf í solli veraldarinnar og flæktist í syndarinnar fjötrum, en hefir einúngis borið úr být-

um angur og órósemi og ónáð Drottins. Þó hefir hinn góði hirðirinn alltaf verið að leita að þèr; hans óþreytanlega miskunsemi hefir alltaf kallað þig til sín með sínum áminníngum og aðvörunum, með sínum bendingum og náðarfyrirheitum. En holdsins og heimsins tælandi rödd lèt hærra í eyrum þínum og augu þín byrgðir þú fyrir geislum náðarinnar, og þegar Jesús kom til þín og spurði þig: „að hverjum leitar þú"? þá snèrir þú þèr frá honum og sagðist ekki leita að Jesú frá Nazaret. Ó, Jesú! láttu krapt þíns heilaga nafns stöðva mig, svo eg fari ekki lengur villuráfandi á hinum breiða vegi glötunarinnar; láttu krapt þíns heilaga nafns varpa mèr flötum til jarðar og sundurkremja hjarta mitt, svo eg geti sèð ljótleika synda minna og andvarpað af hjarta: Guð! vertu mèr syndugum líknsamur! Gef þú mèr náð til þess, hèreptir að leita þín í sannri iðrun og lifandi trú. Alltaf eigum vèr, kristnir menn! í stríði við óvini farsældar vorrar, við heiminn og holdið, og alltaf er oss hrösun búin; en ef vèr á freistínganna tímum leitum Jesú, leitum hjá honum liðs og krapta, þá getum vèr eins og hann með hugprýði og djörfúng gengið á móti vorum andlegu óvinum og í hans nafni unnið sigur, því vèr stríðum þá ekki einir saman, heldur í hans nafni, í trúnni á hann og styrktir af hans anda. Og þegar Drottni þóknast að reyna oss í mótlætínganna skóla, þá látum ekki hugfallast, heldur leitum Jesú og lítum vorum trúar- og vonar-augum

upp til hans, og hann mun af hæðum senda huggun niður í sálir vorar og láta oss finna til sinnar mildiríku nálægðar, svo vèr með þolinmæði og undirgefni undir Guðs vísdómsfulla vilja getum gengið hinn þyrnumstráða veginn, og með Jesú dæmi fyrir augunum tekið af hjarta undir með skáldinu og sagt:

„Þú gekkst á undan, eg
eptir þann sama veg
mæddur en glaður geng,
gæfu hlýt æðstan feng,
þá lokið lífs er meini".

En ekkert mótlæti er eins þúngt og átölur samvizkunnar, og engin tilfinníng eins sár og sviðamikil eins og sú, að vita sig að hafa brotið af sèr Guðs náð og hylli; æ! þá er það eina ráðið að leita Jesú, að flýja til frelsara sins og í hans nafni leita fyrirgefníngar hjá miskunsemdanna föður, og þegar þú, harmþrúngna sál! varpar þèr með einlægri iðrun í hans náðarfaðm, þá mun hans friður stíga niður í hjarta þitt og fullvissa þig um fyrirgefníngu syndanna; fullvissa þig um, að ekkert getur skilið þig við hans kærleika, að hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði, getur hrifið þig úr hans hendi. Ó, Jesú! láttu mig í lífi og dauða leita þín og í þèr finna hvíld fyrir sálu mína! Amen!

---

## 6. hugvekja.

Jesús spurði þá enn einu sinni: „að hverjum leitið þèr?" þeir svöruðu: „að Jesú frá Nazaret". Jesús svaraði: „eg sagði yður það, eg er hann, og ef þið leitið að mèr, þá látið þessa á burtu fara", svo að uppfylltist það orð, er hann hafði sagt: „engum glataði eg af þeim, sem þú gafst mèr". En Júdas veik sèr að Jesú til að kyssa hann, og jafnsnart gekk hann til hans og sagði: „sæll vertu, rabbí"! og kyssti hann. En Jesús sagði við hann: „Vinur! til hvers ertu híngað kominn? Júdas! svíkur þú mannsins son með kossi"? þá gengu þeir þangað, lögðu hendur á Jesú og gripu hann.

---

Júdasar-kossin er, eins og vonlegt er, illa ræmdur og honum er viðbrugðið; enda verður því ekki neitað, að hann sýnir fals og fláttskap og undirferli á sínu æðsta stigi og í sinni viðbjóðslegustu mynd. Í næturinnar myrkrum framkvæmir svikarinn sinn óguðlega ásetníng, því sá sem illt að hefst hatar ljósið. Ágirnd og illmennska höfðu svo gagntekið sálu hans, að hann hvorki hrærðist af Jesú elsku nè aðvörunum, nè heldur af því, þó hann væri sjónarvottur að því, hvernig eitt Jesú orð gat varpað hermönnunum til jarðar. Hann gengur

til Jesú og kyssir hann svikakossinn, eins og hann hafði undirlagt við óvini hans. En eins og Júdasar breytni við Jesúm er fláráð og mannvoñzkuleg, eins ástúðleg og mannelskufull er breytni Jesú við Júdas aptur á mót. Með hógværð og ljúfmennsku tekur frelsarinn kveðju hans og lofar honum að kyssa sig. „Vinur! til hvers ertu híngað kominn"? Sèrtu kominn sem vinur, til hvers eru þá sverð og vopn? En komir þú sem óvinur, hví kyssir þú mig þá? — „Júdas! svíkur þú mannsins son með kossi?" Æ, að þú skyldir einmitt verða til þess að svikja mig! — Og þessi blíðu ljúfmennskunnar orð talar Jesús ekki í reiði nè þúngri þykkju, heldur með ástúðlegu viðmóti og sorgbitnum svip. Ó, hvílík elska! hvílík hógværð! hvílík auðmýkt! — En hvernig breytum vèr, kristnir menn! Mun hið sama lunderni búa í oss, eins og var í Jesú Kristi? Þegar einhver beitir flærð og fagurgala við oss og dregur oss á tálar með vinalátum, mun þá ekki sú verða raunin á, að þjóstur og þykkja vili ryðja sèr til rúms hjá oss, af því að hjörtu vor eru drambsöm og eigingjörn? Og þó hefir frelsarinn gefið oss þetta boðorð: „Lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítilátur"! Hversu fjarlægir erum vèr þá frelsarans heilaga dæmi, og hversu ómaklegir að heita hans lærisveinar! Vèr þykjumst hata hræsni og undirferli og reiðumst þegar vèr verðum fyrir því af náúnga vorum. En hversu opt hefir þú þó ekki, sála mín! gjört þig seka

í þessu sama við lausnara þinn, þegar þú með vörunum lofaðir hann og þakkaðir honum, en hjarta þitt var langt í burtu; þegar þú með vörunum hèzt honum elsku, trú og hollustu, en hjarta þitt var kalt og dautt; þegar þú minntist við hann í heilagri kvöldmáltið, en neyttir hans blessaða líkama og blóðs óverðuglega, án þess það hefði betrandi og helgandi áhrif á líferni þitt; þegar þú last eða heyrðir hans orð, en hafðir það einúngis um hönd til að friða með því samvizku þína, án þess að vilja leggja af lestina og bæta ráð þitt; þegar þú með hræsnissvip þóktist leita Guðs ríkis og hans rèttlætis, en hjarta þitt hèkk þó fast við heiminn og hans lystisemdir; og í stuttu máli, þegar þú hafðir yfirbragð guðhræðslunnar, en afneitaðir hennar krapti? Og þó sleppir Jesús ekki hendi sinni af þèr, heldur leitast því fremur við að hræra hjarta þitt með sinni blíðu náðarröddu og leiða þig á friðarins og lífsins veg. Ó, hvílík elska! hvílík mildi! En varastu að vanbrúka hana; varastu að láta ríkdóm hans gæzku, þolinmæði og langlundargeðs verða til ónýtis á þèr, svo þú safnir þèr ekki reiði á degi reiðinnar og opinberunar Guðs rèttdæmis (Róm. 2., 5.). Skapa þú, Drottinn! í mèr hreint hjarta; hjálpa þú mèr til að útrýma allri hræsni og skinhelgi úr sálu minni, svo eg geti elskað þig af öllu hjarta og geymt þitt orð í góðu og siðsömu hjarta; og nær eg geng inn að þínu náðarborði til að minnast við þig með trúarinnar og kærleikans kossi: æ,

láttu þá lifandi tilfinníngu míns óverðugleika og minnar syndaskuldar og lifandi endurminníngu þinnar friðþægíngar gagntaka mína sál og sinni og hafa helgandi áhrif á allt mitt líferni, svo eg í allri breytni minni við skylda og vandalausa láti hreinskilið og mannelskufullt hugarfar í ljósi. Þú lèzt handtaka þig og fjötra vegna minna synda, æ, leys þú hjarta mitt úr fjötrum tvöfeldninnar og sèrhverrar syndsamlegrar tilhneigíngar, svo það geti verið bústaður þinn og þíns anda, þangað til mín lausnarstund upp rennur og þèr þóknast að leysa mig hèðan og leiða mig til þín á sælunnar og friðarins landi! Amen.

---

# 7. hugvekja.

En sem þeir er með Jesú voru sáu hvað verða vildi, sögðu þeir við hann: „Herra! eigum vèr ekki að slá með sverði"? Símon Pètur hafði sverð, brá því og hjó til þjóns hins æðsta prests og sneið af honum hans hægra eyra. Sá þjónn hèt Malkus. Jesús svaraði: „látið hèr við staðar nema"; hrærði við eyra þjónsins og læknaði hann. Og hann sagði við Pètur: „Sliðra þú sverð þitt; þeir er með vopnum vega, munu og fyrir vopnum falla; eða heldur þú ekki, að ef eg bæði

föður minn, mundi hann senda mèr meir en tólf fylkíngar engla? Á eg ekki að drekka þann bikar, sem faðir minn hefir mèr gefið? Hvernig gætu ritníngarnar annars uppfyllzt? Þetta hlýtur þannig að ske".

---

Það var vissulega mikið fljótræði af Pètri, að ætla sèr að beita vopnum til að verja lausnara sinn. Hann vildi með því sýna elsku sína til Jesú; en með þessum blinda ákafa hefði hann komið öllum lærisveinunum í mesta vanda, ef Jesús hefði ekki gjört gott úr því. Hann gætti þess ekki, að Jesús fyrir skemmstu hafði leitt þeim fyrir sjónir, að sèr bæri að þola þjáníngar og dauða, og að hann með þessu fljótræði sínu ekki gjörði annað en auka pínu hans og setja blett á hans heilaga málefni, eins og hann hefði kennt lærisveinum sínum að beita ofríki gegn ofríki og óhlýðnast yfirvaldanna gjörðum; hann gleymdi líka í hverja hættu hann með breytni sinni stofnaði sálu sinni, þareð hann svaf þegar hann átti að vaka, en beitti blindum og óskynsamlegum ákafa, þegar hann átti að sýna sjálfsafneitun og undirgefni undir Guðs vilja. Hversu opt breytum vèr ekki, kristnir menn! líkt og Pètur, þegar vèr ætlum með ákefð og ofsa að flýta fyrir Drottins málefni, eða fyllumst óþreyju og óþolinmæði, þegar hann leggur oss einhvern kross á herðar, í stað þess að oss er

boðið að fylgja honum, bíða eptir hans bendíngum, treysta hans almætti, láta hans hönd stjórna og hans speki ráða? Eða hættir oss ekki einnig við að sýna ofsa og ákafa og fyllast heipt og bræði, þegar vèr mætum einhverri mótspyrnu í vorum veraldlegu fyrirtækjum, eða þegar vèr þykjumst verða fyrir einhverjum halla og ójöfnuði af öðrum mönnum, hversu lítið sem í þetta kann að vera varið, og erum þá ekki í rónni fyrr en vèr getum á einhvern hátt hefnt vor. Ó, hversu ólíkt er þetta boðum og dæmi vors guðdómlega frelsara, sem með himneskri hógværð umbar allar mótgjörðir, sem bauð oss að fylgja sèr og fyrirgefa af hjarta, sem bauð oss, að blessa þá sem oss bölva, og gjöra þeim gott og biðja fyrir þeim sem oss hata! Æ! það er eins og vèr aldrei getum munað eptir því, að sáttgjarnt, hógvært og mannelskufullt hugarfar er skilyrði fyrir því, að vèr getum vænt oss náðar og miskunar hjá heilögum og rèttlátum Guði, og að vèr aldrei vitum, á hverri stundu vèr verðum kallaðir fram fyrir hans dómstól. — „Þeir, er með vopnum vega, munu og fyrir vopnum falla", sagði vor guðdómlegi frelsari um leið og hann bauð Pètri að sliðra sverð sitt, og minnti oss með þessum orðum ekki einúngis á það, að með þeim sama mæli, sem vèr mælum öðrum, mun oss aptur mælt verða, og að hefndargjarnt hugarfar hefir ófrið og óblessun í för með sèr, heldur einnig á hitt, að hann vildi ekki láta verja sig og sitt heilaga mál-

efni með veraldlegum vopnum, nè sitt ríki útbreiðast á jörðunni með sverðseggjum, því hans ríki var ekki af þessum heimi. En það eru til önnur andleg vopn, kristinn maður! sem þú jafnan átt að beita í breytni þinni við aðra menn og í stríði þínu við holdið og heiminn; það eru þau vopn, sem postulinn kallar „Guðs alvæpni". Þú átt að vera „gyrtur sannleikanum, íklæddur brynju rèttlætisins, hertygjaður skildi trúarinnar, hjálmi hjálpræðisins og sverði andans, sem er Guðs orð" (Efes. 6., 12.—18.). Ef þú hefir þessi Guðs alvæpni, þessi himnesku „ljóssins vopn", þá munt þú „geta veitt mótstöðu á hinum vonda degi, og að öllu yfirunnu staðizt". Þú, sem því jafnan hefir sverð hefndarinnar og heiptarinnar brugðið og á lopti, reitt til höggs við bróður þinn, sliðra þú það sem fyrst meðan þú ert enn á vegi með honum, svo það ekki særi sjálfan þig banvænu sári, sári andlegs og eilífs dauða. Legg þú niður vopn ranglætisins, en íklæzt vopnum rèttlætisins. Guðsorð er hið eina sverð, sem þú sífelt átt að hafa brugðið, það er beittara hverju tvíeggjuðu sverði; það hefir krapt í sèr til að áminna, helga og hugga; já, það er kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum þeim sem trúir. Ó, Guð minn góður! hversu veik hlýtur þá trú mín að vera, hversu dautt hjarta mitt, þegar eg ekki finn til þess, hvað þitt orð er beitt og kröptugt, þegar því er brugðið, og það þó ekki getur unnið á mínu harða hjarta, og eg ekki heyri annað en þyt-

inn og læt það eins og vind um eyrun þjóta. Æ! virztu að lækna eyra mitt, svo eg geti heyrt annað en hljóm þinna sannleiksorða, svo að kraptur og kjarni þeirra finni veg til hjarta míns og smjúgi eins og sverð gegnum sálu mína; svo eg fái „stíng í hjartað" af meðvitund synda minna og hún veki hjá mèr sára iðrun. Græð þú síðan af miskun og gæzku þinni þetta mitt hjartasár, svo eg geti helgað þèr hjarta mitt og elskað þig af öllu hjarta. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## 8. hugvekja.

Um þetta sama bil mælti Jesús við flokkinn: „Þèr eruð farnir út að höndla mig með sverðum og forkum, eins og ræníngja, en á hverjum degi hefi eg þó hjá yður verið, setið og kennt í musterinu, og þó hafið þèr ekki vogað að leggja hendur á mig; en þetta er yðar tími og makt myrkranna, svo að ritníngin uppfylltist".

---

Ekki verður ofsögum af því sagt, hve mikil spilling Gyðíngaþjóðarinnar var á Krists dögum. Hann gekk í kríng, gjörði öllum gott sem hans leituðu, læknaði sjúka og uppvakti framliðna. Hann sat daglega í musterinu og

kenndi lærdóminn um guðsríki. En þó Gyðíngarnir væru sjónarvottar að hans dásemdarverkum og heyrnarvottar að hans himnesku kenníngu, gat þó ekkert hrært þeirra þverbrotnu og harðsvíruðu hjörtu, heldur fylltust þeir þvert á mót heipt og hatri við Jesúm, einkum faríseararnir, hinir skriptlærðu og kennimannahöfðíngjarnir, af því að hann vildi ekki fegra vonzku nè hræsni þeirra, heldur sagði þeim beiskan sannleika og sýndi þeim, hvílíkir þeir væru í raun og veru og hve hegníngarverðir þeir væru í Guðs augum. Þessu hatri sínu gátu þeir nú loksins svalað, eins og vèr allir vitum, með því að fá Jesú lærisvein Júdas til að svíkja drottinn sinn, og senda með honum hermanna flokk til að handtaka Jesú og þannig ráða hann af dögum. Gyðínganna breytni við frelsarann mun ætíð verða hið hryllilegasta dæmi upp á mannlega spillíngu, eins og útskúfan þessarar þjóðar er hinn bersýnilegasti vottur um Guðs hegnanda rèttlæti. En þegar vèr gætum að hegðun og hugarfari mannkynsins yfir höfuð, munum vèr þá ekki jafnvel í sjálfri kristninni verða varir við nein merki upp á þá spillíngu, sem oss þykir svo hræðileg hjá Gyðíngaþjóðinni? Þó Kristur sè nú ekki lengur sýnilega nálægur, nè kenni á hverjum degi í musterinu, þá er þó hans sáluhjálplegi lærdómur boðaður kristnum mönnum, og þeir eru uppfræddir í honum frá blautu barnsbeini; þeir þekkja frelsarann, hans guðlegu tign, hans óendanlegu elsku til

vor syndugra manna og hans blessaða lífsins orð, já, þekkja þetta allt langtum betur en Gyðíngarnir; þeir eru fyrir skírnina teknir í tölu hans lærisveina og orðnir limir á hans líkama; þeir hafa hátíðlega heitið Guði og frelsara sínum trú og hollustu, og endurnýjað þetta heit í hvert sinn, sem þeir hafa verið borðgestir við Jesú náðarborð. En því miður sýnist líferni margra kristinna manna lýsa því, að uppfræðíng þeirra í kristindóminum beri lítinn og jafnvel engan ávöxt hjá þeim, til að betra það og gjöra þá að sönnum Krists lærisveinum; þeir fyrirlíta og óvirða guðsorð, launa velgjörðir Guðs og manna með vanþakklæti eins og Gyðíngarnir, fram ganga eptir munni og maga, láta sínar spilltu tilhneigíngar fá vald yfir sèr, án þess að veita þeim alvarlega mótspyrnu; þeir fyllast jafnvel heipt og reiði, ef fundið er að þeirra ókristilega líferni, og kalla það óþarflega hótfyndni; „þeir krossfesta Krist að nýju", eins og guðsorð kemst að orði, í stað þess að krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigíngum, og sýna óræk merki þess, að þeim hefði ekki farizt betur en Gyðíngunum, hefðu þeir lifað á þeirra dögum. Þess vegna mun og harður hegníngardómur verða upp kveðinn yfir þeim, ef þeir ekki iðrast og bæta ráð sitt. En maðurinn verður ekki svo spilltur og þverbrotinn allt í einu, heldur smám saman. „Á hverjum degi hefi eg hjá yður verið, setið og kennt í musterinu, og þó hafið þèr ekki vogað að leggja

hendur á mig", sagði frelsari vor við Gyðíngana. Eins er syndugum manni varið. Meðan hann er óspilltur, meðan hann verður var við nálægð frelsarans í hjarta sínu og hlustar á kenníngu hans, meðan hann gefur gætur að hans áminnandi og aðvarandi röddu, vogar hann ekki að leggja hendur á lausnara sinn, nè láta eptir sínum spilltu tilhneigíngum, eða að minnsta kosti gjörir hann það í fyrstunni óttasleginn og angurvær. En þegar hann er búinn að reka Jesú úr hjarta sínu, þá brýzt þar inn flokkur óhreinna anda og syndsamlegra girnda, sem hrekja manninn út á lastanna veg, þangað til myrkranna vald hefir algjörlega fengið yfirráð yfir honum og hann verður syndarinnar þræll. En því meir sem maðurinn þannig sökkur sèr niður í straum tímans, því meir sem hann gleymir tímans eilífa höfundi og herra, því meir missir hann líka sjónar á tilgangi tímans og lífsins; hann þykist þá sjálfur eiga ráð á tímanum og mega sóa honum burt eins og honum lízt; hann sèr ekki hvað tímanum líður, af því hann er háður myrkranna valdi. Náðartíminn líður fyr en hann varir, og þá upprennur dóms og reikníngskapar-tíminn. Ó, Jesú! gjörðu hjarta mitt að musteri þínu og kenndu þar á hverjum degi; kenndu mèr að þekkja minn vitjunartíma og verja tímanum vel; sannfærðu mig um syndina, rèttlætið og dóminn, og minntu mig jafnan á þína pínu og dauða; gefðu mèr náð til að geta handsamað þig, ekki „með sverði og forkum"

eins og Gyðíngarnir gjörðu, heldur með örmum trúarinnar og kærleikans, ekki „eins og ræníngja", heldur eins og frelsara minn og Drottinn; gefðu mèr náð til að halda þèr föstum í hjarta mínu, svo að hvorki líf nè dauði geti skilið mig við þig; því þegar eg hefi þig að eins, þá hirði eg hvorki um himin nè jörð. Amen.

---

# 9. hugvekja.

Þá yfirgáfu hann allir lærisveinarnir og flýðu. Maður nokkur úngur fylgdist með honum; hann hafði lín eitt klæða á berum sèr; og er flokksmennirnir vildu handtaka hann, kastaði hann línklæðinu og flýði nakinn í burt frá þeim.

---

Eins og vèr heyrðum, yfirgáfu nú allir lærisveinarnir Jesúm, flýðu og skildu hann einan eptir í höndum óvina sinna. Þó var hann ekki einn saman, því faðirinn var með honum. Sá er aldrei einn, sem hefir Guð almáttugan í för með sèr, þó hann sè yfirgefinn af öllum öðrum; hans hjálp og liðveizla hefir ætíð reynzt og mun ætíð reynast hið bezta og áreiðanlegasta athvarf í allri neyð og öllum þrautum. Sæll er sá, sem breytir þannig, að hann getur sagt með Davíð: „Drott-

inn er mitt ljós og mitt frelsi; hvern skal eg hræðast? Drottinn, hann er vörn míns lífs, fyrir hverju skal eg skelfast"? (Sálm. 22., 1.). Hvað flótta lærisveinanna snertir, þá hafði Jesús áður sagt við Gyðíngana: „látið þessa á burt fara", og þannig ætlazt til, að lærisveinar hans skyldu forða lífi sínu. Mannlegur veikleiki varð hèr eins og optar meðal í hendi hins almáttuga til að framkvæma hans ráðsályktanir. Hefðu Jesú lærisveinar ásamt honum verið handteknir og látið líf sitt, þá hefðu þeir ekki getað verið sendiboðar hans meðal þjóðanna til að flytja þeim lærdóminn um guðsríki. En af þeirra dæmi sjáum vèr líka, hvernig Guð er máttugur í veikleikanum, því þessir sömu menn, sem nú voru svo hræddir og huglausir, að þeir yfirgáfu Jesúm og flýðu frá honum, urðu seinna þær mestu Guðs hetjur, sem nokkurn tíma hafa til verið, og vitnuðu um Jesúm með svo einstaklegri djörfúng og hugprýði, að þeir glaðir gengu móti ofsóknum, fangelsi og dauða fyrir hans nafns sakir; og lýsir Páll postuli lífskjörum og hugarfari þeirra með þessum orðum: „Í öllu þjökumst vèr, en látum þó ekki hugfallast; erum vonlitlir, en örvínglumst þó ekki; ofsóktir, en þó ekki hjálparlausir; felldir til jarðar, en tortýnumst þó ekki. Jafnan berum vèr deyðíngu Jesú á líkamanum, svo að Jesú líf auglýsist á vorum líkama; því þó vèr lifum, erum vèr jafnan til dauða seldir vegna Jesú, svo að hans líf einnig augljóst verði í vorum dauðlega líkama" (2. Kor. 4.,

7.—11.). Ó, Guð minn góður! hversu ólíkt var líferni þeirra lífernisháttum kristinna manna á vorum dögum! Nú hugsa fæstir um annað en að lifa í næði og makindum og eiga góða daga. Að vísu heimtar Drottinn ekki annað eins hörmúngalíf af oss eins og þeir urðu að reyna; en hann heimtar þó af oss sannkristilegt hugarfar, það hugarfar, sem væri reiðubúið að leggja líf og eignir í sölurnar fyrir Kristi nafns sakir, ef það væri nauðsynlegt til að útbreiða Guðs dýrð og hans ríki meðal mannanna. Ætíð verður sú krafa til vor eptir, „að vèr reynumst trúir" og að vèr tökum vorn kross á oss og fylgjum frelsara vorum, ef vèr viljum vera hans lærisveinar. Fylgir þú þá frelsara þínum, kristinn maður! þegar þú skorast undan sèrhverri skyldu, sem heimtar áreynslu og sjálfsafneitun? þegar þú ber þann kross, sem Drottinn hefir lagt þèr á herðar, með mögli og óþolinmæði? Þú veizt, að hið kristilega trúarlíf er stríð og barátta, að vèr erum hermenn Jesú Krists og eigum að berjast hraustlega undir hans merkjum. En undan merkjum frelsara þíns flýr þú og yfirgefur hann, þegar þú hættir að stríða við girndir þínar og fellur fyrir sèrhverju áhlaupi freistínganna; þegar þú ekki þorir að tala sannleikann, eða gjöra það sem rètt er, af ótta fyrir mönnum, eða þú lætur einhverja tímanlega hagsmuna von aptra þèr frá því; þegar þú festir hug og hjarta við heiminn, við hina veraldlegu hluti, en gleymir frelsara

þínum og þinni eilífu sáluhjálp, og í stuttu máli: þegar þú ekki hirðir um, að láta hið sama lunderni búa í þèr, sem var í Jesú Kristi. Þú yfirgefur Jesúm, þegar þú yfirgefur sjálfan þig og þína sönnu sálarheill. Æ, Drottinn minn! hversu opt hefi eg ekki yfirgefið þig og flúið frá þèr; hversu opt hafa ekki vondar hugsanir vaknað í sálu minni; hversu opt hafa ekki syndsamlegar girndir hreift sèr í brjósti mínu; hversu mörg ónytjuorð hafa ekki fram gengið af vörum mínum; já, hversu opt hefi eg ekki hrasað og fallið; hversu opt hefir ekki trúin og kærleikurinn ætlað að deyja í hjarta mínu; hversu opt hefi eg ekki hörfað undan og flúið, þegar eg átti að ganga fram og berjast! Þessa sorglegu játníngu megum vèr vissulega allir gjöra, bræður góðir! Guð gæfi, að vèr allir gjörðum hana af hjarta, því þá mundum vèr allir finna oss knúða til að biðja hann að senda oss styrk og krapta af hæðum, til að geta hèreptir barizt trúarinnar góðu baráttu og höndlað eilíft líf; knúða til að biðja hann að senda oss „anda máttarins og kærleikans og stillíngarinnar, svo vèr ekki fyrirverðum oss fyrir vitnisburð Drottins vors, heldur þolum illt vegna náðarlærdómsins, styrktir af Guðs krapti" (2. Tím. 1., 7.—8.). Ó, Jesú! þú reynist ætíð trúr og afneitar aldrei sjálfum þèr; þú hefir aldrei yfirgefið mig, þó eg hafi reynzt ótrúr; þú hefir alltaf munað til mín, þó eg hafi gleymt þèr; þú hefir alltaf leitazt við að leiða mig á rèttan

veg, þó eg hafi villzt í solli veraldarinnar. Æ, yfirgef þú mig aldrei; gef þú mèr náð til að fylgja þèr, fylgja þèr fram í dauðann, þá verður dauðinn mèr inngangur til lífsins, til eilífs lífs og eilífrar sælu! Amen.

---

# 10. hugvekja.

En flokkurinn, fyrirliðinn og þjónar Gyðínganna gripu Jesúm og bundu hann, og leiddu hann fyrst til Hannasar, sem var tengdafaðir Kaífasar, sem það árið var æðsti prestur, og hafði gefið Gyðíngum það ráð, að betur færi að einn maður væri líflátinn fyrir þjóðina. Þeir leiddu þá Jesúm inn fyrir æðsta prestinn Kaífas, hvar allir kennimannahöfðíngjar, skriptlærðir og öldúngar voru saman komnir. Kennimannahöfðínginn spurði Jesúm þá að hans lærisveinum og kenníngu, en Jesús svaraði honum: „Eg hefi opinberlega talað í heiminum, með jafnaði kennt í samkunduhúsum og í musterinu, hvar allir Gyðíngar koma saman, en ekkert hefi eg í leyni talað. Hví spyr þú mig að þessu? Spyr heldur þá þar að, sem heyrt hafa hvað eg talað hefi til þeirra, því þeir vita hvað eg hefi sagt". En er hann

talaði þetta, þá gaf einn þjónanna, er stóð þar hjá, honum hnefahögg, og sagði: „Svarar þú svona prestahöfðíngjanum"? Jesús svaraði: „Hafi eg talað rangt, þá sanna þú það; en hafi eg talað rètt, hví slær þú mig"?

---

Nú byrjuðu hinar líkamlegu þjáníngar frelsara vors, fjötur og hnefahögg, húðstroka, þyrnikrýníng og krossfestíng með allri þeirri harðýðgi og háðúng, sem mannleg vonzka gat upphugsað; en alltaf var hans guðdómlega stillíng og hógværð sjálfri sèr lík. Ó! mikið megum vèr blygðast vor, Drottinn minn! þegar vèr berum þitt heilaga ljúfmennsku dæmi saman við hroka vorn og sjálfsþótta, sem ekki þolir öðrum eitt styggðaryrði, ekki þolir, að virðíngu vorri sè í hinu allraminnsta misboðið, án þess hjarta vort fyllist þykkju og þjósti, sem einatt brýzt út í orðum og verkum. Og af hverju höfum vèr þá að stæra oss? Allt gott, sem vèr eigum og njótum, höfum vèr þegið af einskærri náð, og ekkert getum vèr eignað sjálfum oss nema syndir vorar og þá ófarsæld, sem af þeim leiðir. Án þessarar játníngar, án auðmjúkrar viðurkenníngar þess, að vèr eigum alla hluti Guðs náð og miskun að þakka, verða jafnvel hans beztu gjafir oss til syndar, þareð þær þá vekja hjá oss drambsemi, hroka og heimtufrekju, í stað þess að gjöra oss auðmjúka, hógværa og mannelsku-

fulla. Jesús er nú krafinn til reikningskapar fyrir kenníngu sína af prestahöfðíngja Gyðínganna. þetta sýnir oss, hvernig syndin truflar það samband, sem á að vera milli Drottins og vor; hið mannlega tekur sèr dómsvald yfir hinu guðlega og spillíngin kallar heilagleikann til reikníngskapar. En ferst þèr ekki líkt, syndugur maður! þegar þú möglar yfir Guðs stjórn og handleiðslu og segir við hann: „hvað gjörir þú"? Þú spyr hann ekki að, hvað hann hafi kennt, því þú veizt, að þú ættir að þekkja hans lærdóm, og finnur með sjálfum þèr, að þú hefir ekki gefið nógar gætur að honum þèr til menntunar og lífernisbetrunar. Þú spyr hann ekki um hans lærisveina, því að þú finnur með sjálfum þèr, að þú ættir að vera einn í þeirra tölu, en hefir vanrækt flest það, sem hann heimtar af sínum sönnu lærisveinum. Þú spyr hann ekki um neitt af því, sem getur lækkað drambsemi hjarta þíns og leitt þig til iðrunar og apturhvarfs, heldur heimtar þú af honum með sjálfskyldu að gjöra grein fyrir því, hvers vegna þú fáir ekki allt það, sem þín spillta náttúra girnist. En innan lítils tíma verður þú sjálfur kallaður fram fyrir dómstól hins eilífa til að standa reikníngskap af því, hvernig þú hafir varið þessu lífi, sem hans náð gaf þèr til undirbúníngs undir eilífðina, hvernig þú hafir varið þeim gáfum, kröptum og hæfilegleikum, sem hann lènti þèr; og muntu þá geta tekið þèr orð frelsara þíns í munn og sagt: „Eg hefi opinberlega talað í heiminum; ekkert hefi eg í leyni talað; hví spyr þú mig

að þessu? Spyr heldur þá þar að, sem heyrt hafa hvað eg talað hefi til þeirra, því þeir vita hvað eg hefi sagt". Muntu þá geta vitnað til þeirra, sem voru samferðamenn þínir á lífsleiðinni, um það að þú hafir aldrei talað það, sem hneyxlaði aðra og var þeim til ásteytíngar, að aldrei hafi fíflslegt hjal nè ónytjuorð framgengið af munni þínum, heldur hafir þú jafnan talað það, sem miðaði til að útbreiða Guðs dýrð og hans ríki? En þó enginn yrði til að ásaka þig fyrir ókristileg orð, mundir þú þarfyrir vera sýkn saka í augum hins heilaga og rèttláta alheimsdómara, sem þekkir sèrhverja syndsamlega hugsun, sèrhverja óhreina girnd, sem kviknar í sálu þinni; sem þekkir allt, sem í leyni skeður? Æ, syndugur maður! kalla þú sjálfan þig til reikníngskapar áður en hinn mikli dóms og reikníngskapar dagur upp rennur; kalla þú sjálfan þig til reikníngskapar fyrir dómstóli samvizku þinnar, og ber þú breytni þína og hugarfar þitt vandlega saman við Guðs heilaga orð: og þá munt þú komast að raun um, að þú ert syndugur og hegningarverður. Ó, Guð! allir erum vèr fjarlægir því helgunarinnar takmarki, sem þú ætlaðir oss að ná; það vitnar samvizka vor; það vitnar þitt heilaga orð; það vitnar dæmi vors himneska lausnara, og það mun algjörlega sannast þegar vèr á síðasta degi mætum frammi fyrir þínum dómstóli, og það verður allt í ljós leitt, sem nú er í myrkrunum hulið. Æ, vert þú oss þá vægur og miskunsamur dómari, í Jesú nafni! Amen.

## 11. hugvekja.

En Símon Pètur fylgdi Jesú eptir álengdar og annar lærisveinn; en sá lærisveinn var kunnugur þeim æðsta presti og gekk inn með Jesú i hús prestahöfðíngjans, en Pètur stóð fyrir utan dyrnar. Þá gekk út hinn annar lærisveinn, sem kunnugur var prestahöfðíngjanum, talaði við þá þernu, sem gætti dyranna og leiddi Pètur inn. Þjónarnir höfðu kveikt eld í miðri forstofunni og vermdu sig, því kuldi var. Pètur setti sig þar hjá þeim og vermdi sig, svo hann sæi, hver endir þar á yrði. Þá sagði þernan, sem gætti dyranna, við Pètur: „Ertu og einn af lærisveinum þessa manns"? En Pètur neitaði því opinberlega og svaraði: „Kona! ekki er eg það; eg þekki hann ekki, og skil ekki hvað þú segir". Þjónarnir stóðu og ornuðu sèr og Pètur hjá þeim. Litlu síðar gekk Pètur út í fordyrið og þá gól haninn. Önnur þerna leit þá við Pètri og sagði við þá, er hjá stóðu: „þessi var einnig með Jesú frá Nazaret." Þeir sögðu þá til hans: „ertu ekki einn af hans lærisveinum"? og annar sagði: „vissulega ertu einn af þeim". Pètur neitaði því ennþá, sór sig og sagði: „Ekki er eg það, og ekki þekki eg

þenna mann, sem þið talið um". Stundu síðar styrkti einhver annar það og sagði: „sannarlega ertu einn af þeim, því þú ert frá Galíleu og túngumál þitt opinberar þig". Þá kom einn af biskupsþjónunum, frændi þess, er Pètur hjó eyrað af, og sagði: „Sá eg þig ekki í grasgarðinum með honum"? Þá tók Pètur til að formæla sèr og sverja, að ekki þekkti hann þenna mann, sem þeir töluðu um. En jafnsnart er hann svo talaði, gól haninn í annað sinn.

---

„Sá, sem þykist standa, gæti að sèr, að hann ekki falli". Þessi áminníng Páls postula (1. Kor. 10., 12.) er lík þeirri, sem frelsarinn gaf lærisveinum sínum í grasgarðinum, þegar hann sagði: „vakið og biðið, svo þèr fallið ekki í freistni; því andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt". Vèr erum svo breyskir og þreklausir, að vèr megum aldrei reiða oss á vora eigin krapta, aldrei hætta að hafa vakanda auga á sjálfum oss, og aldrei gleyma því, að leita liðs og krapta hjá Drottni, sem einn er máttugur í veikleikanum. Ef vèr sleppum árvekni og bænrækni úr huga vorum, þá er oss búið fall og hrösun. Merkilegt dæmi upp á þetta, merkilegan vott um veikleika mannlegs eðlis sjáum vèr af breytni Pèturs, þegar hann afneitaði frelsara sínum. Í

samfleytt þrjú ár hafði hann verið sjónarvottur að Jesú dásemdarverkum og heyrnarvottur að hans himnesku kenníngu; hann hafði sèð dýrð frelsarans á fjallinu helga, og nú fyrir skemstu í áheyrn hinna lærisveinanna hafði hann heitið því, að ganga með honum jafnvel í sjálfan dauðann; þó afneitar hann nú Drottni sínum þrisvar hvað eptir annað, já, sver sig og sárt við leggur, að hann ekki þekki hann. Það sem kom Pètri til þessa var ótti fyrir mönnum; hann sá, að nú var fyrir alvöru reynt til að ráða meistara hans af dögum, og óttaðist því fyrir, að lífi sínu kynni einnig að verða hætta búin, ef hann segði hver hann væri; til að frelsa hið tímanlega líf, stofnaði hann sínu eilífa lífi í hættu. Margir hafa þurft minna en hann til að afneita frelsara sínum. Ótti fyrir álasi, eignamissi eða einhverjum öðrum tímanlegum óhagnaði hefir, því miður, komið mörgum til að afneita sannleikanum og yfirgefa hið góða málefni, af því þeir óttuðust mennina meir en Guð og elskuðu gæði þessa heims meir en hið himneska hnossið. Það var líka forvitni, sem kom Pètri til að ganga inn í hús æðsta prestsins, því hann vildi vita, „hver endir þar á yrði". Mun það ekki vera svipuð tilfinníng, sem hreifir sèr í margra brjósti, þegar þeir fyrst hætta sèr út á lastanna veg? Þá langar til að þekkja syndina af eigin reynslu og neyta ávaxta hennar, af því þeir trúa ekki guðsorði til þess, að „endir þeirra sè dauðinn", andlegur og eilífur dauði.

Enn fremur var það oftraust á sjálfum sèr, sem kom Pètri til að fylgja Jesú, eptir að búið var að handtaka hann, jafnvel þó Jesús væri nýbúinn að vara hann með þessum orðum: „Þangað sem eg fer, getur þú ekki fylgt mèr að sinni". Hann þóktist standa fast og þekkti ekki veikleika sinn. Ó, hversu opt hrösum vèr ekki eins og hann, af því að vèr hlaupum í hugsunarleysi á móti freistíngunum, í stað þess að forðast þær og sneiða hjá þeim, og höldum, að vèr sèum sterkari fyrir en vèr erum. Það sem einnig var orsök í hrösun Pèturs var það, að hann gaf sig í kast við þjóna og þernur æðsta prestsins; og eins fer fyrir þèr, kristinn maður! ef þú að þarflausu leggur lag þitt saman við óráðvanda menn, því „vondur fèlagskapur skemmir góða siði" og „lítið súrdeig sýrir allt deigið" (Gal. 5., 9.), og fyrr en þig varir, ert þú búinn að draga dám af þínum óguðlegu sessunautum, og endar með því að afneita frelsara þínum. „Sá, sem þykist standa, gæti því að sèr, að hann ekki falli". Þú heldur, kristinn maður! að það muni ekki koma fyrir þig að afneita frelsara þínum, af því þú bæði þekkir hver hann sè, og hikir þèr ekki við að meðkenna hann fyrir mönnum. En gættu þess, að þekkíngin ekki verði þèr til dómsáfellis; gættu þess, að þó þú ekki afneitir frelsara þínum í orði, þá gjörir þú það í verki, þegar þú vísvitandi og iðrunarlaust heldur áfram í syndum þínum; gættu að því, að vera ekki einn í

þeirra tölu, sem Páll postuli talar um, þegar hann segir: „þeir viðurkenna, að þeir þekki Guð, en neita því með verkunum; þeir eru viðurstyggilegir, þverúðarfullir og til hvers góðs verks óhæfir" (Tít. 1., 16.). Gættu að þèr, að verða ekki einn í þeirra tölu, sem frelsarinn á efsta degi útskúfar frá augliti sínu með þessum orðum: „Eg þekki yður ekki". Gætum vor allir í tíma, kærir bræður! forðumst að afneita frelsara vorum með hugarfari og líferni voru, en ástundum að prýða hans lærdóm í öllum greinum. Ó, Jesú! hversu opt hefi eg ekki afneitað þèr í hugsunum, orðum og verkum; hversu opt var ekki hjarta mitt fullt af hègómlegum hugsunum og veraldlegri áhyggju; hversu opt voru ekki orð mín ósamboðin þínum heilaga lærdómi, og hversu opt lýstu ekki verk mín því, að þau spruttu úr köldu og kærleikslausu hjarta! Æ, sendu mèr þinn anda og láttu hann hafa helgandi áhrif á hugarfar mitt og alla mína breytni, svo eg geti verið sannur lærisveinn þinn og finni til þess og viðurkenni það í lífi og dauða, að þú ert frelsari minn og Drottinn: þá get eg lifað og dáið í þínu nafni. Amen.

# 12. hugvekja.

Drottinn snèri sèr við og leit til Pèturs; minntist þá Pètur þess, er Drottinn hafði sagt við hann: „Áður en haninn gelur tvisvar, muntu afneita mèr þrisvar". Og Pètur gekk út og grèt sáran.

---

Eins og Pètur var fljótur til að hrasa, eins var hann líka fljótur til að iðrast. Margir líkjast honum í því, að þeir eru fljótir til að falla, en eru honum, því miður, ólíkir í því, að þeir eru seinir til að iðrast. Iðrun Pèturs var einlæg og alvarleg; en margra iðrun er ekki annað en hræsni og hálfvelgja. Iðrun Pèturs hafði helgandi áhrif á gjörvallt líferni hans þaðan í frá, svo hann varð einhver sú mesta Guðs hetja og máttarstoð kristninnar, og lèt loksins glaður lífið fyrir Jesú nafns sakir; en margra iðrun er svo varið, að þeir um stund gráta syndir sínar, en falla jafnskjótt aptur frá á freistínganna tíma, svo að hin síðari villa þeirra verður verri en sú fyrri, og líf þeirra ekki annað en sífeld hrygð og hrösun; en slík hrygð er ekki eptir Guði og verkar ekki apturhvarf til sáluhjálpar. Undir eins og Pètur varð var við yfirsjón sína, „gekk hann út og grèt sáran". Hann gat ekki lengur haldizt við á þessum stað, og hjarta hans hefði sprúngið, hefði hann ekki getað komizt út og grátið. Lær þú af þessu, syndugur maður!

að flýja og forðast allt, sem getur komið þèr til að afneita frelsara þínum, allt, sem getur freistað þín til syndar. Það voru beisk tár, sem Pètur felldi; en þau voru líka sæt. Tárin eru raunalèttir fyrir hin sorgmæddu hjörtun, og það er ein af Guðs velgjörðum að geta grátið. Að vísu eru tár iðrunarinnar beisk meðan hjartað titrar og skelfur af ásökunum samvizkunnar, meðan það er að verða sundurkramið af tilfinníngu syndasektar sinnar; en þessi tár verða sæt, þegar ylgeislum guðlegrar náðar slær niður í hjartað og hin harmþrúngna sálin fær djörfúng til að varpa sèr í faðm Guðs miskunar. Þá fær syndarinn huggun og frið við Guð og krapt til að ganga í nýju líferni. Hvað var það, sem vakti þessi iðrunartár hjá Pètri? Með fram það, að hann minntist þess, sem Jesús hafði sagt við hann: „áður en haninn gelur tvisvar, muntu afneita mèr þrisvar"; en þó fyrst og fremst Jesú augnatillit. — „Drottinn snèri sèr við og leit til Pèturs". Vèr getum naumast gjört oss ljósa hugmynd um, hversu viðkvæmt og guðdómlegt þetta augnatillit hefir verið; en vèr getum þó gjört oss hugmynd um þá sáru kærleikans tilfinníngu, sem lýsti sèr í þessu himneska augnatilliti frelsara vors. Æ, er það ekki líka eins og eitthvað svipað beri fyrir sjónir vorar, þegar vèr hrösum? Er það ekki eins og auga hins eilífa kærleika líti til vor og vili draga oss til sín? Þá þurfum vèr líka þess hvað helzt við, að auga Guðs miskunandi náðar líti til vor

og flyti þau huggunarfullu orð inn í sálu vora, að „Guð vili ekki brjóta hinn brákaða reyr nè slökkva hinn líttloganda hörkveik". Drottinn talaði til Pèturs með sínu himneska augnatilliti; hann talar enn til vor í samvizku vorri, í sínu heilaga orði, í þeim náðarvelgjörðum, sem hann veitir oss, í þeim krossi, sem hann leggur oss á herðar, í þeim góðu hugarhræríngum, sem hans andi kveikir í sálum vorum. Pètur svaraði frelsara sínum með tárum iðrunarinnar. — En með hverju svörum vèr þèr, Drottinn minn? Einatt með nýjum og nýjum syndum; þegar þú talar til vor með þínu himneska augnatilliti, þá snúum vèr oss einatt undan, svo það ekki hræri hjörtu vor nè ónáði oss í voru holdlega andvaraleysi. Ó! gæti þitt himneska auga grátið, þá mundi það einatt mega tárast yfir harðúð vorri og voru óbetranlega hugarfari. En hversu lengi á þetta svo til að ganga? Hversu lengi ætlum vèr að sporna við því, að Jesú náðarríka augnatillit geti leitt oss til iðrunar og apturhvarfs? Æ! gætum þess, að því lengur sem vèr skjótum iðrun vorri á frest, þess öðrugra verður oss apturhvarfið. Syndavaninn, skeytíngarleysið og hálfvelgjan gjörir oss alltaf óhæfilegri til að veita Guðs náðarverkunum móttöku, deyfir tilfinníngu vora fyrir rèttu og röngu og blindar alltaf augu vor meir og meir, svo vèr að lokunum algjörlega missum sjónar á frelsara vorum. Gætum þess, að þó vèr byrgjum augu vor fyrir náðarinnar geislum, þá sèr þó auga

hins heilaga og alskygna alla vora breytni og sèrhverja syndsamlega tilhneigíng í voru brjósti, og að hann á síðan mun endurgjalda sèrhverjum eptir hans verkum. Úr augum frelsarans skín óendanleg ást og mildi, þegar hann lítur til hins breyska syndara; en hvað skín út úr augum þínum, kristinn maður! þegar þèr er eitthvað gjört á móti? Er það ekki einatt heipt og reiði eða fyrirlitníng og kuldi? Og sè nú augað spegill sálarinnar, hvílíkt er þá hjarta þitt! Breytir þú þá eptir frelsara þínum? Æ! Guð náði oss auma syndara og líti til vor í miskun sinni, svo vèr getum gengið út með Pètri og grátið sáran. Þegar eg heyri, að Pètur gekk út og grèt, og eg virði fyrir mèr hrösun hans, hvernig fæ eg þá tára bundizt? Hann hrasaði, og eg hrasa daglega; hann grèt og eg græt líka. Æ! líttu á tár mín, lausnari minn! líttu til mín eins og til Pèturs, og vertu mèr náðugur! Ó, láttu mig ganga út frá mínum ljóta syndavana og aldrei snúa til hans aptur! Þitt himneska náðarauga veki daglega iðrunartár í hjarta mínu, af því eg svo opt hefi styggt og móðgað þig; en þerra þú líka daglega tárin af augum mínum með þínum huggunarríku fyrirheitum, og láttu þína ásjónu lýsa yfir mig þangað til eg fæ að sjá þig augliti til auglitis á sælunnar landi, þar sem engin tár og engin synd er framar til, í þínu eilífa dýrðarríki, þar sem allt er rèttlæti, friður og fögnuður í heilögum anda. Amen.

---

# 13. hugvekja.

Þeir æðstu prestar og öldúngar leituðu ljúgvitna gegn Jesú, svo að þeir fengju honum í hel komið, en fundu engin; þó að margir ljúgvottar kæmu fram, bar engum þeirra saman. Að síðustu komu tveir falsvottar fram, er báru ljúgvitni móti honum, og sögðu: „Við höfum heyrt hann segja: ‚eg get brotið þetta musteri Guðs, sem er mannaverk, og byggt aptur innan þriggja daga annað, sem ekki er gjört af manna höndum'". En vitnisburðir þessara urðu ekki heldur samhljóða. Æðsti presturinn stóð þá upp, spurði Jesúm og sagði: „Svarar þú engu til þess, sem þessir vitna á móti þèr"? Jesú svaraði engu. Æðsti presturinn spurði hann aptur og sagði: „Eg særi þig við hinn lifanda Guð, að þú segir oss það, ef þú ert Kristur sonur Guðs". Jesús svaraði: „Svo er sem þú sagðir, en trúið mèr, að eptir þetta munuð þèr sjá mannsins son sitja til hægri handar hins alvalda Guðs og komanda í skýjum himins". Þá reif hinn æðsti prestur klæði sín og mælti: „Hann guðlastar; hvað þurfum vèr nú framar vitnanna við? nú heyrðuð þèr sjálfir hans guðlöstun. Hvað lízt yður"? En þeir kváðu hann allir dauða sekan.

---

Jesús hafði af frjálsum vilja gefið sig í hendur óvina sinna. Síðan var hann fluttur fram fyrir hið mikla ráð, sem þegar hafði ályktað að sakfella hann, en leitaði einúngis að einhverri átyllu til að fegra með þenna rangláta dóm. Ljúgvottar voru nú fengnir, en vitnisburði þeirra bar ekki saman, eins og þeir líka rangfærðu og afbökuðu Jesú orð. Það er lýginnar einkenni, að hana vantar innvortis samhljóðun, og hlýtur því fyr eða síðar að detta um sjálfa sig. Ó! hversu opt hafa Jesú orð verið rangfærð, misskilin og misbrúkuð, til að hylja með þeim vonzku og rangindi; en þó standa hans orð að eilífu stöðug, af því þau eru líf, andi og sannleikur. Ó! hversu margir ljúgvottar hafa ekki verið í veröldinni, sem hafa borið falskan vitnisburð á móti náúnga sínum, ljóstað ósönnum óhróðri upp um saklausa og með alls konar ýkjum og lýgi reynt til að drepa niður góðu mannorði bræðra sinna. En einhvern tíma mun þó sannleikurinn vinna sigur; einhvern tíma mun þó rèttlátur Guð leiða hið sanna í ljós og hegna lýginni. — Æðsti presturinn hvatti Jesúm til að færa vörn fyrir sig. En frammi fyrir slíkum dómendum hefði öll vörn orðið árangurslaus, því að þessir óguðlegu og samvizkulausu menn höfðu enga tilfinningu fyrir hinu sanna og rètta, og þeir mundu sannarlega hafa snúið út úr Jesú svari og rangfært það. Þess vegna svaraði Jesús engu. Það kemur stundum fyrir í mannlegu lífi, að þögn er áhrifa-

meiri en nokkur orð. Með þögn sinni og þolinmæði hefir Jesús kennt oss, hvernig vèr eigum að breyta, þegar vèr verðum fyrir ósönnum áburði; hann hefir sýnt oss, að vèr eigum ekki að þjóta upp í bræði og reiði, þó oss sè eitthvað misboðið í orðum, nè launa illyrði með illyrðum, heldur fyrirgefa og halda oss frá öllum ónytjuorðum. Jesús þagði og svaraði engu; en með því meiri djörfúng geta nú allir, sem verða fyrir einhverjum órètti, allir þjáðir krossberendur, ávarpað hann og borið upp við hann öll sín vandkvæði og allt, sem að þeim amar, og hann mun svara þeim og tala til þeirra orð huggunarinnar og hins eilífa lífsins og veita sálum þeirra hvíld. Þegar æðsti presturinn sá, að hann gat engu áorkað með ljúgvottunum, þá tók hann til annara bragða, til að ná tilgangi sínum. Jesús hafði opt kallað sig Guðsson, í þeim skilníngi, að hann væri sama eðlis og faðirinn. Þess vegna höfðu Gyðíngarnir optar en einu sinni ásakað hann fyrir guðlöstun og reynt til að handtaka og grýta hann; en hann hafði sloppið úr höndum þeirra. Eptir þessum Jesú orðum mundi nú æðsti presturinn og ætlaði að veiða hann með þessari spurníngu: „Eg særi þig við hinn lifanda Guð að þú segir oss það, ef þú ert Kristur, sonur Guðs"? Við þessari spurníngu mátti frelsarinn ekki þegja. Að sönnu þurfti hún ekki beinlínis svars við; því henni var fullkomlega svarað af spádómunum, af Krists himnesku kenníngu og kraptaverkum, af þeirri

háleitu og himnesku tign, sem jafnvel í þessari hans djúpu niðurlægíngu skein út úr ásjónu hans. En þó vantrúin verði ekki sannfærð af neinu, jafnvel þó einhver framliðinna upprisi, var þó játníng hèr nauðsynleg, því Guðsson gat ekki afneitað sjálfum sèr. Að sönnu var líf hans komið undir svari hans; en hann var kominn til að láta lífið til lausnargjalds fyrir marga. Þess vegna svaraði hann hiklaust og með berum orðum: „Svo er, sem þú sagðir; en trúið mèr, að eptir þetta munuð þèr sjá mannsins son sitja til hægri handar hins alvalda Guðs og komanda í skýjum himins". Lofaður sèrtu, lausnari minn! fyrir þessa játníngu þína; til hennar vil eg halda mèr, hve nær sem trú mín tekur til að veiklast, og hún skal hvetja mig til að játa það fyrir heiminum, að þú ert sonur Guðs lifanda. Og á hinum myrku mæðustundum lífsins, þegar hjarta mitt er fullt af angist og órósemi og þú sýnist byrgja ásjónu þína fyrir mèr, og náðarsól þín er eins og hulin dimmum skýjum, og þegar eg niðurbeygður af minni syndabyrði þori ekki að lypta augunum upp til himins, heldur andvarpa óttasleginn og segi: „ertu Jesú enn þá frelsari minn"? æ! láttu þá þessi huggunarfullu orð hljóma í hjarta mínu: „já, eg er það", svo að eg finni til þess í sálu minni, að þú situr til hægri handar hins alvalda Guðs og biður fyrir mèr, og geti óskelfdur hugsað til þess, að þú munt koma í skýjum himins til að dæma lifendur og dauða. Ó, Drottinn! hversu opt hefi

eg ekki syndgað með þögn; hversu opt hefi eg ekki syndgað með orðum! Hversu opt hefi eg ekki þagað, þegar eg átti að tala, og talað, þegar eg átti að þegja, eða talað það, sem var mèr til syndar. Hversu opt hefi eg ekki þagað, þegar eg átti að víðfrægja þína dýrð, þegar eg átti að taka málstað hins saklausa, þegar eg átti að aðvara, áminna og hugga. En hversu opt hefi eg þar á mót haft Guðs heilaga nafn gálauslega um hönd, bölfað í stað þess að blessa; já, talað margt það, sem aðrir hafa hneyxlazt á. Og þegar eg nú hugsa til þess, að eg á að standa reikningskap af þessu fyrir þínum dómstóli þegar þú kemur í skýjum himins: æ, þá skelf eg og titra af ótta og hefi ekkert að reiða mig á nema þína þögn og þína játníngu. En til þess að eg fái treyst þèr af öllu hjarta, bið eg þig að senda mèr þinn anda, anda stillíngarinnar og sannleikans, svo eg hèreptir mæli það eina af gnægð hjartans, sem þèr er þóknanlegt. Tala þú minu máli og bið þú föðurinn fyrir mèr! Amen.

---

# 14. hugvekja.

Þá hræktu sumir á Jesúm, huldu hans ásjónu, hæddu hann og slóu með knefum, einkum þjónarnir, og sögðu: „Spá þú nú, Kristur!

hver var það, sem sló þig"? Og margar aðrar háðúngar töluðu þeir við hann.

---

Í stað þess með lotníngu að leggja trúnað á Jesú játníngu um sína guðlegu tign, notuðu Gyðíngar sèr af henni, til að upp kveða dauðadóm yfir honum. Það gat ekki hjá því farið, að Krists orð hefðu mikil áhrif á þá; en þeir skipuðust ekki við þau, heldur æstust enn meir í vonzku sinni. Æðsti presturinn reif klæði sín, sem merki upp á sárustu gremju, og allir kölluðu þeir orð frelsarans guðlöstun og kváðu hann dauðasekan. En af því þeir máttu ekki þegar í stað ráða hann af dögum, tóku þeir nú til að svala bræði sinni með því að misþyrma honum á ýmsar lundir, eptir því sem grimd og guðlaus mannvonzka blès þeim í brjóst. Hans heilögu ásjónu, sem englarnir girntust að sjá, ötuðu þeir svívirðilegum hrákum og afmynduðu hana með knefahöggum, jafnframt því sem þeir gjörðu gys að hans spámannlegu tign. Getur ekki hjarta þitt komizt við, kristinn maður! þegar þú hugsar til þess, hvernig farið var með frelsara þinn, og hugleiðir, að hann varð að þola allar þessar hörmúngar vegna þinna synda? Fái þetta ekkert á þig, geti það ekki vakið hjá þèr neinn viðbjóð við syndinni, nè elsku til Jesú og þakklæti við hann, þá sýnir það berlega, að þú ert ekki snortinn af þeirri hrygð, sem er eptir Guði; að kuldi og kærleiksleysi hefir

gagntekið sálu þína og að syndin á þar djúpar rætur. Því miður sýnir sorgleg reynsla, að þessu er þannig varið hjá mörgum, sem kristnir kallast, og líferni þeirra lýsir því, að trú þeirra er dauð og hjarta þeirra þverúðarfullt. Já, því fer svo fjarri, að Jesú pína hafi betrandi áhrif á hugarfar þeirra, að þeir með breytni sinni fylla þeirra flokk, sem kvöldu hann og hæddu. Eða má ekki svo að orði kveða, að þeir hræki á Jesúm, sem fyrirlíta og fótum troða hans lærdóm, sem ekkert skeyta því, sem hann hefir boðið og daufheyrast við öllum hans áminníngum? Er ekki eins og þeir hyli Jesú ásjónu, sem lifa eins og þeir ekki þekktu hann og hann væri þeim hulinn, eins og hann aldrei hefði verið til, aldrei lifað nè dáið vegna mannanna synda? Er það ekki eins og þeir slái Jesúm með knefum, þegar þeir hafa heiptrækið og hatursfullt hjartalag, þegar þeir lifa í illdeilum og ófriði við sína samkristnu bræður, sem hann af kærleika hefir látið lífið fyrir og sem hann hefir sagt um, að það sem gjört væri við þá, það væri sèr gjört? Er það ekki eins og þeir hæði Krists spámannlegu tign, sem ekki vilja trúa hans orðum, ekki vilja trúa honum til þess, að syndum þeirra muni verða hegnt og að þeir muni uppskera það, sem þeir niðursáðu? Er það ekki eins og þeir gjöri gys að því, sem Jesús hefir kennt um Guðs heilaga rèttlæti, um sambandið milli syndar og hegníngar, um dauða, eilífð og dóm? — „Sá

óguðlegi segir í sínum ofmetnaði; „Guð skiptir sèr ekki af þessu"; þetta er öll hans hugsan: „enginn Guð er til" (Sálm. 10., 4.). Já, þeir hrækja allir á Jesúm, hylja hans ásjónu, hæða hann og slá hann með knefahöggum, sem með vísvitandi syndum aflaga þá guðsmynd, sem þeir eru skapaðir í; sem skekkja skilnínginn með fortölum sinnar spilltu holdlegu náttúru; sem með hræsnisfullum afsökunum þagga niður samvizkunnar aðvarandi rödd og deyfa tilfinníngu sína fyrir því, sem rètt er og gott. En þú guðhrædda, sanniðrandi sál! sem ert hrærð af Jesú friðþægjanda kærleika, sem hefir fengið óbeit á syndinni, af því hún var orsök í kvöl og pínu frelsara þíns; þú, sem af fremsta megni leitast við að hreinsa þig af saurugleik holdsins og andans og ganga í nýju líferni; þú, sem leggur alla stund á að líkjast lausnara þínum, sem er ímynd Guðs veru, og þannig fullkomna hans mynd í þèr: þú angrast að vísu af veikleika og breyskleika þínum og ert hrædd við þinn eigin vanmátt; en vertu hughraust og ókvíðinn! Drottinn er með þèr og styrkir þig, þegar þú leitar liðs og krapta hjá honum. Til þess hefir frelsari þinn þolað pínu og dauða, að þú gætir sigrað synd og dauða; til þess var hann hæddur, að þú gætir umborið fyrirlitníngu heimsins; til þess var hann sleginn knefahöggum, að þú gætir umborið árásir og ójöfnuð vondra manna; til þess var hann hrjáður og hrakinn og ásjóna hans hulinn, að þú af hon-

um lærðir hógværð og þolinmæði í sèrhverju böli og mæðu þessa lífs, og fengir litið hann með augum trúarinnar þangað til þú fær að sjá hann augliti til auglitis á landi lifenda. Ó! hversu einkisverðar eru þær þjáníngar, sem oss mæta, í samanburði við allar þær hörmúngar og háðúngar, sem hann hlaut að reyna; ó! hversu einkisverðar eru mótlætíngar nálægs tíma í samanburði við þá dýrð, sem við oss mun opinber verða, ef vèr berum þær með kristilegri þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja. Hið þýngsta mótlæti, sem vèr eigum við að stríða, er breyskleiki vor og syndir vorar; en þegar vèr stríðum í krapti Jesú pínu og dauða og í hans nafni, þá munum vèr vinna sigur yfir heiminum og sjálfum oss, og fyrir hans forþènustu sakir loksins úr býtum bera kórónu rèttlætisins. Gef þú oss, ó, Guð! þína náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 15. hugvekja.

Að morgni söfnuðust saman öldúngar lýðsins, hinir æðstu prestar og skriptlærðir og tóku ráð sín saman gegn Jesú, svo þeir gætu ráðið hann af dögum. Þeir leiddu hann inn fyrir ráðið og spurðu: „ert þú Kristur"? seg oss það". Jesús svaraði: „Þó eg segi yður

það, þá trúið þèr mèr ekki; en spyri eg yður einhvers, þá svarið þèr mèr ekki, eða látið mig lausan. En frá þessum tíma mun mannsins sonur sitja til hægri handar Guðs kraptar". Þá spurðu þeir allir: „ert þú þá Guðs sonur"? Hann mælti: „þèr segið satt, því eg em það". Þá sögðu þeir: „hvað þurfum vèr nú framar vitna við, þar vèr höfum sjálfir heyrt það af hans munni"? Þá stóð allur mannfjöldinn upp, og þeir bundu Jesúm, leiddu hann frá Kaífasi til þínghússins og seldu hann í hendur landstjórnaranum, hinum pontverska Pílatusi; en það var snemma morguns.

---

Nú hèldu Gyðíngarnir á ný ráðstefnu yfir Jesú og vildu fá hann til að staðfesta opinberlega þá játníngu, sem hann hafði gjört kvöldinu áður: að hann væri Guðs sonur og sá fyrirheitni Messías. Jesús ítrekaði nú hátíðlega þessa játníngu sína, jafnvel þó hann sæi vonzkufullan tilgang Gyðínganna, og segði þeim, að vantrú þeirra mundi ekki leyfa þeim að gefa sannleikanum gaum, nè láta hann aptra sèr frá að fremja það glæpaverk, sem þeir þegar höfðu staðráðið með sèr. En eins og vantrúin var skuld í þvermóðsku Gyðínganna, eins er hún enn í dag rót og uppspretta allra lasta. Því af hverju kemur spillíng mannsins öðru en því, að hann trúir ekki guðsorði;

trúir því ekki, að syndin hafi eins ófarsælar afleiðíngar fyrir hans andlegu og eilífu farsæld eins og guðsorð segir? En eins og vantrúin er lastanna móðir, eins er hún líka ávöxtur og afleiðíng lastanna; því hinn lastafulli sljófgar með syndavananum hæfilegleika sinn til að taka á móti áhrifum guðlegrar náðar, og missir að lokunum gjörsamlega sjónar á Guði og hans heilaga vilja. Vantrúin er því hættulegri sem heimurinn gjörir minna úr henni. „Það gildir einu", segir heimurinn, „hverju menn trúa, ef þeir lifa ráðvandlega"; eins og það sè mögulegt, að lifa ráðvandlega í kristilegum skilníngi án sannrar og lifandi trúar; það er hèr um bil eins og að segja, að það gildi einu þó trèð sè rotið og skemmt, ef það einúngis beri góðan og óskemdan ávöxt; eða: að það standi á sama, hve óhrein og eitruð uppsprettan sè, ef hún gefi hreinan og heilnæman svaladrykk. Trúin er rót og uppspretta hins andlega lífs hjá manninum; hún er sú sannfæríng, sem hann breytir eptir, það lífsafl, sem setur hann í hreifíngu. Trú eða vantrú mannsins hefir hin mikilvægustu áhrif, ekki einúngis á hans einstöku áform og fyrirtæki, heldur á gjörvallt hugarfar og háttalag hans. Ef þú af öllu hjarta trúir á Guðs föðurlegu gæzku; ef þú af öllu hjarta trúir því, að hans almætti viðhaldi kröptum þínum, að náð hans og speki stjórni lífskjörum þínum og að hann blessi allt, sem þú vinnur í hans ótta, þá hlýtur þessi trú að hafa áhrif á hvað eina,

sem þú áformar, og fylla hjarta þitt með auðmýkt og trúnaðartrausti. En vanti þig þar á mót þessa trú; haldir þú, að þú með hyggindum þínum getir sjálfur ráðið öllu, sem fram við þig kemur, og treystir engum nema sjálfum þèr, þá hlýtur einnig þetta sjálfstraust að hafa áhrif á hugarfar þitt, og fylla hjarta þitt með hroka og sjálfsþótta, meðan allt leikur í lyndi, en með óþolinmæði, mögli og hugleysi þegar á móti blæs. Þannig er því varið bæði í tímanlegum og andlegum efnum. Ef þú trúir á Guðs son, þá veizt þú, að Guð sökum hans verðskuldunar er þinn náðugur og miskunsamur faðir, sem hefir fyrirgefið þèr og daglega fyrirgefur þèr syndir þínar og yfirsjónir, þegar þú iðrast þeirra af hjarta; þá veizt þú líka, að hann með föðurlegri mildi elur önn fyrir þèr og að þú mátt varpa allri áhyggju þinni á hann; að þær þrautir og mótlætíngar, sem hann lætur þig reyna, eru betrunar og fullkomnunar meðul í hans mildiríku forsjónarhendi, sem eiga að kenna þèr undirgefni undir hans vilja og sýna þèr, hvernig þú átt að feta í fótspor frelsara þíns og líða með honum, svo þú megir með honum dýrðlegur verða. Þegar þú trúir og treystir þessu, þá fer þú ekki eptir öðru en guðsorði og lætur það eitt vera ljós á þínum vegum og lampa fóta þinna, hvernig sem allt hið stundlega byltist og breytist. Ef þú trúir á heilagan anda, þá veizt þú líka, að á þessari syndumspilltu jörð er til ósýnilegur guðsbarna söfnuður, „inn-

siglaður með þeim heilaga anda fyrirheitisins, sem er pantur arfleifðar vorrar, þangað til vor lausnarstund upprennur" (Efes. 1, 13.—14.); þá treystir þú því líka, að hið góða og sanna muni vinna sigur og að öll Guðs börn muni safnast í hans himneska ríki, sem er rèttlæti, friður og fögnuður í heilögum anda. Sè þessi trú lifandi hjá þèr, hlýtur hún að lypta hjarta þínu í auðmjúkri og innilegri bæn upp til hins eilífa andanna föður, og bænin hlýtur aptur að hafa áhrif á breytni þína, svo þú kappkostir að ganga eptir andanum og efla sáluhjálp þína með ótta og andvara. Ó, Drottinn! styrk þú vora veiku trú, svo hún verði sönn og lifandi og geti borið ávöxt í dygðugu og kristilegu líferni; hjálpa þú oss til að burtrýma öllum syndsamlegum girndum úr hjörtum vorum, því þær deyfa vora trúarsjón, en ala vantrú og holdlegt hugarfar, sem þèr er fráhverft og óvinveitt. Gef þú oss náð til þess, að geta geymt þitt orð í góðum og siðsömum hjörtum og finna til þess, að það er þinn kraptur til sáluhjálpar sèrhverjum, sem trúir. Láttu þinn anda taka sèr bústað í sálum vorum; láttu hann hafa helgandi áhrif á alla vora breytni, og bera vorum anda vitni um það, að vèr sèum þín börn, þangað til vèr, rèttlættir af náð, flytjum hèðan og fáum að sjá þig augliti til auglitis og þinn eingetinn son, frelsara vorn Jesúm Krist. Bænheyr oss í hans nafni. Amen.

## 16. hugvekja.

En þegar Júdas, sá er sveik Jesúm, sá að hann var til dauða dæmdur, iðraðist hann og skilaði hinum æðstu prestum og öldúngunum aptur þeim þrjátíu silfurpeníngum, og mælti: „Illa gjörði eg, er eg sveik saklausan mann". Þeir svöruðu: „Hvað kemur það oss við? sjá þú sjálfur fyrir því?" Þá kastaði hann silfrinu á musterisgólfið, skundaði þaðan og hengdi sig.

---

Það lítur svo út af guðspjallasögunum, að Júdas hafi ekki búizt við því, að Jesús mundi verða dæmdur til dauða. Ágirnd hafði komið honum til að svíkja Drottinn sinn, og hann hefir án efa fegrað þessi svik fyrir sjálfum sèr með þeirri hugsun, að Jesús mundi nú eins og optar áður komast úr höndum Gyðínganna, og að sèr væri því óhætt að taka við þeim þrjátíu silfurpeníngum. En þegar hann nú sá, að Jesús var dæmdur til dauða, þá vaknaði allt í einu hans vonda samvizka; hann hafði nú ekki lengur frið nè viðþol fyrir samvizkunnar ásökunum, og í angist sinni leitaði hann hinna æðstu presta. En eins og við var að búast, var ekki hjá þeim huggunar að leita, heldur gjörðu þeir þvert á mót gys að sálarangist hans með þessum köldu fyrirlitníngar-

orðum: „Hvað kemur það oss við? sjá þú sjálfur fyrir því"! „Þá kastaði hann silfrinu á musterisgólfið"; en þetta hjálpaði ekki heldur til að sefa samvizkukvöl hans, heldur greip hann nú til þess óyndisúrræðis, hrifinn af örvæntíng, að skunda burt og hengja sig. Ó, hvílík óttaleg endalykt! Marga hugvekju geta þessi hræðilegu afdrif Júdasar gefið oss, kristnir menn! Þau sýna oss meðal annars, að sannarleg hluttekníng og sönn vinátta ekki getur átt sèr stað hjá vondum og óguðlegum mönnum; þeir samlaga sig einúngis til að fremja það, sem er illt og syndsamlegt; en að því búnu yfirgefa þeir hver annan og hata og fyrirlíta hver annan í hjarta sínu; „þeir svíkja og verða sviknir", og það er eðlilegt, því þar sem syndsamleg eigingirni stjórnar athöfnum mannsins, þar vantar kærleikann og kristilegt hugarfar. Láttu því þessi áminníngarorð ritníngarinnar jafnan vera þèr hugföst: „þegar illir skálkar vilja lokka þig, þá fylg þeim ekki"! Ritníngin segir oss, að „ágirndin sè rót alls ills", og sjáum vèr þetta staðfest af dæmi Júdasar. Ágirndin gjörði hann að drottinssvikara, og margir hafa selt sálu sína fyrir tímanlegan hagnað og ávinníng. Þó er þetta ekki svo að skilja, að ágirndin sè sú einasta rót hins illa, því aðrir lestir geta líka verið það, heldur er hitt meiníngin, að það sè enginn löstur svo ljótur, enginn glæpur svo hryllilegur, að ágirndin geti ekki leitt hann af sèr. Þegar maðurinn ofurselur sig

einhverri syndsamlegri girnd án þess að veita henni mótspyrnu, þá getur hann aldrei vitað, hve langt hún muni leiða hann; já, óðar en hann varir, er hann einatt kominn fram á barm glötunarinnar, því girndirnar magnast ótrúanlega fljótt og ein syndin leiðir aðra af sèr, einn lösturinn annan. Varastu því, kristinn maður! að gefa þig á vald girnda þinna, en bið þú Guð heitt og iðulega, að gefa þèr vald yfir þeim, svo þær ekki leiði þig út á lastanna veg, heldur getir þú stjórnað þeim samkvæmt Guðs vilja og skynseminnar boðum. Af Júdasar dæmi sjáum vèr enn fremur, að iðranin má ekki vera án trúar, svo hún verði ekki að örvænting. Júdas iðraðist syndar sinnar og játaði hana; en hann örvænti sèr Guðs náðar og hèlt, að synd sín yrði sèr ekki fyrirgefin, og því var iðrun hans ekki sönn iðrun. Sönn iðrun er samfara trúnni á Guðs eilífu miskunsemi; en örvæntíngin, eða angur án trúar og huggunar, án friðar og fyrirgefningar, er óumræðileg kvöl, og í henni er eilíf hegníng fordæmdra að miklu leyti innifalin. Ó, Drottinn! einnig eg hefi syndgað í himininn og fyrir þèr, og, ef til vill, er eg eins hegningarverður í þínu heilaga augliti eins og Júdas. Hversu opt hefi eg ekki selt þig fyrir tímanlegan hagnað, slitið samfèlag við þig, til þess að geta samlagað mig heiminum, hrundið þèr burt úr hjarta mínu, til þess að geta gjört það að bústað veraldlegrar áhyggju, syndsamlegrar hègómadýrðar og

óhreinna girnda. En þó vil eg ekki örvænta mèr þinnar náðar, heldur treysta því, að þar sem syndin yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þó náðin enn framar; treysta því, að þú vilir ekki syndarans dauða, heldur að hann snúi sèr og lifi. Ó, Guð minn! gef þú mèr náð til þess eptirleiðis að fram ganga með varkárni og í þínum ótta; láttu mig hugleiða upphaf sèrhverrar syndar; gættu mín eins fyrir hinum smærri sem hinum stærri syndum, því að hinum smærri syndum fylgja stærri syndir, vond samvizka og eilíf hegníng. Og verði mèr að hrasa, æ! reis þú mig þá á fætur aptur, varðveittu mig frá örvænting og vek þú mig af dauðasvefni syndarinnar. Bænheyr þú mig og alla, sem biðja þig af hjarta, í Jesú nafni! Amen.

---

# 17. hugvekja.

Æðstu prestarnir tóku þá þrjátíu silfurpenínga og sögðu: „Það hæfir ekki að leggja þetta silfur í guðskistuna, því það hefir verið til höfuðs lagt". Tóku þeir því það til ráðs, að kaupa fyri það leirkerasmiðs akur til að jarða þar í útlenda menn, og þess vegna er hann enn þá kallaður blóðsakur. Þannig rættist það, sem Jeremías segir: „þeir tóku þá þrjátíu silfurpeninga, verð þess, er metinn

var, hvern Ísraelsmenn höfðu metið, og þeir keyptu fyrir þá leirkerasmiðs akur, eins og Drottinn hafði boðið mèr".

---

Þegar Júdas í örvæntíngu sinni hafði fleygt þeim þrjátíu silfurpeningum á musterisgólfið, tóku hinir æðstu prestar ráð sín saman um, hvað gjöra skyldi við fè þetta. Þeim þókti það ekki tilhlýðilegt, að leggja það í guðskistuna, af því það hafði verið haft til að svíkja Jesúm og selja hann í hendur þeirra. Ó, hvílík hræsni og skinhelgi! Gyðíngarnir sýndu hèr eins og optar, að þeir höfðu yfirskyn guðhræðslunnar, en afneituðu hennar krapti. Þeir gjörðu sèr ekki samvizku af því, að ráða hinn saklausa og heilaga af dögum og koma einum af hans nánustu lærisveinum til að verða drottinssvikari; en að leggja fè þetta í guðskistuna, það þókti þeim hin mesta óhæfa, ekki af því að þeir iðruðust syndar sinnar, heldur af því að fèð hafði verið „til höfuðs lagt". Þeir hèldu fast við bókstafinn, sem deyðir, en hirtu ekki um andann, sem lífgar. Láttu dæmi Gyðínganna verða þèr að varnaði, kristinn maður! Hvað sem þú gjörir og áformar, þá hafðu það jafnan hugfast, að Guð lítur á hjartalagið, hann lítur eptir því, af hvaða rótum áform þín og athafnir spretta, hvort það er af hræsni, eigingirni og hègómadýrð, eða af sannarlegri guðrækni og elsku til Guðs og

manna. Hversu glæsileg sem verk þín eru í heimsins augum, þá stoðar það þig ekki í augliti hins alltsjáanda, ef þau hafa upptök sín frá óhreinu hjarta. Fæstir eru svo spilltir, að þeir vili ekki sýnast góðir, þó þeir ekki vili hafa fyrir því, að verða dygðugir og guðræknir í raun og veru; þess vegna er mönnum svo hætt við að fegra allt sem er í fari þeirra og gefa því álitlegan blæ í augum annara manna. Já, þessi hræsni kemst stundum svo langt, að menn reyna ekki einúngis til að blinda sjálfa sig, heldur einnig telja sèr trú um, að Drottinn muni láta sèr lynda þetta yfirskyn guðhræðslunnar. Þetta er sú hættulegasta villa, sem syndugur maður getur ratað í, og ekkert gjörir honum eins örðugt, að geta iðrast af hjarta, eins og hræsnisfullt hugarfar, af því hann finnur þá ekki til synda sinna og sèr ekki, hvílíka þörf hann hefir á að snúa sèr til Guðs miskunar með angráðu og sundurkrömdu hjarta. Gyðíngarnir keyptu leirkerasmiðs akur fyrir þá þrjátíu silfurpenínga, til að jarða þar í útlenda menn; en Jesús Kristur hefir keypt oss með sínum friðþægjanda dauða úr ánauð syndarinnar og dauðans, og því erum vèr orðnir „Guðs akur", eins og postulinn kemst að orði (1. Kor. 3., 9.). Hjörtu vor eru það akurlendi, hvaðan trú og kærleiki og kristilegar dygðir eiga að spretta, svo vèr getum borið mikinn ávöxt. Í hjörtu vor eigum vèr að leyfa Kristi inngöngu, svo þau verði sannkallaður „blóðsakur", vökvuð af hans

blóði og frjófguð af hans anda. Gyðíngarnir keyptu fyrir þá þrjátíu silfurpenínga leirkerasmiðs akur, til að jarða þar í útlenda menn; en Jesús Kristur hefir með sínum dauða keypt oss eilífan hvíldarstað á himnum. Þar er vort rètta heimkynni og vort sanna föðurland. Hèr á jörðunni erum vèr útlendir og framandi; hèr er oss einúngis ætlað að dvelja litla stund, sem á að vera undirbúníngur undir annað og eilíft líf. Að vísu er það kristileg ósk, að vorar jarðnesku leifar megi fá hvíld í helgum guðsbarna reit, þegar vor útlegðartími hèr er á enda; en sèum vèr frelsara vorum sameinaðir í trú og elsku, sèum vèr hans sannir lærisveinar, og ástundum að feta í hans heilögu fótspor: þá vitum vèr að vèr erum hans, hvort sem vèr lifum eða deyjum; að vèr erum í Drottins hendi, hvort sem vèr deyjum á sjó eða landi og hvar sem bein vor leggjast til hvíldar, og getum ókvíðnir sagt: „þegar eg hefi þig að eins, Drottinn! þá hirði eg hvorki um himin nè jörð". Sannkristinn maður hefir umgengni sína á himnum, og jafnvel í sínum tímanlegu störfum lætur hann hug og hjarta dvelja hjá Guði og frelsara sínum; með lotníngu hugsar hann um Guðs óendanlegu hátign, um hans eilífa almætti, speki og gæzku, og með undrun og auðmjúkasta þakklæti hugleiðir hann Drottins dásemdarverk bæði í náttúrunnar og náðarinnar ríki. Sannkristinn maður er því ekki lengur „gestur og framandi, heldur meðborgari hinna heilögu og heimamaður

Guðs" (Efes. 2., 19.). Ó, látum oss, kærir bræður! sækjast eptir þessum borgarrètti á himnum og gjöra vora útvalníngu vissa. Sem dauðlegir verðum vèr að sönnu alltaf útlendir meðan vèr dveljum í þessum dauðans líkama, og moldin hlýtur að hverfa til jarðarinnar, hvar hún áður var; en í þessum vorum dauðlega líkama felst vísir hins óforgengilega himneska líkama, sem vèr eigum í vændum og sem verður myndaður eptir Jesú Krists dýrðarlíkama. Drottinn minn! eg er dupt og aska, eg er leir jarðar, háður rotnun og dauða; en þó er eg dýru verði keyptur, keyptur með dauða þíns eingetna sonar, og skapaður í þinni mynd. Líf mitt leikur í þinni hendi; æ! gjör þú við leirinn, hvað þèr þóknast; en láttu þinn heilaga anda laga og fullkomna þína mynd í mèr, svo eg geti líkzt mínum heilaga frelsara og orðið þèr og honum sameinaður í lífi og dauða. Þá mun eg lifa þótt eg deyi, lifa eilífu og sælufullu lífi hjá þèr og honum, sem er upprisan og lífið. Amen.

---

# 18. hugvekja.

Gyðíngarnir gengu ekki inn í þínghúsið, svo að þeir saurguðust ekki, heldur mættu neyta páskalambsins. Pílatus gekk þá út til þeirra og sagði: „Hverja ákæru færið þèr gegn þess-

um manni"? Þeir svöruðu: „Væri hann ekki illræðismaður, þá hefðum vèr ekki fært þèr hann". Pílatus sagði þá við þá: „Takið þèr hann og dæmið hann eptir yðar lögum". Þeir svöruðu: „Oss leyfist ekki að lífláta nokkurn", svo það rættist, sem Jesús hafði fyrirfram sagt um það, hvaða dauðdaga hann mundi fá. Kennimannahöfðíngjarnir og öldúngarnir tóku þá til að áklaga hann harðlega og sögðu: „Vèr höfum komizt að því, að þessi afvega leiðir alþýðuna og bannar að gjalda keisaranum skatt, en segist vera konúngurinn Kristur".

---

Hèr sjáum vèr enn, kristnir bræður! nýjan vott um hræsni og skynhelgi Gyðínganna, þar sem þeir ekki vildu stíga fæti sínum inn í þínghús hins heiðna landsdómara, svo þeir ekki saurguðust, en víluðu ekki fyrir sèr, að bera lognar sakargiftir á hinn heilaga og syndlausa, í hvers munni aldrei voru svik fundin. En eins viðbjóðsleg og hræsni þeirra var, eins óttaleg var og mannvonzka þeirra; þeir segjast hafa komizt að því, að Jesús afvega leiddi alþýðuna: hann sem lifði og dó til þess, að leiða syndugt mannkyn af vegi glötunarinnar á lífsins veg, að leiða það frá villu síns vegar til Guðs; þeir ásaka hann fyrir það, að hann banni að gjalda keisaranum skatt: hann, sem bauð að gjalda keisaranum hvað keisarans er,

og Guði hvað Guðs er. Þeir bera það upp á hann, að hann segist vera konúngurinn Kristur. Já, vissulega er hann konúngur, öllum jarðneskum konúngum æðri; „því Guð hefir hátt upphafið hann og gefið honum þá tign, sem er allri tign ofar, svo að öll knè skulu beygja sig fyrir Jesú tign, bæði þeirra, sem eru á himni og á jörðu og undir jörðinni, og sèrhver túnga viðurkenna, að Jesús Kristur er Drottinn, Guði föður til dýrðar" (Filipp. 2., 9.—11.). En Krists ríki er ekki af þessum heimi, heldur er það andlegt og himneskt, og því varir það að eilífu. Oss hryllir, kærir bræður! við hræsni og mannvonzku Gyðínganna; en munu þeir ekki, því miður, vera allmargir í kristnum söfnuði, sem hafa líkt hugarfar og þeir? Eru þeir ekki, því miður, margir, sem nálgast Guð með vörunum, en hverra hjörtu eru langt burtu? sem látast lofa og biðja Guð, en ala þó hjá sèr heipt og hatur til síns samkristins náúnga, og sýna það í öllu sínu líferni, að guðsorð hefir engar rætur fest í hjarta þeirra, heldur eru allar þeirra guðræknisiðkanir eintóm hræsni og yfirskyn? Fylla þeir ekki flokk Gyðínganna, sem kalla sig Krists lærisveina, en afvega leiða þó og hneyxla sína veikari bræður með syndsamlegum orðum og illu eptirdæmi? Er það ekki að ásaka Krist fyrir afveguleiðslu, þegar þessir menn kalla hann lærimeistara sinn og Drottinn, höfund og fullkomnara trúar sinnar? Fylla þeir ekki flokk Gyðínganna, sem kalla

sig Krists lærisveina, en tregðast þó við að gjalda skyldur og skatta eins og hann hefir boðið, og sýna tregðu og tómlæti í öllu því, sem miðar til að efla annara velferð og almennings heillir? Fylla þeir ekki flokk Gyðínganna, sem kalla sig Krists lærisveina, kalla hann sinn konúng og Drottinn, en hirða þó ekki um að leita Guðs ríkis og hans rèttlætis, nè verða sannir þegnar í því ríki, sem hann stofnaði, í náðarinnar himneska ríki, heldur festa hug og hjörtu við þessa heims hverfulu gæði og sækjast einúngis eptir þeim? „Sá sem ekki er með mèr, hann er á móti mèr", segir frelsari vor, því að sèrhver ókristileg kenníng og syndsamleg lífsstefna er í óvináttu við Krist og hans heilaga lærdóm. Og þegar nú þeir, sem kalla sig kristna, í orði og verki breyta gagnstætt Krists boðum og hans heilaga dæmi, er þá ekki líferni þeirra sífeld ásökun gegn Kristi og sífelt stríð við kristindómsins anda? Ef vèr nú rennum augunum inn í vor eigin hjörtu og með hreinskilni rannsökum hugarfar vort, munum vèr þá ekki einnig viðurkenna, að þar er margt, sem ber vott um spillíngu vora? Lýsir ekki vort holdlega hugarfar því, að oss þykir Kristur bjóða oss of mikla sjálfsafneitun og vilja snúa hjörtum vorum of mjög frá heiminum og hans lystisemdum? Lýsir ekki kaldsinni vort og tregða til hins góða því, að oss þykir Kristur vera of vandlátur í að heimta, að vèr skulum gjalda Guði hvað Guðs er og keisaranum

hvað keisarans er, það er að skilja: að vèr skulum rækja skyldur vorar við Guð og náúnga vorn? Eða tómlæti vort í því, að leita Guðs ríkis og hans rèttlætis, lýsir það ekki því, að vèr helzt vildum, að Krists ríki væri af þessum heimi, svo að vèr mættum elska heiminn og þá hluti, sem í honum eru. Æ, Jesú! með angri og sárum trega finnum vèr til spillíngar vorrar og breyskleika vors; með angri og sárum trega megum vèr játa, að vèr ekki verðskuldum að heita þínir lærisveinar, heldur göngum einatt með líferni voru í flokk ákærenda og ofsóknara þinna, og fegrum svo syndir vorar með því að afbaka og rangfæra þinn heilaga lærdóm og telja sjálfum oss trú um, að þú heimtir ekki svo mikið af oss, og að vèr munum geta haft gott af þinni friðþægíngu, þó vèr ekki ástundum að lifa eptir þínum boðum. Æ! tak þú skýluna frá augum vorum, svo vèr getum sèð vort eymdarástand í ljósi þinna heilögu sannleiksorða og snúið oss frá heiminum til þín; æ! hrær þú vor hjörtu með þínum náðaranda, svo vèr getum losað þau úr fjötrum fýsna og syndsamlegra tilhneigínga, en helgað þau þèr og þinni þjónustu; æ! láttu þá tilfinníngu vera sílifandi hjá oss, að þú ert vor frelsari og vor Drottinn, og að öll vor sanna farsæld um tíma og eilífð er undir því komin, að vèr elskum þig og hlýðum þínum boðum. Amen.

---

# 19. hugvekja.

Þá gekk Pílatus aptur inn í höllina, kallaði Jesús til sín og sagði: „Ertu Gyðínga konúngurinn"? Jesús svaraði: „Talar þú þetta af sjálfum þèr, eða hafa aðrir sagt þèr það um mig"? Pílatus svaraði: „Er eg þá Gyðíngur? Þín þjóð og kennimannahöfðíngjarnir færðu mèr þig; hvað hefir þú að hafzt"? Jesús svaraði: „Mitt ríki er ekki af þessum heimi; væri mitt ríki af þessum heimi, þá hefðu þjónar mínir barizt, svo eg kæmist ekki á vald Gyðínga; en nú er mitt ríki ekki þaðan". Pílatus sagði þá við hann: „Ertu þá ekki konúngur"? Jesús svaraði: „Rètt segir þú, að eg sè konúngur; til þess er eg fæddur og til þess kom eg í heiminn, að eg beri sannleikanum vitni, og hver sem elskar sannleikann, sá hlýðir minni röddu". Pílatus mælti: „Hvað er sannleikur"?

---

Það var slægðarbragð af Gyðíngunum, að ákæra Jesúm fyrir uppreist og að hann hefði viljað gjöra sjálfan sig að konúngi Gyðínga. Þessa ásökun gat Pílatus ekki leitt hjá sèr, því það var embættisskylda hans að vaka yfir því, að keisaranum væri sýnd trú og hollusta.

Hann hlaut því að rannsaka þessa ákæru, og því spyr hann Jesúm að, hvort hann sè Gyðínga konúngurinn? Jesús játar því hèr, eins og áður í höll æðsta prestsins, að hann sè konúngur; en til að koma í veg fyrir allan misskilníng, bætir hann þessu við: „Mitt ríki er ekki af þessum heimi"; það er að skilja: ríki þessa heims eru stofnuð með vopnum og vèlum og öðrum þess háttar meðulum; en þannig er mínu ríki ekki varið, því það hefir upptök sín beinlínis frá Guði. Og til þess að sýna, að sitt ríki hefði ekki veraldlegan nè jarðneskan tilgang, segir Jesús enn fremur: „Til þess er eg fæddur og til þess kom eg í heiminn, að eg beri sannleikanum vitni, og hver sem elskar sannleikann, sá hlýðir minni röddu". Þetta kallar Páll postuli hina „góðu játníngu" (1. Tím. 6., 13.), og það má með sanni segja, að hún er bæði hátignarfull og huggunarrík fyrir oss synduga menn. Ó! hversu hátignarfullt er það ekki, að sjá Jesúm, þenna sannleikans heilaga vott, mitt í sinni djúpu niðurlægíngu með himneskri rósemi og stillíngu bera vitni um sinn eilífa og andlega konúngdóm; og hvílík huggun er það ekki fyrir oss kristna menn, að vita að vèr erum þegnar í Krists himneska ríki, að vèr stöndum undir hans guðlegu stjórn og verndan, ef vèr hlýðum hans röddu, og megum þá eiga von á, við endi þessara vorra hèrvistardaga, að fá inntöku í hans dýrðarríki á himnum. Æ! að þessi hugleiðíng aldrei liði oss úr minni,

þá mundum vèr ekki eins festa hug og hjörtu við gæði þessa heims, heldur lypta þeim optar upp til himins og sýna meiri alvöru í að leita Guðs ríkis og hans rèttlætis; þá mundum vèr elska sannleikann og hlýða Jesú röddu. Pílatus þekkti ekki sannleikann; hann var lèttúðarfullt heimsins barn og heiðingi; en heiðíngjarnir höfðu breytt sannleika Guðs í lygi (Rómv. 1., 25.). þess vegna spurði Pílatus í skopi: „hvað er sannleikur"? Hann hèlt sem sè, að menn hlytu að efast um allt, og að sannleika væri hvergi að finna. Syndin byrjar ætíð með því að efast um sannleikann, með því að efast um, að það sè satt, sem Guð hefir boðið eða bannað. þannig byrjaði syndin hjá vorum fyrstu foreldrum, og þannig birtist hún enn. Syndarinn vill telja sèr trú um, að syndin sè ekki eins saknæm og guðsorð segir, til þess að geta svæft samvizkuna, svo hún skuli ekki ónáða nè ásaka hann, þó hann drýgi það, sem Guð hefir bannað, eða láti það ógjört, sem hann hefir boðið. þetta getur manninum líka tekizt um stundar sakir; með syndavananum eykst efinn og vantrúin, og að því skapi sljófgast tilfinníngin fyrir hinu rètta og ranga, svo maðurinn að lokunum lætur syndsamlegar tilhneigíngar og tillit til veraldlegs hagnaðar og munaðar eingöngu stjórna breytni sinni. En fyr eða síðar ryður hinn eilífi og heilagi sannleiki sèr til rúms í hjarta mannsins; fyr eða síðar vaknar samvizkan, þó ei verði fyr en í öðru lífi, og þá hlýtur kvöl og angist

hennar að verða því meiri, sem syndarinn hefir lengur tælt og blindað sjálfan sig. „Hvað er sannleikur”? sagði Pílatus; og þannig spyr þú einnig, syndugur maður! Ef þú ekki spyr að því í skopi, eins og Pílatus, heldur af fullri alvöru hjartans, þá leita þú til hans, sem til þess fæddist og kom í heiminn, að bera sannleikanum vitni”. Hann einn getur frætt þig um hinn eilífa sannleika, því hann er sjálfur sannleikurinn og hefir orð hins eilífa lífsins; af hans orði getur þú leiðzt í allan sannleika, ef þú ekki byrgir eyru þín fyrir hans röddu. Hann einn getur kennt þèr að þekkja Guðs alsanna eðli og hans heilaga vilja; kennt þèr að þekkja þína eilífu ákvörðun og hvernig þú átt að leita hennar; hann einn getur sýnt þèr þitt eymdarfulla ástand og veitt sálu þinni hvíld. Hneig þú því hug og hjarta að hans orði, haf þú það iðulega um hönd með andakt og eptirtekt, og bið þú hann að gefa þèr náð til þess að geta geymt það í góðu og siðsömu hjarta: þá mun það festa rætur í sálu þinni, og sannleikurinn mun gjöra þig frjálsan; hann mun losa þig við fjötur holdlegra og veraldlegra girnda og veita þèr frelsi guðsbarna, og þá muntu fara að elska sannleikann, en hata lygina og allt hennar syndsamlega föruneyti; en „hver sem elskar sannleikann, sá hlýðir Jesú röddu”. Sannleikans heilagi andi mun þá vitja þín og taka sèr bústað í sálu þinni; þá fer Kristur að lifa í þèr og þú í honum, og þegar í þessu lífi munt þú fá

forsmekk þeirrar himnesku sælu, sem þú átt í vændum.

Heilagi faðir! helga þú oss í þínum sannleika; þín orð eru líf, andi og sannleikur. Amen.

---

# 20. hugvekja.

Pílatus gekk aptur út til Gyðínga og sagði við þá: „Ekkert finn eg saknæmt hjá þessum manni". En þá er Gyðíngarnir tóku að ákæra Jesúm harðlega, anzaði hann engu. Pílatus sagði þá við hann: „Svarar þú engu, heyrir þú ekki, hversu harðlega þeir ákæra þig"? En Jesús svaraði engu orði, svo að landstjórnarann furðaði mjög. En Gyðíngar voru því ákafari og sögðu: „Hann hefir uppæst lýðinn með kenníngum sínum í öllu Gyðíngalandi allt frá Galíleu og híngað". En þegar Pílatus heyrði Galíleu nefnda, spurði hann, hvort hann væri frá Galíleu? og er hann varð þess vís, að hann var úr veldi Heródesar, sendi hann Jesúm til Heródesar, sem um þessar mundir var í Jerúsalem.

---

Pílatus verður sjálfur að játa Jesú sakleysi. En því fór svo fjarri, að þetta gæti sefað vit-

stola æði Gyðínganna, að þeir nú tóku til að ákæra hann enn þá harðlegar en áður. Þannig er því jafnan varið fyrir syndaranum, þegar hann ofurselur sig sínum stjórnlausu tilhneigíngum, hvort heldur það er heipt eða munaður; við sèrhverja mótspyrnu, sem honum mætir, verður hann æstari og stælist meir og meir upp í sinni syndsamlegu fásinnu. Þar á mót var Jesú guðdómlega hógværð og stillíng alltaf sjálfri sèr lík; hversu harðlega sem Gyðíngarnir ákærðu hann, svaraði hann engu. Hann vissi, að það var ekki til neins, að færa vörn fyrir sig frammi fyrir slíkum dómara og slíkum ákærendum, sem hvorki þekktu sannleikann, nè vildu þekkja hann. Jesú þögn er næsta þýðíngarmikil fyrir oss, kærir bræður! Með henni sýndi Jesús, að hann er hið þolinmóða Guðs lamb, sem burt ber heimsins synd; með henni sýndi hann oss líka, hvernig vèr eigum að breyta eptir honum, þegar vèr verðum fyrir ósönnum áburði og sakargiftum vondra manna; hann hefir sýnt oss, að vèr eigum ekki að þjóta upp í heipt eða bræði, nè launa illyrði með illyrðum, heldur forðast öll ónytjuorð, og annaðhvort verja oss með kristilegri hógværð, eða umbera slíkar árásir með þögn og þolinmæði. Það er að vísu sárt og ógeðfelt fyrir vora holdlegu náttúru, að verða fyrir lygi og vanþakklæti heimsins barna, þegar allt, sem vèr tölum eða gjörum, er rángfært og því er snúið á vesta veg, og jafnvel vor beztu verk eru höfð fyrir sakargift á móti oss. En þegar

vèr fáum þetta að reyna, þá hugsum til frelsara vors; hugsum til þess, hvernig hann, sem „gjörði alla hluti vel", sem af óendanlegum kærleika til vor syndugra manna varði gjörvöllu lífi sínu til að frelsa oss frá synd og eilífum dauða, varð að sæta þúngum ákærum og lognum sakargiftum, en að hann umbar allar slíkar ásakanir með heilagri þögn og þolinmæði. Og ættum vèr þá ekki miklu fremur að gjöra slíkt hið sama: vèr, sem erum syndugir og ófullkomnir; vèr, sem einatt vísvitandi eða óvitandi gefum öðrum grundað ásökunarefni, og sem í flestum vorum svo kölluðu góðverkum látum oss meir eða minna stjórna af eigingjörnum hvötum? Gætum þess, að þó vèr, ef til vill, ekki sèum valdir að því, sem oss er borið á brýn, þá erum vèr þó sekir og hegníngarverðir í Guðs augum og gætum ekki svarað honum einu orði til þúsund, ef hann vildi í rèttlætisdóm við oss ganga. Jesú heilaga þögn og þolinmæði spratt af undirgefni undir Guðs vilja og elsku til vor syndugra manna. Hann hataði syndina, en elskaði syndarana. Ó, Guð minn góður! hversu ólíkt er þetta voru hugarfari, sem elskum syndina, en hötum vora breysku bræður undir eins og þeir eitthvað gjöra á hluta vorn; sem ekki þolum öðrum eitt stygðaryrði, en vílum þó ekki fyrir oss, þegar svo ber undir, að hugsa og tala illt um aðra, og viljum að þeir umberi oss það. Af hverju kemur

þetta, nema af sjálfsþótta og drambsemi, af köldu og kærleikslausu hjarta? Æ, Drottinn! kenn þú mèr að yfirvinna hið illa með góðu, að blessa þá, sem mèr bölva, og biðja fyrir þeim, sem mig hata. Gef þú mèr krapta til að breyta eptir hógværðardæmi frelsara míns og sýna öðrum umburðalyndi. Láttu þá hugleiðíngu vera sívakandi hjá mèr, að eg sjálfur er breyskur, brotlegur og sekur og þarf daglega þinnar fyrirgefníngar við. Æ! hvernig gæti eg dirfzt að koma fram fyrir þitt heilaga auglit með hjartað fullt af heipt og bræði, til þess að biðja þig um náð og miskunsemi, biðja þig um uppgjöf á minni syndasekt, þar sem þú sjálfur hefir gjört það að skilyrði, að vèr fyrirgefum vorum skuldunautum. Nei, Drottinn! hèr eptir vil eg hvorki í orði nè verki hefna mín sjálfur, þó eitthvað sè gjört á hluta minn og eg verði fyrir ósönnum ásökunum og illu umtali annara manna. Þèr einum tilheyrir hefndin, því þú ert hinn alskygni og heilagi dómari. En eg bið þig að hefna ekki þess, sem mèr er gjört á móti, nema hefndin miði þínu nafni til lofs og dýrðar, eða til þess að betra þá, sem mèr gjöra rangt til, og fá þá til að elska mig eins og eg vil elska þá. En þóknist þèr að reyna mig með mótgjörðum annara og að auðmýkja hjarta mitt, þá verði þinn vili; eg vil með hógværð og umburðarlyndi drekka þann reynslu-bikar, sem þú rèttir mèr. Eg treysti því, að þú hafir skrifað mitt nafn í lífsins bók, og þessi von lætur mig

skoða allt, sem mèr mætir, hvort heldur það er blítt eða strítt, eins og meðal í þinni mildiríku forsjónarhendi til minnar betrunar og helgunar. Upp til þín, Guð minn! vil eg því lypta augum mínum, hvað sem fyrir mig kemur og mèr ber að höndum. Í stað þess að reiðast bræðrum mínum, þó þeir beri á mig ósannar sakargiftir, í stað þess að launa illt með illu, vil eg biðja fyrir þeim og auðmýkja mig undir þína voldugu hönd, sem hefir hatur annara til að hirta mig sekan; en þessi hirtíng skal styrkja hjá mèr traustið til þinnar eilífu miskunsemi, því þú ert sá góði himneski faðir, sem hirtir þín börn hèr á jörðunni einúngis til þess að gjöra þau eilíflega sæl á himnum. Amen.

---

# 21. hugvekja.

Þegar Heródes sá Jesúm, varð hann næsta glaður, því lengi hafði hann langað til að sjá hann, því hann hafði heyrt margt af honum sagt; vænti hann nú að sjá eitthvert teikn af honum. Spurði Heródes hann á marga vega, en hann svaraði engu. Gengu þá fram hinir æðstú prestar og skriptlærðir og áklöguðu hann harðlega; en Heródes og stríðsmenn

hans hæddu hann og gjörðu gys að honum, lögðu yfir hann hvítt klæði og sendu hann aptur til Pílatusar. Á þessum sama degi urðu þeir Heródes og Pílatus vinir, því áður hafði verið fjandskapur þeirra á milli.

---

Pílatus sá, að Jesús var öldúngis saklaus, og vildi því gjarnan láta Jesúm lausan. En að hinu leytinu vildi hann ekki baka sèr óvild Gyðíngalýðsins, og leitaði því allra bragða til að koma sèr úr þessum vanda. Þegar hann þess vegna heyrði Galíleu nefnda, sendi hann Jesúm til Heródesar Antípas, sem þar var landstjórnari, en þá var staddur í Jerúsalem. Það var sá sami Heródes, sem hafði látið hálshöggva Jóhannes skírara (Matth. 14., 1.—11.). Heródes var lèttúðarfullt og holdlega sinnað veraldarbarn, sem ekki þekkti neitt æðra en munað og sællífi. Hann hirti ekki um að komast að sannleikanum, eða rannsaka, hvort sakargiftir og ákærur Gyðínganna gegn Jesú væru á nokkrum rökum byggðar; hans einasti tilgangur var, að skemmta sèr og hirðmönnum sínum með því að láta Jesúm gjöra tákn og furðuverk. Hann hafði heyrt margt sagt af Jesú og lærdómi hans, og því spurði hann hann á marga vega, ekki til að fræðast um sannleikann, heldur af forvitni og nýjúngagirni, til þess að geta gjört gys að því og styrkzt í vantrú sinni. Þannig breyta óguðlegir menn

enn í dag. Þeir hafa guðleg efni sèr að leikfangi, hæðast að öllu því, sem holdlegur skilníngur þeirra ekki getur gripið; þeir heimta tákn og stórmerki, til þess að geta trúað; látast spyrja Jesúm á marga vega, en leita ekki sannleikans af hreinskilni nè hjartans alvöru. Sá þar á mót, sem vill spyrja Jesúm til að fræðast og frelsast, sem hugsar um hið eina nauðsynlega og lætur sèr annt um sína sálarheill, hann leggur ekki ónytjuspurníngar fyrir frelsara sinn, heldur lætur hann sèr lynda að spyrja, hvað hann eigi að gjöra, til þess að eignast eilíft líf (Lúk. 10., 25.). Honum er mest um það hugað, að vita, hvernig hann fái gjört Guðs vilja, hvernig hann bezt geti stjórnað girndum sínum og tilhneigíngum og ratað þann veg, sem til lífsins leiðir. Hann leitast við að uppgötgva sannleikann með því að rækja skyldur sínar, en ekki að efast um sannleikann til þess að geta komið sèr hjá því að hlýða Guðs boðum. Varastu, kristinn maður! að fylla þeirra flokk, sem gjöra gys að guðsorði, eða hafa það gálauslega um hönd; þegar þú les það eða heyrir það lesið, þá íhuga þú það með andakt og eptirtekt og heimfær það til þín og þíns sálarástands. Þó heimurinn hendi gaman að guðrækni þinni, þá lær þú af frelsara þínum að umbera það með þögn og þolinmæði. Jesús svaraði Heródes engu, af því hann, sem vissi hvað með manninum bjó, sá, að spurníngar Heródesar spruttu einúngis af hègómlegri forvitni og

nýjúngagirni. En þegar þú spyr Jesúm af hjartanlegri löngun eptir guðsríki, af hjartanlegri löngun eptir að verða hans sannur lærisveinn, þá mun hann svara þèr, og með sínu orði og anda leiða þig í allan sannleika og svala sèrhverri guðrækilegri löngun sálar þinnar. Í hans heilaga orði finnur þú svar upp á sèrhverja spurníngu, sem miðar til að gjöra þína útvalníngu vissa; í hans heilaga dæmi sèr þú ljós og leiðarvísi, sem þú óhultur getur fylgt, til að þræða veg helgunarinnar og hins eilífa lífsins, og í hans friðþægjandi dauða finnur þú hvíld og huggun í lífi og dauða. Æ, vanræktu því ekki að spyrja frelsara þinn „á marga vega" meðan þú ert enn á veginum, meðan þú ert enn á þessari jarðnesku vegferð þinni; vanræktu ekki að biðja hann og úthella hjarta þínu fyrir honum, segja honum frá allri þinni sálarþörf og spyrja hann til ráða. Hann einn hefir orð hins eilífa lífsins, hann einn er vegurinn, sannleikurinn og lífið; hann einn getur gefið sálu þinni hvíld. Þegar Heródes ásamt hirðmönnum og hermönnum sínum var búinn að hæða Jesúm og leggja yfir hann hvítt klæði í háðúngar skyni, sendi hann Jesúm aptur til Pílatusar, og á þeim degi urðu þeir Heródes og Pílatus vinir. Jesús varð þannig meðal til þess, að koma vináttu og samlyndi á milli þessara manna, sem áður voru óvinir. Láttu, kristinn maður! þetta gefa þèr þá hugvekju, að leitast við að koma alstaðar fram til góðs; varastu að æsa til haturs,

ófriðar og ósamlyndis meðal manna, en kappkosta þú hvervetna, ekki einúngis að hafa frið við alla menn eins mikið og í þínu valdi stendur, heldur einnig að færa allt til betri vegar fyrir öðrum og sætta þá, sem ósattir eru, og gættu þess jafnan, að þeir eru sælir, sem friðinn semja. Jesús varð meðal til þess, að þeir Pílatus og Heródes urðu vinir. En af því þeir voru báðir holdlega sinnaðir menn, gat vinátta þeirra ekki verið sönn vinátta, því vinátta heimsins barna byggist á eigingirni og tímanlegri hagnaðar von; en vinátta guðsbarna sprettur af æðri rót, af elsku til Guðs og manna. Kosta þú kapps um það, kristinn maður! að koma þèr í vináttu, fyrst og fremst við Guð og frelsara þinn, og síðan við góða og guðhrædda menn, sem eins og þú leita helgunar sinnar í guðsótta. Trúir og tryggvir vinir eru sannarleg guðsgjöf.

Að leita þinnar vináttu, Drottinn! skal vera hið æðsta mark og mið vors lífs; vèr viljum láta oss nægja þína náð, því hún felur í sèr öll önnur andleg og eilíf gæði; hún er það, sem gjörir oss farsæla hèr og sáluhólpna síðar meir. Amen.

---

# 22. hugvekja.

Nú lèt Pílatus saman kalla hina æðstu presta, höfðíngjana og fólkið, og tók svo til orða: „Þèr hafið fært mèr þenna mann, svo sem þann, er frásnèri lýðnum; en sjáið, nú í yðar viðurvist hefi eg rannsakað málefni hans og ekki fundið hann sekan í nokkru því, er þèr ákærið hann fyrir; ekki heldur Heródes, því til hans sendi eg yður sjálfa. Sjáið nú, ekkert er það af honum drýgt, sem dauða sè vert; ætla eg því að refsa honum og láta hann lausan". Á hátíðinni var landstjórnarinn vanur, að láta fólkinu lausan bandíngja þann einn, er þeir sjálfir kysu; en þá var þar bandíngi nokkur nafnkunnur, sá er Barabbas hèt; en hann var fyrir upphlaup í borginni og manndráp settur í myrkvastofu. Fólkið beiddi, að landstjórnarinn vildi gjöra eins og hann væri vanur. Nú er þeir voru samankomnir, tók Pílatus svo til orða: „Það er venja, að eg gefi yður einhvern bandíngja lausan á páskum; hvorn vilið þèr nú að eg gefi yður lausan, morðíngjann Barabbas, eða Jesúm, sem Kristur er kallaður"? því hann vissi, að þeir höfðu Jesúm fyrir haturs sakir fram selt. En er hann sat á dómstólnum, sendi kona hans til hans og lèt

segja honum: „láttu þenna saklausa mann vera, því margt þúngt hefir mèr borizt í drauma í dag hans vegna". En hinir æðstu prestar og öldúngarnir eggjuðu alþýðuna, að þeir skyldu biðja um Barabbas, en Jesúm skyldu þeir lífláta. Síðan tók landstjórnarinn til orða og mælti: „Hvorn þessara tveggja vilið þèr að eg gefi yður lausan"? En þeir sögðu: „Barabbas". Pílatus, sem vildi láta Jesúm lausan, kallaði þá aptur til þeirra og sagði: „Hvað skal eg þá gjöra við Jesús, sem kallast Kristur"? Fólkið kallaði þá aptur upp og sagði: „Krossfestu! krossfestu hann"! Pílatus spurði þá í þriðja sinn: „Hvað illt hefir hann þá gjört? eg finn enga dauðasök hjá honum, því vil eg refsa honum og láta hann svo lausan". En Gyðíngar hrópuðu því ákafar: „krossfestu hann"! og þeir fylgdu þessu því fastara fram með miklum óhljóðum og heimtuðu að hann væri krossfestur, og óhljóð þeirra og hinna æðstu presta tóku yfir.

---

Þegar vèr lesum píslarsögu frelsara vors, þá eru það alltaf tvær ólíkar myndir, sem bera fyrir augu vor. Annars vegar sjáum vèr Jesú heilaga sakleysi, hans guðdómlegu hógværð og undirgefni undir vilja síns himneska

föður; en hins vegar sjáum vèr mannlega blindni og spillíngu á sínu æðsta stigi í hatri og vitstola æði Gyðínganna. En í öllu þessu birtist Guðs eilífa vísdómsráð oss til frelsis og sáluhjálpar. Pílatus, sem sá og viðurkenndi Jesú sakleysi, leitaðist með ýmsu móti við að komast hjá því að upp kveða yfir honum dauðadóm, en hafði ekki þrek í sèr til að dæma hann sýknan saka. Þannig fer það ætíð fyrir syndugum manni, þegar hann af ótta fyrir mönnum, eða til að smjaðra fyrir þeim, ekki vill gjöra það sem rètt er, en hikar sèr þó við að breyta á móti betri vitund, þá leitar hann ýmsra bragða til að komast úr slíkum vanda, en endar optast nær með því, eins og Pílatus, að þagga niður rödd samvizku sinnar og verða syndarinnar þræll. Ein af þessum tilraunum Pílatusar, að láta Jesúm lausan, var sú, að hann bauð Gyðíngunum, hvort þeir vildu heldur, að hann gæfi þeim lausan Barabbas eða Jesús. En þeir kusu Barabbas. Þeir vildu heldur manndráparann og óbótamanninn, en heilagan Guðsson. Hefði Kristur verið af heiminum, þá hefði heimurinn tekið hann að sèr, eins og hann tók Barabbas að sèr, sem var af heiminum og að hans skapi. En vèr breytum stundum áþekkt þessu, bræður góðir! Barabbas er hinn gamli maður í oss, vort holdlega syndumspillta eðli. Guð vill, að vèr skulum krossfesta það með girndum þess og tilhneigíngum. En, æ! því miður höfnum vèr einatt Kristi, til þess að geta

frelsað vorn gamla Adam. Barabbas er heimurinn og hans gæði, auðæfi, metorð, munaður og eigingirni. Ó! hversu margir meta þetta ekki meir en ríkdóm Guðs náðar, Krists dýrð og sína eigin sáluhjálp? Meðan Pílatus sat á dómstólnum, sendi kona hans til hans og tók honum vara fyrir að sakfella Jesúm. Í hvert sinn, sem vèr eigum að velja milli góðs og ills, sitjum vèr einnig á þeim dómstóli, sem Guð hefir upp reist í vorum hjörtum, og eigum að upp kveða dóm yfir því, hvort vèr heldur viljum hlýða hans boðum eða syndarinnar áeggjunum, og í hvert sinn sendir hann oss aðvarandi rödd samvizku vorrar, og lætur sitt heilaga orð minna oss á hvað vèr eigum að gjöra; já, reynir með öllu móti til að fá oss til að velja hið góða hlutskiptið. En þrátt fyrir allar aðvaranir og bendíngar Drottins, þrátt fyrir allar áminníngar Guðs og manna, verður það þó, því miður, einatt ofan á, að vèr látum oss leiða af fortölum vorrar holdlegu náttúru, en hrindum Jesú úr hjörtum vorum. Það er eins og Pílatus hafi orðið hræddur og hissa á Gyðínganna óguðlega vali, þegar þeir heldur kusu Barabbas en Jesús. En mættir þú þá ekki verða hrædd og hissa, sála mín! þegar þú tekur holdið og heiminn fram yfir Guð og frelsara þinn? og ættir þú ekki að láta þennan ótta knýja þig til að hafna synd og óguðlegu athæfi eptirleiðis, en aðhyllast Drottinn? Eða þegar þú spyr sjálfa þig, eins og Pílatus spurði Gyðíngana: „hvað skal eg

þá gjöra við Jesús, sem kallast Kristur"? Ætlar þú þá enn á ný að taka undir með Gyðíngum og segja: „krossfestu hann"! ætlar þú enn á ný að hrinda honum frá þèr og varna honum inngöngu í hjarta þitt? Ó, Jesú! varðveittu mig frá þessari blindni; hrærðu hjarta mitt með þínum anda, svo eg geti elskað þig af öllu hjarta og tekið þig fram yfir alla hluti; lofa þú mèr að lifa í þèr, svo ekkert fái skilið mig við þinn kærleika, svo eg geti lifað og dáið í lifandi samfèlagi við þig. Loksins spyr Pílatus Gyðíngana: „hvað illt hefir hann þá gjört? eg finn enga dauðasök hjá honum". Þessu svara þeir ekki beinlínis, heldur æpa því meir, að hann eigi að krossfestast. Ó! hvað hafðir þú til saka unnið, himneski lausnari! nema það eina, að þú gjörðir alla hluti vel, að þú gafst blindum sýn, lèzt halta ganga, líkþráa hreinsast, heyrnarlausa heyra, dauða upp rísa og boðaðir fátækum evangelium? Hvað hafðir þú til saka unnið nema það, að þú elskaðir oss synduga menn og gafst þig í dauðann fyrir oss? En þegar vèr spyrjum sjálfa oss: „hvað illt höfum vèr þá aðhafzt"? megum vèr þá ekki taka undir með skáldinu og segja: „Allt hef eg, Jesú, illa gjört, allt það að bæta þú kominn ert". Já, hjá oss er dauðasökin, vèr höfðum verðskuldað hinn eilífa dauða, en höfum nú lífið, hið eilífa lífið, í þínu blessaða nafni. Amen.

# 23. hugvekja.

Þá tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann.

---

Þegar vèr íhugum pínu og dauða frelsara vors, þá er það tilgangur hugleiðínga vorra, að innræta hjá oss viðbjóð við syndinni, en glæða hjá oss elsku til hans og þakklæti við hann. Þess vegna nemum vèr nú einnig staðar við það atriði í Jesú pínu, er vèr nýlega heyrðum, að Pílatus tók Jesúm og húðstrýkti hann. Húðstrokan var þræla-hegníng, og getur þetta minnt oss á, að Jesú húðstroka var einn partur af því hinu dýrmæta lausnargjaldi, er hann keypti oss með úr þrældómi syndarinnar, og jafnframt tekið oss vara fyrir, að leggja oss aptur undir hennar þrældómsok, með því vèr erum svo dýru verði keyptir. Pílatus tók nú Jesúm og húðstrýkti hann, og það er eins og vèr í anda sjáum frelsarans heilaga líkama alblóðugan og sundurflakandi af sárum undan svipum grimmdarfullra heiðinna hermanna. Þessi sjón hlýtur að særa og hræra sèrhverja guðrækna sál; en ætti hún ekki líka að vera kröptugasta upphvatníng fyrir oss til þess að krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigíngum? ætti hún ekki að taka oss vara fyrir því, að láta svo dátt að líkama vorum, að það æsi vorar holdlegu girndir, eða ofþýngja hann með ofáti og ofdrykkju og hafa magann fyrir vorn Guð? Vèr sjáum í anda

Jesú blóðugu sár og benjar, og þessi sjón hlýtur að vekja hjá oss elsku til hans og þakklæti við hann, sem varð að þola þetta fyrir oss til að græða vor syndasár. Guð gæfi, að þessi vor syndasár ekki væru dauð og fúin, heldur að vèr gætum fundið til sviða og sársauka af þeim, því það er einkaskilyrðið fyrir því, að þau verði læknuð; eina ráðið til þess, að vèr getum „komizt til heilsu í trúnni". Þegar vèr á einhvern hátt særum eða meiðum líkama vorn, þá erum vèr næsta tilfinníngasamir; þegar einhver særir oss í orðum eða gjörir eitthvað á hluta vorn, eða vor tímanlega velferð fær einhvern áblástur, þá erum vèr mjög viðkvæmir, og oss tekur þetta óvenjulega sárt; en þó vèr særum sál og samvizku vora með ótal hörmúngasárum syndarinnar, það er oss vant að liggja í lèttu rúmi. Vèr ættum þó að gæta þess, að hin líkamlegu og tímanlegu sárin geta gróið aptur, þó ekki verði fyr en í gröfinni; en sèu vor andlegu syndasár ekki læknuð í tíma, fylgja þau oss inn í eilífðina. Sá andlegi dauði, sem vèr hleyptum í þau hèr, verður þar að eilífum dauða, og þau ýfast eilíflega upp af orminum, sem aldrei deyr, og eldinum, sem aldrei slokknar. Ó, Jesú! þú sem vegna vorra synda varst særður, og vegna vorra misgjörða lemstraður, sjá þú aumur á oss syndugum mönnum; þú þekkir hin djúpu sárin, er syndin hefir veitt oss, betur en vèr sjálfir; þú sèr betur en vèr, hversu banvæn þau eru fyrir

vora eilífu farsæld: láttu þinn anda vekja hjá oss sviða og sársauka, angur og iðrun; láttu sjón þinna blóðugu benja vekja hjá oss viðbjóð á syndinni og knýja oss til að leita lækníngar hjá þèr, svo vèr af hjarta getum andvarpað, eins og Davíð: „Drottinn! hegn mèr ekki í þinni reiði og aga mig ekki í þinni bræði, því þín skeyti hafa hitt mig og þín hönd niðurþrykkir mèr; það er ekkert heilt á mínum líkama vegna þinnar reiði; það er engin ró í mínum beinum vegna minna synda, því að mínar misgjörðir ganga mèr yfir höfuð. Eg játa minn misgjörníng og græt mína synd. Yfirgef mig ekki, Drottinn, minn Guð! Vertu ekki langt frá mèr; hraða þú þèr mèr til bjargar, Drottinn, mitt hjálpræði"! (Sálm. 38.). Vissulega hefir vor guðdómlegi frelsari fundið til mikillar kvalar og sársauka á sínum bera og blóðuga líkama, en ekki hafa þau hin andlegu sárin verið sviðaminni, sem hann bar vegna synda vorra, því hann sampíndist eymdum vorum. Og í hvert sinn, sem þú syndgar, kristinn maður! þá fyllir þú þeirra flokk, sem særðu frelsara þinn; þá særir þú hjarta hans, sem elskar þig svo heitt og leið pínu og dauða þín vegna; og þau sárin, sem þú veitir honum, eru meiri og hegníngarverðari en hin, sem hann varð að þola af heiðnum hermönnum, sem ekki þekktu Guð, nè vissu, hver Jesús var. Pílatus leitaðist við að sefa heiptaræði Gyðínganna og ímyndaði sèr, að Jesú húðstroka mundi hræra þá til meðaumkunar, svo

hann að því búnu mundi geta látið Jesúm lausan; já, hann játaði opinberlega optar en einu sinni, að Jesús væri saklaus. Hann viðurkenndi sannleikann, og vissi þó ekki, hvað sannleikur var. Óskanda væri, að vèr, kristnir menn! sem erum uppfræddir í hinum eilífa sannleika, værum ætíð eins fúsir og þessi heiðíngi á að játa sannleikann; óskanda væri, að vèr, sem tökum oss dómsvald yfir bræðrum vorum, værum ætíð eins fúsir og hann á að kannast við sakleysi annara. Og hversu miklu hegníngarverðari en hann munu þá þeir vera í augum Drottins, sem kalla sig kristna, en víla þó ekki fyrir sèr að halla rètti lítilmagnans, láta sig í dómum sínum leiða ýmist af hatri, ýmist af vild og vináttu, ljósta ósönnum óhróðri upp um náúngann, eða gjöra sèr far um að útbreiða hann. Gætum þess, kærir bræður! sem frelsari vor hefir sagt, að það sem vèr gjörðum einum af þessum sínum minnstu bræðrum, það væri sèr gjört. Með því að syndga á móti sjálfum oss og náúnga vorum særum vèr frelsara vorn, því sèrhver synd á móti sjálfum oss og náúnganum er líka synd á móti Guði. Ó, Jesú! vèr viljum ekki einúngis virða fyrir oss þína blóðugu mynd á Gabbata, heldur lypta anda vorum í hæðirnar upp til þín, þar sem þú ert ímynd Guðs veru og ljómi hans dýrðar; já, upp til þín viljum vèr mæna vorum trúar og vonar augum, þangað til vèr fáum að sjá þig augliti til auglitis. Amen.

# 24. hugvekja.

Stríðsmenn landstjórnarans leiddu Jesúm inn í þínghúsið og söfnuðu að honum öllum flokknum, afklæddu hann og færðu hann í purpurakápu, flèttuðu kórónu af þyrnum og settu á höfuð honum, lètu reyr í hönd hans, hneigðu sig fyrir honum, hæddu hann og mæltu: „heill sèrtu, Gyðínga konúngur"! hræktu á hann, tóku reyrinn og hröktu um höfuð honum, fèllu svo á knè og lutu honum.

---

Alltaf aukast nú og margfaldast píslir frelsara vors. Sundurflakandi af sárum og blóðugum svíðandi benjum er hann nú aptur leiddur inn í þínghúsið, og þar safnast utan um hann heill hermanna flokkur, til að hæða og vanvirða hann á allar lundir. Til að gjöra gys að konúngstign hans, færa þeir hann í rauða kápu í stað þeirrar purpurakápu, sem konúngar voru vanir að bera, og í staðinn fyrir kórónu, setta gulli og gimsteinum, flètta þeir þyrnikrans með hvössum broddum og setja hann á höfuð honum, og fyrir veldissprota láta þeir reyr í hönd hans, til að sýna hversu veikt og aflvana veldi hans væri. Hèr við bæta þeir smánarlegu háði í orðum og viðmóti, hrákum og höggum. Hann stendur þar forsmáður og fyrirlitinn, eins og auðvirðileg-

astur allra manna. Já, alltaf aukast og margfaldast píslir frelsara vors; en aukast þá líka að því skapi vorar góðu og guðrækilegu hugarhræríngar? Eykst að því skapi viðbjóður vor við syndinni af íhugun Jesú margföldu písla? Glæðist að því skapi elska vor til hans og þakklæti vort við hann? Eflist að því skapi trúartraust vort og bænrækni vor? Styrkjast að því skapi vor betrunar áform? Eða stendur þetta allt í stað? Það sem vèr nú höfum heyrt og lesið um margfjölda Jesú písla, hefir það engin vekjandi, engin hrærandi, engin betrandi áhrif haft á hjörtu vor? Látum vèr það þjóta eins og vind um eyrun, án þess að gefa því frekari gaum? Skoðum vèr það eins og einhverja fornaldarsögu, sem oss sè óviðkomandi? Ó, hversu dauð og tilfinníngarlaus væru vor hjörtu, ef þau gætu ekki viknað við Jesú pínu, við þá hugleiðíngu, að hann varð að þola allt þetta vegna vorra synda! Ó, hversu andvaralausir hlytum vèr að vera, ef oss aldrei yrði það fyrir, að renna huganum frá Jesú pínu til sjálfra vor og vors eigin sálarástands, og hugleiða sambandið milli hennar og vorra synda! Eins og Jesú friðþægjandi pína og dauði yfir höfuð minnir oss á hans óendanlega kærleika til vor syndugra manna, eins minnir líka sèrhvert einstakt atvik í hans pínu oss á mannlega synd; já, jafnvel þyrnikórónan, sem með sínum hvössu broddum særði hans blessaða höfuð, minnir oss á upptök, eðli og afleiðíngar syndarinnar.

„Þyrna og þistla skal jörðin þèr bera", sagði Guð við vora fyrstu foreldra, þegar þeir höfðu brotið hans boð (1. Mós. b. 3., 18.), og nú uppsker Jesús avöxt mannkyns-syndarinnar. Er ekki líka sèrhver synd þyrnibroddur í samvizkunni? Er ekki syndin broddur dauðans? — Æ, sála mín! þínar syndir áttu líka þátt í þessu; einnig þú hefir hjálpað til að flètta þessa þyrna, þenna syndakrans. Einnig mínar syndir barst þú, frelsari minn! einnig mína þyrna, einnig brodd míns dauða tókst þú á þig og tókst hann burt frá mèr. Syndakransinn á þínu höfði er orðinn að vorum sigurkransi. „Dauði! hvar er þinn broddur? helvíti! hvar er þinn sigur? Guði sè lof, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir Jesúm Krist"! Þín þyrnikóróna, Drottinn minn! er nú orðin mín hjartans huggun, þegar eg verð að bera þyrnikórónu þjáninga og mótlætinga. Æ! þess vegna vil eg ekki mögla, þó eg fái eitthvað mótdrægt að reyna; ekki sækjast eptir því sífelt að baða í rósum, fyrst þú varst stúnginn með þyrnibroddum. Þóknist þèr að fá mèr þína þyrnikórónu að bera, þá skal eg í auðmýkt taka við henni, því á henni vaxa rósir, sem munu breyta hrygð minni í fögnuð. En hvað sem þèr þóknast að láta mèr mæta á þessari jarðnesku vegferð, þá láttu mig aldrei gleyma þinni þyrnikórónu, aldrei gleyma þinni bitru pínu; tak þú þèr bústað í sálu minni, svo þar aldrei framar vaxi þyrnar nè illgresi syndarinnar, er kæfi þitt orð og verkanir þess

í hjarta mínu, heldur fái eg borið mikinn ávöxt til eilífs lífs, og loksins úr býtum borið þá himnesku kórónu rèttlætisins, sem þínum trúlyndu þjónum er fyrirheitin á dýrðarinnar og sælunnar landi. Æ! híngað til hefi eg einatt verið eins og „reyr af vindi skekinn", breyskur, hviklyndur og óstöðugur í hinu góða; styð þú mig með þinni máttarhendi og leyf þú mèr að halda mèr fast við þann himneska veldissprota, sem þú stjórnar þínu ríki með; æ! lofa þú mèr að eins að „snerta fald þinna klæða", snerta þína himnesku purpurakápu, sem er ljós af Guðs dýrðarljósi, svo eg jafnan framgangi í ljósinu og verði ljóssins barn, svo eg verði þinn þjónn og þitt barn, og það verði mín æðsta unaðsemd, að falla fram og tilbiðja þig, að lofa og vegsama þig hèr og síðarmeir, frá því nú er og að eilífu. Amen.

---

# 25. hugvekja.

Pílatus gekk þá út aptur og sagði til Gyðínganna: „Sjáið! eg leiði nú Jesús aptur til yðar, svo að þèr vitið, að eg finn enga sök hjá honum". Jesús gekk þá út með þyrnikórónu á höfði og í purpurakápu, og Pílatus sagði til þeirra: „Sjáið manninn"! En þegar prestahöfðíngjarnir og þjónar þeirra sáu hann, æptu þeir og sögðu: „Krossfestu! krossfestu

hann"! Pílatus sagði: „Takið þèr hann og kossfestið, því að eg finn enga sök hjá honum". Gyðíngar svöruðu: „Vèr höfum lög og eptir vorum lögum á hann að deyja, því að hann hefir gjört sig sjálfan að Guðssyni".

Þó Pílatus væri nú farinn að venjast við að horfa á þær píslir, sem Jesús hlaut að þola, varð hann þó hrifinn af sárri meðaumkun, þegar hann sá þá himnesku tign, sem hjá Jesú skein gegnum hina dýpstu jarðnesku smán og vanvirðu, og hann gat ekki ímyndað sèr, að hjarta nokkurs manns væri svo hart og vonzkufullt, að það fengi af borið slíka sjón, án þess að hrærast og vikna. Þess vegna sýndi hann nú Gyðíngum Jesú aumkunarverða útlit og mælti: „sjáið manninn"! Enginn hefir nokkurn tíma verið eins heilagur og saklaus og Jesús, og enginn hefir nokkurn tíma reynt aðrar eins kvalir og hann. Það er eins ómögulegt, að útmála stærð Jesú pínu, eins og að lýsa því guðdómlega hugarfari, sem hann bar hana með. Hann stóð þolinmóður og hógvær eins og lamb, sem leitt er til slátrunar, og upplauk ekki sínum munni. Hjá honum sjáum vèr þann eilífa kærleika og þá óendanlegu miskunsemi, sem hlýtur hjá hverjum óspilltum manni að vekja undrun og lotníngu, elsku og þakklæti; og í hvert sinn sem vèr virðum fyrir oss Jesú misþyrmdu

mynd, þá er eins og vèr heyrum hann ávarpa oss á þessa leið: „þetta gjörði eg fyrir þig; hvað gjörir þú fyrir mig"? Aldrei hefir nokkur sú mynd verið til í veröldinni, er gæti vakið hjá oss eins innilegar auðmýktar og blygðunar tilfinníngar, eins og frelsarans blóðuga mynd á Gabbata, eða sárari angist og dýpri hrygð yfir vorri miklu syndasekt; en aldrei hefir líka nokkur önnur mynd verið eins huggunarfull fyrir alla þjáða krossberendur og iðrandi sálir, því þar sjá þær Guðs náðarfaðm útbreiddan móti föllnu og syndugu mannkyni; þar sjá þær Guðs heilaga rèttlæti sameinað hans eilífa kærleika og heyra þessi huggunarfullu orð til sín töluð: „Guð vill ekki syndarans dauða, heldur að hann snúi sèr og lifi"; „þèr eru þínar syndir fyrirgefnar, far burt og syndga ekki framar". Sá sem ekki kemst við af því, að sjá Drottinn sinn með þyrnikórónuna og purpurakápuna, blóðugan og benjum hlaðinn, hrakinn og hæddan, og ekki lætur þessa sjón vera neina hvöt fyrir sig til að veita freistíngunum mótspyrnu, nè hafa nokkur áhrif á það, hvort hann eigi heldur að fylgja fortölum sinna vondu fýsna og heimsins tælandi fagurgala, eða laðandi röddu Guðs og hans helgandi náðar — hann hefir aldrei fyrir alvöru skygnzt inn í leyndardóm friðþægíngarinnar og hins guðlega kærleika. Þú kvartar yfir því, kristinn maður! og angrast af því, að þó þú hrærist af að hugleiða Jesú pínu, þá hafi þó þínar góðu hjartahræríngar ekki

stöðugt viðnám hjá þèr, heldur hjaðni niður aptur, undir eins og þú komir út í soll og háreysti heimsins; þú kvartar yfir því og angrast af því, að saman við íhugun Jesú pínu blandist hjá þèr hègómlegar hugsanir, að heimurinn oti að þèr öðrum myndum, er skyggi á mynd frelsara þíns í huga þínum. Hugsa þú optar um hann, um hans friðþægjandi pínu og dauða; hugsa þú optar um sjálfan þig, það er að skilja: um þitt andlega ástand og þína eilífu sáluhjálp; hugsa þú optar um það, hve dýru verði þú ert keyptur, og bið þú Guð jafnframt í hvert sinn um að gefa þèr styrk og staðfestu viljans, og þú munt fá að reyna, að hans kraptur er máttugur í veikleikanum, að kraptur Jesú friðþægjandi kærleika fær helgandi áhrif á hugarfar og líferni þitt. Þá mun ekki einúngis Jesú blóðuga píslarmynd fá stöðugt viðnám í huga þínum, heldur mun hann sjálfur taka sèr þar bólfestu og með sínum anda hreinsa það og helga, svo þú verðir hans sannur lærisveinn til alls góðs verks reiðubúinn. Ó, Jesú! þú gekkst nú út með þyrnikórónu á höfði og í purpurakápu. Láttu þinn anda sífelt minna oss á þessa sjón; láttu þinn anda sífelt vekja hjá oss endurminníngu þessara orða: „sjáið manninn!" sjáið Drottinn yðar og frelsara; sjáið, hvernig honum er misþyrmt vegna yðar synda, og látið þessa hrærandi sjón vekja hjá yður viðbjóð við syndinni, en heitustu elsku til hans og hjartanlegasta þakklæti við hann fyrir hans

óumræðilegu elsku. „Sjáið manninn"! sem nú gengur út í dauðann, blóðugur og þyrnikrýndur með syndabyrði yðar í sínu heilaga hjarta; það er nú sú byrðin, sem liggur þýngst á honum, sá broddurinn, sem særir hann mest. Ó, Drottinn minn! hvar sem eg er og hvert sem eg fer, skal eg ávallt hafa þig fyrir augum mèr og geyma þína blessuðu mynd í hjarta mínu, og þegar eg á að ganga út hèðan í greipar dauðans, þá skal þín krossganga vera mín einasta huggun og athvarf. Æ! leiddu þá minn anda út úr þessu lífi inn í hið æðra eilífa lífið, sem þú hefir leitt í ljós og afrekað oss syndugum mönnum, og leyf þú mèr ásamt öllum útvöldum að sýngja þèr eilíft lof og þakkargjörð! Bænheyr það í þínu náðar nafni! Amen.

---

# 26. hugvekja.

Þegar Pílatus heyrði það, að Jesús væri Guðssonur, varð hann enn hræddari, gekk inn í þínghúsið aptur og sagði við Jesúm: „hvaðan ertu"? en Jesús anzaði honum ekki. Pílatus sagði þá við hann: „Talar þú ekki við mig? veiztu ekki, að eg hefi vald til að krossfesta þig og vald til að láta þig lausan"? Jesús svaraði: „Ekki hefðir þú vald yfir

mèr, nema þèr væri gefið það hèr að ofan, því er sá enn sekari, sem ofurseldi mig þèr". Upp frá því leitaðist Pílatus við að láta hann lausan. En Gyðíngar kölluðu og sögðu: „Ef þú lætur hann lausan, þá ertu ekki vinur keisarans; því hver sem gjörir sig að konúngi, hann er á móti keisaranum".

---

Allar þær tilraunir, sem Pílatus gjörði til að sefa heiptaræði Gyðínganna gegn Jesú, óheppnuðust. Hann hafði ekki þrek í sèr til að láta Jesúm lausan, þó hann yrði að játa sakleysi hans, heldur var hann eins og reyr af vindi skekinn og varð hrifinn af einni hræðslu eptir aðra. Stundum þorði hann ekki að styggja Gyðíngana, af ótta fyrir því, að þeir mundu ákæra sig fyrir keisaranum og koma upp um sig mörgu ranglæti, sem hann hafði í frammi haft, svo hann kynni að verða settur frá völdum; stundum þorði hann ekki að út hella saklausu blóði beinlínis á móti samvizku sinni. En ótti fyrir keisarans reiði varð þó yfirsterkari, einkum þegar hann heyrði, að Jesús hefði gjört sig að konúngi. En hve mörgum ferst ekki líkt og Pílatusi, þegar þeir eiga að skera úr því, hvort þeir eigi að meta meir tímanlegan hagnað eða samvizku sína. Þeir eru, því miður, færri, sem láta sannleiksástina sitja í fyrirrúmi fyrir eigingirninni. Margir vilja gjöra rètt, en vilja

ekki að það kosti sig neitt, og leita allra bragða, eins og Pílatus, til þess að fegra fyrir sjálfum sèr þrekleysi sitt til hins góða. Það er ekki hægt, að þjóna bæði Guði og heiminum, og mjög hættulegt, að vilja miðla málum milli sannleika og lygi, milli þess sem Drottinn hefir boðið og bannað. Láttu Pílatusar dæmi verða þèr að varnaði, kristinn maður! svo þú ekki sèrt hikandi og á báðum áttum, þegar þú átt at velja um, hvort þú vilir heldur fylgja Guðs og samvizkunnar boðum, eða eigingjörnum og syndsamlegum áeggjunum holdsins og heimsins, heldur fylgir því ávallt hiklaust, sem þú ert sannfærður um, að er rètt og satt og gott. Af því muntu uppskera Guðs velþóknun og rósemi samvizku þinnar. Pílatus hèlt, að hann hefði vald til að krossfesta Jesúm og vald til að láta hann lausan, en gætti þess ekki, að hann af ótta fyrir mönnum og eigingirni hafði misst vald yfir sjálfum sèr og úrskurðum sínum, og vissi ekki hitt, sem Jesús sagði honum, að hann hefði ekkert vald haft yfir frelsaranum, nema honum hefði verið gefið það hèr að ofan, nema það hefði verið samkvæmt ráðsályktun hins eilífa kærleika, að Jesús skyldi líða pínu og dauða fyrir oss synduga menn. Enginn tók Jesú líf frá honum, heldur lagði hann það frá sèr af elsku til vor og undirgefni undir vilja síns himneska föður. Hvergi nema í hans himneska hjarta finnum vèr orsökina til hans pínu og dauða. Hvorki svik Júdasar, nè hatur hinna

æðstu presta, eða hviklyndi Gyðíngalýðsins, hvorki þrekleysi Pílatusar nè grimmd hinna heiðnu hermanna hafa framselt Jesúm í dauðann, heldur syndir vorar og sú eilífa ráðsályktun föðursins, að endurleysa oss með dauða sonarins. En þeir voru allir eins hegníngar verðir fyrir það, því þó þeir framkvæmdu vilja guðlegrar forsjónar, gjörðu þeir það óafvitandi, en breyttu vísvitandi mót betri vitund af syndsamlegum hvötum og ástæðum. Þó heimsins alvitri stjórnari stýri afleiðíngum synda vorra til eflíngar hins góða, þá er það engin afsökun fyrir oss, þegar vèr brjótum hans boð og gjörum það sem rangt er, því hann hefir gefið oss skynsemi og frjálsræði, og í sínu heilaga orði og samvizkunni opinberað oss vilja sinn, og samkvæmt þessari þekkíngu vorri og þeim hvötum og ástæðum, sem vèr höfum til breytni vorrar, verðum vèr dæmdir, og megum vèr þá ekki óttast fyrir því, að sá dómur, sem uppkveðinn verður yfir oss, muni verða enn þýngri en dómurinn yfir Pílatusi, þessum heiðna landstjórnara, sem hvorki þekkti Guð nè hans vilja? Allt frá fæðingu vorri hefir góður Guð gjört allt til þess, að uppfræða oss um sinn heilaga vilja; allt til þess, að sýna oss, að hans vili er fyrir oss sá einasti sáluhjálpar vegur; allt til þess, að leiða og laða oss til sín og síns ríkis. En hvern ávöxt hefir þetta borið hjá oss? Eru hjörtu vor helguð Guði og orðin hans musteri? Eða eru þau bústaður syndsamlegra hugsana og

óhreinna girnda? Höfum vèr gjört Guðs vilja að vorum vilja? Eða fylgjum vèr vorum holdlega, Guði fráhverfa vilja, þegar freistíngarnar benda oss? Höfum vèr lært að afneita sjálfum oss og heiminum? Eða afneitum vèr Guði og hans boðum, þegar svo ber undir? Það er mjög áríðanda fyrir oss, að vèr leggjum slíkar spurníngar fyrir oss og svörum þeim með hreinskilni og alvörugefni, svo vèr ekki svíkjum sjálfa oss, nè ætlum oss betri en vèr erum. Á þetta minnir líka Jesús oss, þar sem hann talar um sekt Pílatusar og þess er fram seldi hann, því hinn seki á von á dómi, og sèum vèr sekir, þá verðum vèr dæmdir. Já, „allir eigum vèr að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hver einn fái laun eptir sinni breytni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond". Æ, Guð minn góður! eg finn, að eg hefi syndgað í himininn og fyrir þèr; eg finn, að eg er sekur og að mín sekt er mikil og þúng, því eg get ekki afsakað mig með því, að eg hafi ekki þekkt þinn vilja eða fengið nógar áminníngar, bendíngar og uppörfanir til að hlýða honum; með engu get eg afsakað mig, og nema þín eilífa náð finni mèr einhverja afsökun, þá mun eg sæta þúngri hegníngu í þínum stranga dómi. En þín miskun er eilíf og óendanleg, og til hennar flý eg og bið þig í Jesú nafni um uppgjöf á minni syndasekt. Æ, gjörðu við mig hvað þèr þóknast; en hjálpa þú mèr til að

geta þóknazt þèr og til að verða þitt trútt og hlýðið barn!

Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 27. hugvekja.

Þegar Pílatus heyrði þetta, leiddi hann Jesúm út og settist á dómstólinn á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði, en á hebresku Gabbata. En þá var aðfangadagur páska, hèr um bil um hádegi. Nú sagði hann við Gyðínga: „sjáið! þar er yðar konúngur"! en þeir hrópuðu: „burt! burt með hann! krossfestu hann"! Pílatus sagði við þá: „á eg að krossfesta konúng yðar"? Þá svöruðu hinir æðstu prestar: „vèr höfum engan konúng nema keisarann".

---

Pílatus settist nú á dómstolinn á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði. Pílatus hafði rètt til að dæma, því hann hafði þegið dómaravald sitt af keisaranum; og er það vissulega nauðsynlegt mannlegu fèlagi til tryggíngar, að dómendur sèu settir til að hegna glæpum og lagabrotum. En því fremur eigum vèr að varast, að taka oss sjálfir dóms-

vald yfir bræðrum vorum. Og hvað er þó tíðara, en að menn dæmi aðra og uppkveði ómilda dóma yfir breytni og hugarfari þeirra; já, margir gjöra sèr enga samvizku af að leggja allt út á vesta veg fyrir öðrum og dæma um, hvern tilgang þeir hafi með hverju því, sem þeir gjöra, að eg ekki tali um þá, sem ljósta ósönnum óhróðri upp um náúnga sinn. Guðsorð tekur oss harðlega vara fyrir þessu og segir oss, að ef vèr dæmum hart, muni ómiskunsamur dómur yfir oss ganga, og með þeim sama mæli, sem vèr mælum öðrum, muni oss aptur mælt verða. Og er þetta eðlilegt; því af hverju spretta ómildir dómar nema af kulda og kærleiksleysi hjartans? En mannelskan er hið annað æðsta boðorð kristilegrar trúar. En eins og harðir og ómildir dómar um aðra eru vottur um kærleikslaust hugarfar, eins lýsir það kristilegri og sannri sjálfselsku, að vera vandur að við sjálfan sig og dæma sitt eigið sálarástand hart og hlutdrægnislaust. Í samvizku þinni er þitt rètta dómarasæti, kristinn maður! þar átt þú að setjast á dómstólinn og dæma sjálfan þig. Pílatus settist á dómstólinn á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði; Guð gæfi, að samvizka þín ætti ekki samnefnt við þenna stað; Guð gæfi, að henni yrði ekki samjafnað við steinlagðan stað, nè um hana yrði sagt, að yfir hana hafi gengið svo margar ástríður og syndir, að hún sè nú orðin tilfinníngarlaus og hörð eins og steinn. Það er sagt í textanum, að Pílatus

hafi leitt Jesúm út með sèr, þegar hann settist á dómstólinn. Gjör þú eins, kristinn maður! tak þú Jesúm með þèr, þegar þú fer að dæma sjálfan þig, og ber þú sálarástand þitt með alúð og hreinskilni saman við hans heilaga lærdóm, og þá muntu komast að raun um, að þú ert sakfallinn fyrir Guði og fjarri því helgunarinnar takmarki, sem þèr er ætlað að ná. En eins og Jesús sannfærir þig um syndina, rèttlætið og dóminn, þannig getur og hann einn huggað þína hreldu samvizku með fyrirheitum guðlegrar náðar, og gefið þèr djörfúng og þrek til lífernisbetrunar. Huggun fær þú af því að vita, að hann er frelsari þinn og endurlausnari, og þrek og djörfúng af þeirri fullvissu, að hann er andlegur konúngur þinn og sinnar kirkju, að hann með sínum trúuðu allt til enda veraldar styrkir þeirra veiku krapta í stríðinu við holdið og heiminn og sleppir aldrei hendi sinni af þeim. En jafnframt því sem þú hlýtur að dæma sjálfan þig sekan, verður þú að uppkveða krossfestíngardóm yfir holdinu og girndum þess, og neyta allra krapta til að stríða við sèrhverja syndsamlega tilhneigíngu, til að afleggja brek og bresti og færa þèr þau náðarmeðul í nyt, sem Guð hefir gefið þèr til að viðhalda samfèlaginu við hann og frelsara þinn. Þessa þarftu því fremur við, sem þú af dæmi Gyðínganna og líklega af eigin reynslu hefir sèð, hversu hvikult og óstöðugt mannlegt hjarta er. Gyðíngarnir afneituðu nú Jesú sem kon-

úngi, og sögðust engan konúng hafa nema keisarann; en fyrir fám dögum höfðu þeir fylgt Jesú þegar hann reið inn í Jerúsalem, höggvið kvistu af trjánum, breitt klæði sín á veginn fyrir hann og heilsað honum sem konúngi með fagnaðarópi, og nokkru áður höfðu þeir viljað taka hann til konúngs yfir sig, þegar hann á eyðimörkinni mettaði fimm þúsundir manns á dásamlegan hátt; en hann komst þá úr höndum þeirra (Jóh. 6., 1.—15.). Æ, megum vèr ekki allir játa, að hjarta vort er hvikult og óáreiðanlegt? Vèr höfum stundum verið hrærðir af Guðs náðarvelgjörðum við oss, vèr höfum heitið honum trú og hollustu og um stund leitazt við að ganga á hans vegum. En heimurinn, vort eigið óstöðuga hjarta og þær freistíngar, sem vèr ekki höfum nógsamlega varazt og umflúið, hafa bráðum aptur slökkt og sljófgað vorar guðrækilegu tilfinníngar, svo vèr höfum gleymt Guðs velgjörðum og vorum góðu loforðum, og ef til vill seinast hrópað: burt með Jesúm úr vorum hjörtum! vèr höfum engan konúng nema heiminn með hans lystisemdum. Ekkert er sáluhjálp vorri eins til fyrirstöðu eins og óstöðugleiki vor í hinu góða; og það er þessi óstöðugleiki, sem Guðs náð á bágast með að yfirbuga í hjörtum vorum. Vèr erum aldrei sjálfum oss líkir; ýmist erum vèr hrærðir af Guðs miskunsemi, ýmist trylltir af heiminum; og af því dygðin heimtar staðfastan vilja og stöðuga sjálfsafneitun, veitir oss svo erfitt,

að vera dygðugir og sýna Guði trúmennsku. Æ! höfum vèr þá ekki orsök til að hafa stöðugt gát á sjálfum oss, til þess iðulega að rannsaka vort sálarástand og biðja Guð að styrkja vora veiku krapta, svo vèr getum reynzt honum trúir! Þegar Jesús var leiddur fyrir dómstól Pílatusar, var aðfangadagur páska, hèr um bil um hádegi. Þetta minnir oss á, að vort jarðneska líf er aðfangadagur hins mikla upprisudags, og fyrir mörgum af oss er hádegi æfidagsins, ef til vill, þegar liðið og farið að síga á seinni hlutann. Dæmum því sjálfa oss, áður en hinn mikli dóms og upprisu dagur upp rennur, svo þá verði ekki hrópað yfir oss: „burt! burt með hann"! og oss útskúfað frá Drottins augliti í hin yztu myrkur, heldur megum vèr fara frá dauðanum til lífsins. Ó, Jesú! vertu oss syndugum líknsamur; vertu oss vægur og miskunsamur dómari! Amen.

---

# 28. hugvekja.

Nú er Pílatus sà, að hann mundi engu fá til vegar komið, heldur mundi þar upphlaup verða, tók hann vatn og þvoði hendur sínar, svo allir sáu, og mælti: „Sýkn er eg í lífláti þessa saklausa manns; sjáið þèr fyrir

því"! Þá mælti allur lýðurinn: „Hans blóð komi yfir oss og börn vor"! En til að fullnægja lýðnum, dæmdi Pílatus, að ske skyldi beiðni þeirra.

---

Enn þá einu sinni játar Pílatus opinberlega Jesú sakleysi, og með því að þvo hendur sínar lýsir hann því yfir, að hann vili ekki taka á sig neina ábyrgð fyrir Jesú líflát. Þannig vildi hann telja sjálfum sèr trú um, að hann hefði nú gjört allt, sem í sínu valdi stæði, til að frelsa Jesúm; en hitt þókti honum ekki tilvinnanda, að baka sèr hatur lýðsins og má ske óvild keisarans. Ó! hversu opt ferst ekki kristnum mönnum líkt og Pílatusi. Þeir eru fúsir til að játa sannleikann, fúsir til að gjöra skyldu sína, meðan þetta ekki kostar neina sjálfsafneitun; en undir eins og þeir þurfa að láta eitthvað á móti sèr, undir eins og þeir óttast fyrir, að þeir muni baka sèr óvild og álas heimsins, eða þurfa að fara á mis við einhvern tímanlegan hagnað: þá hika þeir sèr ekki lengur við að yfirgefa sannleikans veg og fótum troða skyldu sína, og til að friða samvizku sína, þvo þeir hendur sínar, eins og Pílatus, telja sèr trú um, að þeir hafi gjört allt, sem þeir gátu, fyrir hið góða málefni, og reyna til að velta skuldinni á aðra. Þannig fer það ætíð fyrir manninum, þegar hann ætlar

bæði að fullnægja syndinni og Guðs boðum; hann festir þá hugann við hið ytra og þvær hendur sínar í stað þess að hreinsa hjartað. Æ, kærir bræður! öll vor ytri siðsemi er einskis verð í augum hins alltsjáanda, nema hún eigi sèr rót í hjörtum vorum, nema hún spretti af trúnni og elskunni til Guðs. Meðan vèr ætlum að miðla málum milli Guðs og heimsins, milli samvizkunnar og vorra holdlegu girnda, stjórnast breytni vor af óhreinum og eigingjörnum hvötum; vèr elskum þá ekki Guð heldur heiminn og óttumst einúngis hegnínguu syndarinnar, og þó verður hinn óttinn yfirsterkari, að vèr munum missa af einhverjum veraldlegum gæðum, ef vèr hiklaust og beinlínis hlýðum Guðs boðum og röddu samvizku vorrar. Látum oss því forðast syndina og forðast hana af hjarta; látum oss vilja hið góða og vilja það af hjarta, og biðjum Guð að skapa í oss hreint hjarta og styrkja vorn veika vilja; biðjum hann að hjálpa oss til að útrýma allri syndsamlegri hálfvelgju úr hjörtum vorum, svo vèr getum "horft beint og haldið beint" áfram á þeim vegi, sem til lífsins liggur. Þá munum vèr ekki láta oss lynda, að þvo hendur vorar, nè sýnast fyrir mönnum, heldur kappkosta að hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans til að þóknast Guði. Þá munum vèr ekki framselja Jesúm í dauðann til að fullnægja holdsins og heimsins vild, heldur veita honum inntöku í vor hjörtu, elska hann og treysta honum,

hlýðnast hans boðum og lifa og deyja í hans nafni og í sameiníngunni við hann.

Þá ábyrgð, sem Pílatus vildi velta af sèr, buðust nú Gyðíngarnir til að taka á sig og sögðu: „hans blóð komi yfir oss og börn vor"! Aldrei hafa nein óttalegri orð heyrzt í veröldinni. Hin blindaða þjóð, sem var uppæst af sínum blindu leiðtogum, uppkvað þannig hegníngardóminn yfir sjálfri sèr og manaði yfir sig Guðs heilaga rèttlæti. Og hve óttalegt er að hugsa til þess, hvernig Jesú blóð kom yfir hana og börn hennar! Eyðileggíng Jerúsalems borgar, tvístrun Gyðíngaþjóðarinnar út um allan heim, forsmán hennar og fyrirlitníng meðal allra þjóða; allt þetta er hræðileg uppfyllíng þeirra skelfilegu óbæna, sem hún bað sjálfri sèr, þegar hún æpti: „hans blóð komi yfir oss og börn vor"! Æ! Jesú blóð biður um syndafyrirgefníng einúngis fyrir hina sanniðrandi; en iðrunarlausum hlýtur það að verða til hegníngar. Ó, hvílík viðvörun er þetta fyrir oss! Maðurinn getur á svipstundu talað þau orð og aðhafzt þau verk, sem brenna á samvizku hans eins og logandi eldur alla æfi, já, um alla eilífð. Ó! að vèr því hefðum stöðugt gát á sjálfum oss, stöðugt gát á orðum vorum og verkum, svo vèr þyrftum ekki að ásaka oss fyrir það, að þær þrautir og þjáníngar, sem oss kunna að mæta, sèu dómar Guðs hegnanda rèttlætis, því engin tilfinníng er sárari en sú, að vita sig sjálfan vera valdan að böli sínu. En ef

oss af breyskleika verður á að hrasa, æ, leitum þá fyrirgefníngar undir Jesú krossi, í Jesú blóði, svo að hegníngin, þegar hún kemur, geti þó að minnsta kosti orðið meðal til vorrar betrunar, sáluhjálplegt meðal í Guðs föðurlegu forsjónarhendi til að leiða oss til iðrunar og apturhvarfs. „Krists blóð talar hærra en Abels blóð". Þetta eru huggunarfull orð fyrir sèrhverja sanniðrandi sál, sem andvarpar undir sinni þúngu syndabyrði og liggur við að örvænta sèr Guðs náðar. Æ! þegar sál mín er sundurkramin og eg finn hvergi frið sökum synda minna, og eg hugsa, að þær sèu meiri en svo, að þær verði mèr fyrirgefnar, þá vil eg endurminnast þessara orða: „Krists blóð talar hærra en Abels blóð", og í trúnni á Jesú friðþægjanda dauða flýja til Guðs miskunandi náðar og treysta því, að Jesú blóð muni koma yfir mig og börnin mín, ekki til hegníngar fyrir syndir mínar, heldur mèr og þeim til blessunar og sáluhjálpar. Æ, láttu það rætast, lausnari minn! Amen.

---

## 29. hugvekja.

Pílatus gaf Gyðíngunum, að bón þeirra, Barabbas lausan, sem fyrir upphlaup og manndráp hafði verið settur í myrkvastofu, en Jesúm húðstrýktan framseldi hann þeim, að hann krossfestur yrði.

---

Pílatus gaf nú Gyðíngunum Barabbas lausan, eins og þeir höfðu beiðzt, en framseldi þeim Jesúm til krossfestíngar. Manndráparinn er látinn laus, en hinn heilagi er dæmdur til dauða. Hversu opt ber það ekki enn við í veröldinni, að hinn seki sleppur óhengdur, en hinn saklausi er ranglega sakfelldur? Hversu opt ber það ekki enn við í veröldinni, að hinn óguðlegi kemst klaklaust af, já, hefir auð og alls nægtir, en hinn guðhræddi á við ýmislegt mótlæti og mæðukjör að búa? Þannig hefir Guðs alvitru forsjón þóknazt að haga því hèr í tímanum, og vèr skammsýnir menn getum ekki ætíð skilið hans vísdómsráð, því hans vegir eru einatt órannsakanlegir, en eru þó einber miskun og trúfesti. Svo mikið getum vèr sèð, að þessi tímanlegu gæði gjöra ekki þann óguðlega sannfarsælan, því sannarleg farsæld er innifalin í góðri samvizku og friði við Guð, sem hinn óguðlegi ekki getur haft; þar á mót gjöra þau hann enn þá hegníngar verðari, af því hann skoðar þau ekki sem Guðs gjöf, heldur ofmetnast í hjarta sínu

og fyrirlítur ríkdóm Guðs náðar og langlundargeðs. Þar á mót er krossburðurinn meðal í Guðs hendi, til að losa hjörtu hans barna við heiminn og lypta þeim upp yfir þetta tímanlega til hins eilífa og ósýnilega, svo þau því innilegar geti haldið sèr til Guðs og haft umgengni sína á himnum. En þó vèr þannig getum sagt með fullum rètti, að meðlætið sè hegníng fyrir hinn óguðlega, af því það fjarlægir hann enn meir frá Guði, og að mótlætið sè Drottins velgjörð við hinn guðhrædda, af því það styrkir hans trúnaðartraust á Guði og undirgefni undir hans vilja, ætlumst vèr þó til þess af Guðs gæzku og hans rèttlæti, að hann einhvern tíma gjöri fullkominn jöfnuð og algjörlega samhljóðun milli hins ytra og hins innra, og að hann láti hin ytri lífskjör mannanna að öllu leyti samsvara þeirra siðferðislega ásigkomulagi. Um þetta fullvissar oss líka Guðs opinberaða orð, en bendir oss jafnframt út yfir þetta líf; það kallar þetta líf sáðtíma, en eilífðina uppskerutíma, og segir oss, að við endi þessa vors jarðneska lífs byri uppskeran og hinn rètti endurgjaldstími. Það segir oss, að á eptir dauðanum komi dómurinn, og að vèr þá „allir eigum að birtast fyrir Krists dómstóli, svo hver einn fái laun eptir breytni sinni í líkamanum, hvort sem hún hefir verið góð eða vond"; því segir Páll postuli: „eg tel, að mótlætíngar nálægs tíma komist ekki í samjöfnuð við þá dýrð, sem við oss mun opinber verða" (Róm. 8., 18.), og á öðrum

stað segir hann: „vor þrengíng, sem er skamvinn og lèttbær, aflar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar dýrðar: oss, sem ekki lítum til hins sýnilega, heldur ósýnilega, því hið sýnilega er tímanlegt, en hið ósýnilega eilíft" (2. Kor. 4., 17.—18.). Þetta var huggun Jesú postula, svo þeir gengu glaðir í dauðann fyrir Jesú nafns sakir; það var huggun allra Jesú píslarvotta, og það hefir á hinum liðnu öldum verið huggun allra guðsbarna í sèrhverri þraut og þjáníngu þessa lífs; þau hafa hèr í trúnni fengið forsmekk þeirrar himnesku sælu, sem þeim er ætluð á landi skoðunarinnar, og þessi sælutilfinníng hefir veitt þeim djörfúng og hugrekki til að bera mæðu og mótlæti þessa lífs og þreyta skeiðhlaupið með kristilegri þolinmæði. Í dauðanum byrjar hinn rètti endurgjaldstími. Þenna háleita og huggunarfulla sannleika sjáum vèr staðfestan á frelsara vorum; hann var nú framseldur í dauðann, saklaus og heilagur, vegna vorra synda; en í dauðanum byrjaði aptur hans himneska dýrð og vegsemd; og guðsorð segir oss, að „ef vèr líðum með honum", með undirgefni undir Guðs vilja eins og hann, „þá munum vèr einnig með honum dýrðlegir verða". Í dauðanum byrjar hinn rètti endurgjaldstími. Eins og guðsbörn hugga sig við þetta náðarríka fyrirheit Drottins, eins er þetta hræðileg tilhugsun fyrir hinn óguðlega syndara, sem iðrunarlaust heldur áfram í syndum sínum. Þó hann sleppi hjá hegníngu mannlegra laga;

þó honum takist að komast klaklaust af í veröldinni; já, þó hann að ytra áliti baði í rósum: er hann þó aldrei sannarlega farsæll, því hann finnur til Guðs ónáðar í sálu sinni, finnur til þess, að hann muni einhvern tíma uppskera ávöxt þess, er hann sáir, og að ávöxtur syndarinnar er eilíf glötun og dauði. Textinn segir oss, að Pílatus hafi framselt Gyðíngunum Jesúm húðstrýktan, að hann krossfestur yrði. Krossfestíngin var hegníng óbótamanna hjá heiðíngjunum, og gaf til kynna, að hinum krossfesta væri útskúfað af jörðunni, og að á honum lægi bölvun, hegníng og reiði guðanna. Frelsaranum var nú útskúfað úr Ísrael og hann gjörðist bölvun vor vegna, „því þann, sem aldrei þekkti synd, gjörði Guð að syndaforn vor vegna, svo að vèr fyrir hann rèttlættir yrðum" (2. Kor. 5., 21.). Þó vèr því, kærir bræður! ekki getum ætíð skilið vegi guðlegrar forsjónar, eða þó heimurinn útskúfi oss og vèr eigum við eitthvað mótdrægt að stríða í þessu lífi, þá látum það aldrei veikja traust vort á Guðs speki og gæzku, heldur trúum því staðfastlega, sem guðsorð og reynsla allra guðsbarna segir oss, að allir hlutir verði að þèna þeim til góðs, sem Guð elska, og að vèr hinu megin grafarinnar munum af Guðs náð öðlast þau dýrðlegu verðlaun, sem hans trúlyndu þjónum eru heitin, fyrir Jesú forþènustu sakir, sem vor vegna var fram seldur, að hann krossfestur yrði. Amen.

---

## 30. hugvekja.

Þá tóku þeir Jesúm, eptir að þeir höfðu spottað hann, færðu hann úr purpurakápunni og í hans eigin klæði, leiddu hann síðan út, að hann krossfestur yrði, og hann bar sinn kross. En er þeir leiddu hann út, gekk þar fram hjá maður nokkur, faðir þeirra Alexanders og Rúffusar, ættaður frá Sýrene, sem kom utan af landsbygðinni. Þenna mann tóku þeir og neyddu hann til að bera krossinn, og lögðu hann upp á hann, að hann bæri hann eptir Jesú.

---

Í dag fylgjum vèr Jesú á hans mæðufullu krossgöngu til Golgata. Annars var vant að láta líða nokkurn tíma frá því dómur var felldur og þangað til hinn dæmdi var líflátinn, og eptir lögum Rómverja átti að skjóta líflátinu á frest til hins tíunda dags, nema þegar uppreistarmenn og ræníngjar áttu hlut að máli. Þessi hraði sýndi því, að Jesús var talinn með hinum verstu illræðismönnum, með því líka Gyðíngunum var um það hugað, að hafa ráðið hann af dögum fyrir páskahátíðina. En það skeði eins og annað eptir Guðs eilífa vísdómsráði, til þess að páskahátíðin gæti fyrir Jesú dauða orðið sannarleg upprisuhátíð. — Jesús var nú leiddur út, og „hann bar sinn

kross". þetta var landsvenja, sem átti að sýna hið nána samband, er væri milli sakarinnar og hegníngarinnar. En kraptar frelsarans voru nú þrotnir, og máttvana hneig hann niður undir krossins þúngu byrði. þá tóku þeir krossinn af herðum hans og lögðu hann á herðar Símons frá Sýrene, sem mætti mannþyrpíngunni. Ó, sæll varst þú, Símon! að þú varst álitinn þess verður að lina þjáníngar lausnara þíns! Að vísu var þèr sýnd háðúng eptir heimsins dómi; en það sem var háðúng í heimsins augum, varð til blessunar í Guðs forsjónar hendi; því það er ekki tilgangslaust að Markús guðspjallamaður getur þess, að þessi Símon var faðir þeirra Alexanders og Rúffusar, heldur vill hann einmitt sýna með því, að þetta hafi gefið tilefni til þess, að Símon ásamt sonum sínum hafi tekið kristni. Einnig við oss segir Drottinn: „Sá sem vill vera minn lærisveinn, hann taki sinn kross á sig og fylgi mèr". Að vísu er þessi vegur í heimsins augum alltaf háðúngarinnar vegur; en hann er þó og verður ætíð blessunarinnar vegur, því þær þrautir og þjáníngar, sem hann leggur oss á herðar, eru sá bezti reynsluskóli til að undirbúa og mennta oss undir eilífðina. Ó! að vèr ekki lètum neyða oss til að bera krossinn á eptir frelsara vorum, heldur gengjum undir hann fúslega og með glöðu geði, því þá munum vèr reyna, að „hans ok er inndællt og hans byrði lèttbær", þá munum vèr reyna, að hann er máttugur í veik-

leikanum og gjörir þann enda á sèrhverju böli, að vèr fáum staðizt. Margir krossberendur eru til í veröldinni, en þeir bera ekki allir krossinn á eptir frelsara sínum, og það er ekki hans ok, sem þeir allir bera. Hið þýngsta ok, sem lagst getur á syndugan mann, er ánauðarok syndsamlegra girnda og lasta, og þetta ok verður alltaf því þýngra og óbærilegra, þess lengur sem það er borið. Undir því örmagnast allar góðar og guðlegar tilfinníngar, og vilinn og krapturinn til hins góða veiklast meir og meir, svo maðurinn að lokunum hrjáist og hrekst út í glötun og dauða. Margra kross eru ógæfusamar afleiðíngar af þeirra fyrri syndsamlegu breytni. Þessi kross getur orðið sáluhjálplegt heilsumeðal fyrir syndarann, ef hann snýr sèr til Drottins og kannast við hans agandi föðurhönd, ef hann ber sínar þjáníngar með undirgefni undir Guðs vilja og lætur þær leiða sig til iðrunar og apturhvarfs. En um þann kross, sem Guð leggur sínum börnum á herðar til að styrkja þau í traustinu og elskunni til sín, talar Davíð með þessum orðum: „þegar þeir ganga um sorgarinnar dal, breyta þeir honum í vatnsríka dæld, og haustregnið þekur hana með blessun. Þeim eykst meir og meir kraptur þangað til þeir birtast fyrir Guði á Zíon" (Sálm. 84., 7.—8.). Guðsbörn eiga alltaf í einhverju stríði á vegferð sinni um þenna sorgarinnar og táranna dal; en þau fá líka alltaf hjálp og huggun hèr að ofan frá föður ljósanna. Að

sönnu er þetta líf sorgardalur, en sá sem gengur gegnum hann með þeirri sannfæríngu, að hann sè að keppa til hins eilífa fyrirheitna landsins, og gengur ókvíðinn áfram í Drottins nafni og í hans krapti, hann finnur marga huggunar og svölunar lind, marga „vatnsríka dæld" í þessari eyðimörku. „Og haustregnið hylur hana með blessun", það er að skilja: þegar þrautirnar eru afstaðnar, þá geta guðsbörn fyrst þekkt til fulls Guðs gæzkuríku handleiðslu og sèð, að krossinn var þeim lagður á herðar af hans eilífu miskunsemi, og þá eru þrautirnar búnar að bera hjá þeim ávexti til eilífs lífs; en ávextirnir eru nægjusemi og sjálfsafneitun, þolinmæði og hógværð, trúnaðartraust og hlýðni, auðmýkt og elska. Í þrautunum „eykst guðsbörnum meir og meir kraptur", því Drottinn er með þeim, og hjá honum leita þau hjálpar og krapta, svo þau ganga sigrihrósandi út úr sèrhverri þjáníngu og geta sagt eins og postulinn: „Langt sè frá mèr að hrósa mèr af öðru, en krossi Drottins vors Jesú Krists, vegna hvers heimurinn er mèr krossfestur og eg heiminum" (Gal. 6., 14.); þangað til þau „birtast fyrir Guði á Zion", á landi sælunnar og fagnaðarins, í Guðs himnesku dýrðarheimkynnum, og þar sýngja þau honum eilíft lof og þakkargjörð. En ó, vor herra Jesús Kristur! sem barst krossinn á undan oss og fyrir oss alla, hjálpa þú öllum þínum krossberendum, og veittu þeim dug og djörfúng til að bera krossinn eptir þèr,

þangað til þeir fá að finna þig á friðarins landi og þú breytir krossinum í kórónu rèttlætisins. Amen.

---

# 31. hugvekja.

Jesú fylgdi mikill fjöldi fólks og kvenna, sem aumkuðu hann og grètu yfir honum. Þá snèri Jesús sèr til þeirra og mælti: „Þèr, Jerúsalems dætur! grátið ekki yfir mèr, heldur yfir sjálfum yður og yfir börnum yðar, því, trúið mèr, þeir tímar munu koma, að menn munu segja: ‚sælar eru óbyrjur og þau móðurlíf, er ekkert fóstur báru, og þau brjóst, er ekki voru mylkt'. Þá munu menn segja til fjallanna: ‚hrynið yfir oss' og til hálsanna: ‚hylið oss'".

---

Á meðal mannfjölda þess, sem fylgdi Jesú til aftökustaðarins, hafa eflaust verið nokkrir, sem gengu með af nýúngagirni, án þess að hafa nokkra fasta sannfæríngu um það, hvort hann væri sekur eða saklaus. Þar á mót voru sumir í flokknum fullir af heipt og hatri, sem fóru til að hæða hinn heilaga og fagna yfir kvöl hans og pínu. En þó voru þar líka

margir, sem voru hrærðir af blíðari tilfinníngum, af brjóstgæðum og meðaumkun, einkum konur, sem „aumkuðu hann og grètu yfir honum". Þá snèri Jesús sèr til þeirra og mælti: „Þèr, Jerúsalems dætur! grátið ekki yfir mèr, heldur yfir sjálfum yður og yfir börnum yðar" og síðan talaði hann þau merkilegu spádómsorð um þá miklu eymd og neyð, sem lægi fyrir þjóðinni og borginni. Konurnar grètu yfir Jesú, og það var ekki furða, þó hjarta þeirra, sem er vant að vera hljúgara og viðkvæmara en karlmannanna hjörtu, kæmist við af þessari aumkunarverðu sjón, og tár þeirra voru nokkurs konar vitnisburður um Jesú sakleysi og um ranglæti dómenda hans. En þó það sè óyggjandi, að á meðal þessara kvenna hafi verið nokkrar, sem með tárum sínum og kveinstöfum lètu velvild og vináttu sína við frelsarann í ljósi, hafa þó vissulega margar grátið af náttúrlegri hluttekníngu og ósjálfráðum geðshræríngum, og þær mundu eins hafa tárast, þó þær ekki hefðu þekkt Jesú sakleysi. Látum oss því gæta þess, kærir bræður! að tárin eintóm eru ekki órækt merki upp á sanna iðrun, eða upp á lifandi trú og innilega elsku til frelsara vors. Það er vissulega skylda vor, að gráta með grátendum og taka hjartanlega hlutdeild í bágindum bræðra vorra; en eigi þessi meðaumkunarsemi að hafa nokkurt gildi í Guðs augum, verður hún að spretta af sannarlegri mannelsku, og oss má aldrei gleymast það, að tár meðaumkun-

arinnar geta ekki bætt upp tár iðrunarinnar, heldur eiga þau að fylgjast að. Þegar meðvitundin um vora syndasekt er vöknuð hjá oss, þá eru það ekki eintóm brjóstgæði, sem þrýsta oss til að tárast yfir Jesú pínu, heldur hitt, að hann varð að þola þessa kvöl og pínu vegna vorra synda. Þess vegna ríður oss svo mikið á, að læra að sjá og sannfærast um sambandið milli mannanna synda og frelsarans friðþægjandi pínu og dauða. Yfir honum þurfum vèr ekki að gráta, því hann er gegnum pínu og dauða inngenginn í sína himnesku dýrð. En yfir sjálfum oss ættum vèr að gráta, yfir eymd og spillíngu vorri, við íhugun þess, hve mikið það kostaði hinn hreina og heilaga að frelsa oss, og hve lítils vèr höfum metið þessa hans miklu náð. Já, vèr ættum að gráta við íhugun þess, hver hin eilífu kjör vor og barna vorra mundu verða, ef oss væri hegnt eins og vèr höfum til unnið, og ef vèr ekki yrðum hluttakandi í Krists heilaga rèttlæti. En þegar hinn heilagi verður að þola svo óvenjulega sára kvöl og pínu, hvernig mun þá fara fyrir hinum óguðlega, sem iðrunarlaust heldur áfram í syndum sínum og fyrirlítur ríkdóm Guð gæzku og langlundargeðs? Og fyrst Guð tekur svo hart á syndinni, að hann hlífir ekki sínum eingetnum syni, til þess að mennirnir verði frelsaðir, hvað mun hann þá gjöra við þá, sem samt sem áður þverskallast og ekki vilja verða frelsaðir? Ekkert sýnir eins vel og Jesú pína og dauði vor

vegna, hve hegníngarverð syndin er. Þegar vèr því grátum yfir sjálfum oss og börnum vorum, þá látum oss flýja til Jesú og leiða börn vor til hans, svo að hann geti frelsað oss frá vorum syndum; látum oss helga honum hjörtu vor í sannri og lifandi trú, svo að hrygð iðrunarinnar snúist í helgan fögnuð yfir honum og þeirri sáluhjálp, sem hann hefir oss afrekað. Ó, Drottinn, heilagi og rèttláti Guð! alstaðar sjáum vèr dóma þíns hegnanda rèttlætis og þann sannleika staðfestan, að syndin er lands og lýða tjón. Þegar þjóðirnar snúa sèr frá þèr, þá yfirgefa þær veg farsældarinnar, og þegar þær hafa fyllt mæli synda sinna, þá byrjar fyrir þær tími hörmúnganna, svo þær segja til fjallanna: „hrynið yfir oss", og til hálsanna: „hylið oss". Og þegar maðurinn yfirgefur þinn veg, Drottinn minn! og vill ekki þekkja sinn vitjunartíma, þá steypir hann sèr í eymd og glötun. Sæl er því hver sú þjóð og sæll er hver sá, sem stöðuglega heldur sèr til þín og framgengur í þínum ótta, því að í sameiníngunni við þig og elskunni til þín er öll sannarleg farsæld innifalin. Gef þú oss og börnum vorum þá náð, að vera þín trú og hlýðin börn, svo vèr og þau fáum að eignast það himneska ríki, sem þú hefir þínum börnum fyrirhugað. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

## 32. hugvekja.

„Ef menn fara svo með hið græna trèð, hvernig mun þá fara fyrir hinu visnaða"?

---

Í heilagri ritníngu er vant að líkja guðhræddum saman við græn og blómguð trè, sem bera ríkulegan ávöxt, en hinum óguðlegu við visin og ófrjófsöm trè. Þannig segir Davíð um hinn guðhrædda: „Hann er sem trè, gróðursett á vatnsbökkum, sem ber ávöxt á rèttum tíma, hvers blöð ekki visna; allt hvað hann gjörir það lukkast honum. Öðru vísi er þeim óguðlegu farið; þeir eru sem fis, hverju vindurinn feykir" (Sálm. 1., 3.—4.). Þessa sömu samlíkingu hefir og frelsari vor, þegar hann segir: „Þannig ber hvert gott trè góðan ávöxt, en slæmt trè slæman ávöxt. Gott trè getur ekki borið slæman ávöxt, ekki heldur slæmt trè góðan ávöxt" (Matth. 7., 17.—18.). Og sama er meiníngin í þeim orðum, sem hann talaði til kvenna þeirra, er fylgdu honum á krossgöngu hans til Golgata, og sem vèr nýlega heyrðum. Sjálfan sig kallar hann „hið græna trè" og það með rèttu, því að í hinu græna trè er lífsaflið í blóma sínum, og í Jesú Kristi bjó fyllíng hins guðlega lífsins, „fyllíng guðdómsins líkamlega"; hann var fullur náðar og sannleika, já, hann var vegurinn, sannleikurinn og lífið; en mann-

kynið var vegna spillíngar og synda sinna „visnað trè” og ávextir þess voru visin blöð á skrælnuðum greinum. Það var fjarlægt lífinu í Guði og í sínum dýpstu rótum gagntekið af hinum andlega dauða, og annað lá ekki fyrir því en að verða upphöggvið og á eldinn kastað. En Guð leit í náð og miskunsemi niður til vor syndugra manna, og hans eilífa gæzka sendi oss sinn eingetinn son, hið himneska lífsins trè, svo að hver sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Því segir og frelsari vor: „Eg er hinn sanni vínviður og faðir minn er vínyrkjumaðurinn; hverja þá grein á mèr, sem ekki ber ávöxt, afsníður hann, en hreinsar sèrhverja frjófsama, svo að hún beri meiri ávöxt. Verið mèr áfastir, svo að eg sè með yður; eins og viðargreinin ekki getur borið ávöxt af sjálfri sèr, nema hún sè föst á vínviðnum, þannig ekki heldur þèr, nema þèr sèuð mèr áfastir” (Jóh. 15., 1.—2., 4.). Vèr þekkjum víst allir þá merkilegu dæmisögu um fíkjutrèð, sem Jesús fram setti fyrir Gyðíngunum (Lúk. 13., 6.—9.), og sem sýnir oss, hvernig heilagur Guð fyrir bón og árnaðarorð frelsara vors dregur að upphöggva hin ávaxtarlausu trè úr sínum náðarakri, og gefur þeim enn þá nokkurn frest og tíma til að mega standa óupprætt, „ef vera kynni, að þau bæru ávöxt”. Og þegar vèr nú stíngum hendinni í vorn eigin barm, þegar vèr rannsökum vort umliðna líf og vort andlega ástand: æ, megum vèr þá

ekki með blygðun og beisku angri gjöra þá játníngu fyrir Guði, að vèr erum visin og ófrjófsöm trè, sem berum lítinn eða engan ávöxt til eilífs lífs? Snemma vorum vèr leiddir til frelsara vors, og af Guðs náð gróðursettir á honum fyrir skírnina og uppfræðíngu í hans sáluhjálplega lærdómi, og á úngu aldri hètum vèr Drottni því, að vera Jesú alla æfi áfastir og bera mikinn ávöxt. Alltaf hefir Guðs eilífa miskunsemi vitjað vor síðan með aðvörunum, bendíngum og áminníngum síns heilaga orðs, og með sinni föðurlegu handleiðslu leitazt við að glæða vort andlega líf, en verja oss syndinni og hinum andlega dauða. En hvern árangur hafa þessar Guðs náðarverkanir haft hjá oss? Hvaða ávexti höfum vèr borið? Snemma vorum vèr gróðursettir á frelsara vorum og áttum að vera honum áfastir í trú og elsku; en snemma tíngaðist illgresi syndarinnar í hjörtum vorum, svo að vort andlega samband við Guð og frelsarann losnaði meir og meir, og vèr urðum meir og meir áfastir heiminum og vorum holdlegu girndum; í stað þess að draga til vor himneskan lífsvökva úr Guðs heilaga orði, drógum vèr til vor vökva spillíngarinnar, sem hleypti banvænni ólgu í vort andlega líf, svo að hjörtu vor urðu köld og kærleikslaus, en fylltust eigingirni og veraldlegri áhyggju; og hvernig sem Guðs náð leitaðist við að uppræta illgresið úr sálum vorum og hlynna að voru andlega lífi, þá hafði það, því miður, lítinn árangur. Þó það

stundum liti svo út, eins og vèr ætluðum að bera einhvern góðan ávöxt, einhvern blómknapp kristilegra dygða, þá visnaði hann jafnskjótt aptur, af því spillíngin var orðin svo mögnuð í vorum hjartarótum; krapturinn var orðinn svo veikur til að standast freistíngarnar, vilinn til hins góða svo dáðlaus, tilhneigíngarnar svo óstjórnlegar, vaninn svo ríkur, hugarfarið svo veraldlegt og Guði fráhverft, hvatirnar til vorra góðverka svo óhreinar, hjartalagið svo hvikult og óstöðugt. Æ! megum vèr ekki játa, að svona hefir það gengið fyrir oss allt til þessa, og að vèr enn í dag erum visnuð og ófrjófsöm trè á Guðs náðarakri? Og enn stöndum vèr óupphöggnir. En hve lengi munum vèr þannig fá að standa? Guðs heilaga orð segir oss, að hvert það trè, sem ekki ber ávöxt, muni verða upphöggvið og á eldinn kastað; og þegar eigandi víngarðsins í dæmisögu frelsara vors bauð að höggva upp hið ávaxtarlausa trè, svo það spillti ekki lengur jarðveginum, þá bað víngarðsmaðurinn um, að það mætti að eins standa lítinn tíma, til að reyna, hvort það gæti ekki borið ávöxt; og vitum vèr, kærir bræður! nema þessi litli tími sè nú þegar liðinn og að öxin sè nú þegar sett til rótar trjánna! Ó, vor himneski frelsari! bið þú fyrir oss; bið þú föðurinn um nýja náð og miskunsemi fyrir oss auma syndara! bið þú hann að leyfa oss enn að standa litla stund óupprættir, ef ske mætti, að þinn heilagi andi gæti bætt

hinn harða og hrjóstruga jarðveg hjartna vorra, svo vèr snèrum oss til þín og yrðum á ný gróðursettir á þèr og gætum borið ávöxt til eilífs lífs. Æ, almáttugi, gæzkuríki Guð! fyrir þèr er enginn hlutur ómáttugur; þú ert sá, sem ávöxtinn gefur, bæði í náttúrunnar og í náðarinnar ríki; gef þú það af náð þinni, að vèr getum borið ávöxt iðrunarinnar; byrja þú og fullkomna þú í oss hið góða verkið, í Jesú nafni! Amen.

---

## 33. hugvekja.

Með honum vóru færðir til lífláts tveir illræðismenn. Þegar þeir nú komu til þess staðar, er heitir Golgata, það þýðir höfuðskeljastaður, buðu þeir honum súrt vín, beiskju borið; en er hann hafði það smakkað, vildi hann ekki drekka. Þeir krossfestu hann á þessum stað Golgata, og þá tvo spillvirkja með honum, annan til hægri og hinn til vinstri handar, en Jesúm í miðið. Rættist svo það, er ritníngin segir; „með illvirkjum er hann talinn".

---

Rètt áður en Jesús gekk út í pínuna sagði hann við lærisveina sína: „nú hlýtur það að

koma fram á mèr sem skrifað er: „meðal illvirkja er hann talinn', og það, sem um mig er spáð, mun nú rætast" (Lúk. 22., 37.). Og vèr heyrum, kærir bræður! hvernig það rættist; hann var nú krossfestur og ásamt honum tveir illræðismenn. Hann, sem var heilagur og án syndar, er nú talinn meðal illvirkja; hann, sem „hefir oss eptirdæmi eptirlátið, svo að vèr skyldum feta í hans fótspor" (1. Pèt. 2., 21.); hann, sem „af Guði var smurður með heilögum anda og krapti, sem gekk í kríng, gjörði gott og græddi alla, sem af djöflinum voru undirokaðir" (Postg. 10., 38.); hann, sem hafði orð hins eilífa lífsins og hvers matur og drykkur það var að gjöra föðursins vilja; hann, sem Guð af einskærum kærleika sendi í heiminn oss syndugum mönnum til frelsis og sáluhjálpar: hann er nú negldur á krossinn eins og illræðismaður og með honum tveir óbótamenn. Ó! hèr birtist spillíng veraldarinnar á sínu efsta stigi og í sinni óttalegustu mynd, þegar hún útskúfaði frelsara sínum og líflèt sinn heilaga lífgjafa. En þó er spillíng veraldarinnar alltaf hin sama í eðli sínu og sjálfri sèr lík. Þegar vèr rennum augum vorum út yfir veraldarsöguna, þá sjáum vèr svo mörg dæmi upp á svik og pretti og hvernig menn hafa apturlokað hjörtum sínum fyrir sannleikans röddu, svo mörg dæmi upp á öfund, hatur og hræsni, upp á rangsleitni, harðúð og miskunarleysi, og vèr verðum þess varir, að þeir eru næsta margir, sem

hvorki eru heitir nè kaldir, heldur hálfvolgir og hirðulausir um allt, sem heyrir guðsríki til. En hvað stoða oss slíkar almennar hugleiðíngar? Mun það vera nóg, að vèr virðum fyrir oss spillíngu veraldarinnar yfir höfuð og þökkum Guði, eins og faríseinn, fyrir það að vèr sèum ekki neinir illræðismenn? Nei! Verið getur, að vèr höfum ekki verið „taldir með illvirkjum"; en munum vèr fyrir það vera sýknir saka í augum hins heilaga og rèttláta allsherjardómara? Munu ekki aðrar syndir vera til en rán og manndráp og guðlaus þrjózka? Mun ekki syndin einnig vera innifalin í holdlegum girndum og veraldlegu hugarfari? Og þegar vèr virðum fyrir oss þá ókristilegu stefnu, sem líferni svo margra manna hefir, verðum vèr þá ekki að kalla hana syndsamlega? Úlfúð og ósamlyndi í heimilislífinu, ræktarleysi hjóna, foreldra og barna, ónærgætni húsbændanna, ótrúmennska hjúanna, svall og eyðslusemi, ágirnd og undirferli, rógur, lygar og lastmælgi, saurugt líferni og fíflslegt hjál: allt þetta og ótal fleira er talandi vottur um synd og spillíngu vora. Drottinn vor og frelsari lèt telja sig með illvirkjum, svo að hann gæti sannfært heiminn um syndina, rèttlætið og dóminn, og hans heilagi sannleiksandi talar til vor um vora syndasekt, um hið eilífa rèttlæti, sem þekkir vort hugarfar og alla vora breytni, og um þann dóm, sem á síðan mun verða felldur yfir oss öllum. Drottinn vor og frelsari var talinn

með illvirkjum, til þess að vèr gætum komizt í tölu guðsbarna og orðið erfíngjar eilífs lífs, og hann var krossfestur, til þess að vèr skyldum krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigíngum. Ef vèr, kristnir bræður! ástundum að verða guðsbörn, ef vèr með angri finnum til synda vorra og í allri vorri breytni höfum oss sífelt fyrir augum Guðs heilaga rèttlæti og þann dóm, sem hann á síðan mun uppkveða yfir hverjum einum: þá þurfum vèr ekki að óttast illgjarna og rangsleitna dóma heimsins barna, nè þó þau teli oss með illvirkjum, af því þau kalla friðsemina þrekleysi, bindindið heimsku, mannelskuna hègómadýrð, og guðhræðsluna hræsni; og vèr getum þá tekið oss þessi orð postulans í munn: „Mèr er það fyrir minnstu, hvað mennirnir dæma um mig; Drottinn er sá, sem dæmir mig" (1. Kór. 4., 4.). Já, Drottinn! hvernig svo sem heimsins börn dæma um þín börn, þá eru þó þeir, sem þjóna þèr og elska þig, langtum sælli, og það þegar í þessu lífi, en hinir, sem þjóna heiminum og syndinni. Guðhræddir hafa þá huggun, að hafa þig ætíð þjá sèr, og í þeirra hjörtu hellir þú straumum þinnar náðar. Að sönnu kunna þeir að skelfast af dómum þíns rèttlætis, en þú ert þeim þá nálægur til að veita þeim aptur frið og hugarrósemi. Að sönnu verða þeir einatt fyrir ofsóknum, álasi og fyrirlitníngu heimsins, og þurfa að reyna margvíslegt mótlæti í þessu lífi; en krossins vegur er fyrir þá, eins og

krossganga frelsarans, vegurinn til þinnar himnesku dýrðar, og hvílíka ótæmandi huggunar uppsprettu finna þeir ekki í þessari tilhugsun? Þeir vita, að þessi útlegðartími er liðinn innan lítillar stundar, og að eilífur friður og sæla bíður þeirra hjá þèr; þeir vita, að þjáníngar þessa lífs eru skammvinnar og lèttvægar í samanburði við þá óumræðilegu himnesku dýrð, sem þú hefir þeim fyrirhugað. Ó, vor guðdómlegi frelsari! sem krossfestur varst vegna vorra synda, hjálpa þú oss til að krossfesta holdið með þess girndum og tilhneigíngum; láttu vor óstöðugu hjörtu vera eins og negld föst við þig, svo vèr getum staðið stöðugir í þinni elsku, og hvort heldur meðlætið byrlar oss sætan svaladrykk, eða oss er borið hið súra og beiska vín mótlætisins, þá láttu oss um fram allt þyrsta eptir þínu rèttlæti, svo það verði í oss að "lind uppsprettandi til eilífs lífs" og vèr megum verða í tölu þinna útvöldu! Amen.

---

# 34. hugvekja.

Jesús sagði: „faðir! fyrirgef þeim það, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra".

---

Nú er þá búið að krossfesta frelsara vorn og fremja hið mikla ódáðaverk. En hans fyrsta orð á krossinum er fyrirgefníngarbón fyrir óvinum sínum, og er þetta nýr vottur bæði um heilagleik hans og um hans óendanlegu elsku, „sem yfirgengur allan skilníng". Það er óbrigðulasta einkenni helgunarinnar, að elska þá sem oss hata, biðja fyrir þeim sem oss vilja gjöra skaða, og gjöra þeim gott sem ofsækja oss. Jesú heilagleiki og mannelska birtist nú í sínu fegursta ljósi. Hann deyr fyrir þá, sem krossfestu hann, og deyjandi biður hann sinn himneska föður að fyrirgefa þeim. Hann brigzlar þeim ekki um vanþakklæti þeirra, hann hótar þeim ekki hefnd og hegníngu, nè kveinar undan þeirra grimdarfullu harðúð; nei, heldur biður hann fyrir þeim og hugsar ekki um annað en þeirra eilífu sáluhjálp; það er eins og hann gleymi öllu öðru. Þeir formæla honum, en hann blessar þá; þeir heimta, að hann sè líflátinn, en hann biður þeim vægðar og miskunar; þeir vilja að hans blóð komi yfir sig og yfir börn sín, en hann vill ekki að þessi synd verði þeim tilreiknuð. „Faðir!" segir hann, „fyrirgef þeim, því þeir

vita ekki hvað þeir gjöra". Það er að skilja: „Minnstu þess, himneski faðir! að það blóð hins nýja sáttmála, sem þeir nú úthella, kemur þeim í tölu þinna barna, að sú fórn, sem eg nú færi þèr, gjörir þá að erfíngjum eilífs lífs. Þeir vita ekki, að það ert þú, sem sendir mig í heiminn; en þú, faðir! sem veizt, að minn dauði verður heiminum til friðar og frelsis og til að útbreiða þitt ríki hèr á jörðu, fyrirgef þessum blinduðu börnum þínum þessa þeirra synd, svo þeir einnig verði aðnjótandi þeirrar blessunar, sem af dauða mínum leiðir. Þeir vita ekki heldur, að dauðinn leiðir mig aptur í þá dýrð, sem eg hafði hjá þèr fyrir öndverðu, og að þeir með því að útskúfa mèr útbreiða mitt nafn meðal allra þjóða. Fyrirgef þessum blindu syndurum, sem óafvitandi verða til þess að framkvæma þína eilífu ráðsályktun. Þeir vita ekki, að þeir með því að krossfesta mig fylla mæli synda sinna, að tími hörmúnganna vofir nú yfir höfði þeirra, að borg þeirra innan skamms verður eyðilögð, og að þeir sjálfir munu tvístrast og fara landflótta víðs vegar út um heiminn. En þú, heilagi faðir! sem hefir fyrirhugað þeim þessa hörmúnga tíma, láttu þá einúngis ná til þessa lífs; vernda þú leifar Ísraels og útskúfa ekki æfinlega þessum bræðrum mínum, heldur safna þú þeim saman í þinni himnesku Jerúsalem, svo þar að lokunum verði ein hjörð og einn hirðir". „Faðir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra". Ó, hver getur til fulls

útlistað þessi orð frelsara vors, eða kannað það hið óendanlega djúp guðlegrar elsku, sem í þeim er innifalið! „Faðir"! segir frelsari vor, og ítrekar þannig aptur opinberlega þá játníngu, sem hann áður hafði gjört, að hann væri Guðsson, og með þessu föðurnafni lèt hann líka í ljósi sína óumbreytanlegu elsku til Guðs, sína ótakmörkuðu hlýðni við hann og sitt óbifanlega traust á honum. Faðir! „fyrirgef"! segir hann, og sýnir með því yfirhöfuð, til hvers pína hans og dauði miðaði, sem sè, að afreka oss syndanna fyrirgefníng. Öll hans hlýðni, öll hans pína og dauði var ekki annað en bæn um fyrirgefníng synda vorra, og fyrir Krists friðþægíngar sakir fá nú allir fyrirgefníng, sem leita hennar í sannri iðrun og lifandi trú. „Fyrirgef þeim," segir Drottinn vor, og meinar fyrst og fremst til þeirra, sem negldu hann á krossinn, og svo til allra óvina sinna og einnig til vor, sem af náttúrunni erum reiðinnar börn". Og hann bætir við þessum orðum: „því þeir vita ekki hvað þeir gjöra". Hefðu þeir þekkt frelsarann eins vel og vèr, kristnir menn, þá hefði synd þeirra verið óttaleg; en gætum þess vel, að fávizka og vanþekkíng getur ekki afsakað oss, sem erum uppfræddir í Jesú Krists heilaga lærdómi og höfum haft færi á að þekkja Guðs vilja og hans ráð til vorrar sáluhjálpar. En vor mildiríki frelsari færir til það eina, sem gat linað sekt Gyðínganna og gjört þá aðnjótandi Guðs miskunar,

ef þeir hefðu viljað. Jesú fyrirbón var ekki heldur til ónýtis nè árangurslaus, því Guð skaut hegníngardóminum yfir Ísrael enn á frest í 40 ár, og á þessu tímabili hafa eflaust margir iðrazt og snúið sèr til Guðs, því þegar við Jesú dauða tóku margir sinnaskipti. Og hve mörgum hefir ekki Jesú fyrirbón síðan orðið til blessunar og heilla. „Faðir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra". Þannig baðst þú einnig fyrir mèr, Drottinn minn og frelsari! og veittir mèr með því djörfúng til að lypta huga mínum upp til himins og ákalla Guðs eilífu föðurgæzku. Æ, himneski faðir! fyrirgef mèr í Jesú nafni syndir mínar og ávirðíngar, og láttu mèr aldrei framar gleymast, hvað eg á að gjöra og hvernig eg á að breyta, til að geta eignast eilíft líf og þá sáluhjálp, sem þinn son hefir mèr afrekað. En þegar eg nú stend undir Jesú krossi og mæni þaðan trúaraugum mínum upp í hæðirnar til þín, himneski faðir! og bið þig að auðsýna mèr náð og miskunsemi, sökum þíns sonar friðþægjandi kærleika, hvernig gæti þá nokkur óvild til meðbræðra minna, nokkur heiptar eða hefndar tilfinníng lengur búið í brjósti mínu, hvernig ætti eg að geta vænt mèr náðar og miskunar, nema eg einnig fyrirgefi af hjarta mínum skuldunautum? Æ, skapa þú, Drottinn! í mèr hreint hjarta og út heltu í það þinni elsku, svo eg geti elskað þig af öllu hjarta og náúngann eins og sjálfan mig; án þín er hjarta mitt kalt og kærleikslaust: en

fyrir þig megna eg alla hluti, því þú ert almáttugur og eilífur kærleikur. Ó, Jesú! bið þú föðurinn fyrir mèr! Amen.

---

# 35. hugvekja.

En Pílatus skrifaði líka yfirskript og festi hana á krossinn yfir Jesú höfði. Hún skýrði frá dauðasök hans og var rituð á hebresku, grísku og latínu, svo hljóðandi: „þessi er Jesús af Nazaret, konúngur Gyðínganna". Yfirskript þessa lásu margir Gyðíngar, því þessi staður var nærri borginni. Þá sögðu æðstu prestar Gyðínga við Pílatus: „Skrifa þú ekki konúngur Gyðínganna, heldur að hann hafi sagt: ‚eg er konúngur Gyðínga'". Pílatus svaraði: „það sem eg hefi skrifað, það hefi eg skrifað".

---

Það var siður hjá Rómverjum, að auglýsa þeim, sem viðstaddir voru, dauðasök óbótamanna, áður en þeir vóru líflátnir. Annaðhvort lètu þeir lögregluþjónana lesa upp dauðasökina í heyranda hljóði, eða þeir skrifuðu hana með svörtu letri á hvítt trèspjald, sem

var hengt upp á aftökustaðnum og neglt yfir höfði þess, sem krossfestur var. Gyðíngunum til óvirðíngar, ályktaði Pílatus, að yfirskriptin yfir Jesú skyldi hljóða þannig: „Jesús af Nazaret, konúngur Gyðínganna". Þetta líkaði þeim mjög illa og beiddu hann að breyta yfirskriptinni, en hann var ófáanlegur til þess, því að honum þókti vænt um, að geta gjört þeim þetta til smánar, og vildi þannig hefna sín fyrir það, sem hann áður hafði orðið að láta undan þeim í því að dæma Jesúm til dauða. En það er bersýnilegt, að guðleg forsjón var hèr í verki með og leyfði ekki, að yfirskriptinni væri breytt, og móti vilja sínum og vitund varð Pílatus hèr að bera vitni um sannleikann. Því hvað sýndi þessi yfirskript annað en Jesú sakleysi og hans guðlegu tign? Hún sýnir Jesú sakleysi, af því Pílatus gat ekkert gefið honum að sök annað en það, að hann væri konúngur, og Jesú guðlegu tign, með því nafnið Jesús gefur til kynna, að hann er frelsari hinna týndu og glötuðu, og konúngur Gyðínga bendir til þess, að hann var sá fyrirheitni Messías. Þessi yfirskript minnir oss á hans himneska konúngdóm, að hann er konúngur, fæddur af föðurnum frá eilífð, og kominn í þenna heim til að stofna guðsríki á jörðinni, sannleikans og náðarinnar ríki; að hann eins var konúngur þar sem hann hèkk á krossinum í sinni dýpstu niðurlægíngu, og að hann þá átti ráð á himnaríki og eilífri sáluhjálp.

þessi yfirskript var því kjarnafullt ágrip af öllum kristindómsins höfuðlærdómum, og hún var rituð í þremur túngumálum, til að sýna hina alþjóðlegu þýðíngu kristindómsins og að Krists krossdauði leiddi blessun af sèr fyrir allar þjóðir. Þessi yfirskript talar því einnig til vor, kristnir menn! og tekur það fram, að Jesús er bæði frelsari vor og konúngur, því hann er hinn sami í gær og í dag og að eilífu. Gyðíngarnir beiddu Pílatus að breyta yfirskriptinni yfir Jesú krossi, af því þeir vildu ekki kannast við, að hann væri frelsari og konúngur þeirra. Á vorum dögum gengur veröldin ekki þannig í berhögg við Jesúm, að hún neyti því opinberlega, að hann sè frelsari og konúngur; en hún lætur sig þetta litlu skipta og heldur sinnar leiðar áfram, eins og þessi sannleiki kæmi henni ekki við. Hálfvelgja og skeytíngarleysi um vor sáluhjálparefni er höfuðeinkenni þessara tíma. Veröldin tekur ekki hart á því, þó menn kalli sig kristna og fylgi þeim útvortis siðum, sem viðteknir eru í kristninni; en gjörir þú þig, kristinn maður! öðrum frásneiddan í því, að þú vilt, að boði postulans, vera brennandi í andanum, og vilir þú opinberlega játa þína lifandi trú á Jesúm Krist, sem frelsara þinn og himneskan konúng, þá máttu eiga von á fyrirlitníngu og spèhlátrum heimsins barna. Og þó heimtar Kristur þetta af þèr; hann heimtar, að þú að öllu leyti skulir

heyra sèr til, ef þú vilt verða hans endurlausnar aðnjótandi og þegn í hans ríki, því að hann hefir sjálfur sagt: „hver sem ekki vill kannast við mig og mína kenníngu fyrir þessari spilltu og syndugu kynslóð, við hann mun mannsins sonur ekki heldur kannast, þegar hann kemur með heilögum englum í dýrð föður síns" (Mark. 8., 38.). Látum oss því í öllu voru líferni meðkenna Jesúm sem vorn frelsara og vorn konúng, og aldrei skammast vor fyrir hans evangelium, sem er kraptur Guðs til sáluhjálpar sèrhverjum sem trúir. Æ! hvað stoðaði það oss, þó vèr ynnum allan heiminn, ef vèr liðum tjón á sálu vorri? Hvað stoðaði það oss, þó heimurinn hefði oss í metum og veitti oss öll sín gæði, ef dómari lifenda og dauðra ekki vildi kannast við oss? Hvað stoðaði oss að hafa frið við heiminn, ef vèr værum í óvináttu við Guð og oss vantaði hans frið í vor hjörtu; ef eldur hans ónáðar brynni í sálum vorum og vèr hefðum ofurselt þær höfðíngja þessa heims? Sæll er því sá, sem í öllu sínu líferni ljóst og leynt sýnir það, að hann elskar Jesúm eins og frelsara sinn og endurlausnara, og kannast við hans himnesku konúngstign með því kostgæfilega að hlýða hans boðum.

Guð gæfi, að þá yfirskript mætti setja yfir fósturjörðu vorri: „hèr er Jesús frelsari og konúngur"! Guð gæfi, að þá yfirskript mætti setja yfir hverjar heimilisdýr meðal vor: „Á

þessu heimili er Jesús frelsari og konúngur"; hèr er hans orð haft iðulega um hönd, og í þessum húsum býr hans blessaði friður". En því miður mun þessu víða mega snúa við og segja: „Hèr er Jesús hvorki frelsari nè konúngur, heldur búa hèr óhreinir andar, ófriður og áhyggja, svall og saurlifnaður, hálfvelgja og hirðuleysi í öllu því sem snertir frelsi sálnanna og eilíft líf". Guð gæfi, að þá grafskript mætti með sanni setja yfir oss: „Hèr hvílir frelsíngi Jesú Krists og hans trúlyndi þegn". Guð gæfi, að þessi orð ekki ættu heima hjá neinum: „Hann kallaði sig kristinn og sagðist vera Jesú frelsíngi og þegn hans ríkis, en var það ekki". — Þitt er að dæma, Drottinn minn! Dæm þú oss, ekki eptir vorum tilverknaði, heldur eptir þinni mikilli miskunsemi. Frelsa þú oss frá öllu illu, því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. Bænheyr oss í nafni þíns sonar frelsara vors Jesú Krists, sem með þèr lifir og ríkir um aldir alda! Amen.

---

# 36. hugvekja.

En er stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir klæði hans og skiptu í fjóra parta, hverjum stríðsmanni part, líka kyrtillinn; en kyrtillinn var ekki saumaður, heldur frá ofanverðu niður úr prjónaður. Þeir sögðu því hver við annan: „Skerum hann ekki í sundur, hlutumst heldur um, hver hann skal hafa", svo að sú ritníng rættist, sem segir: „þeir skiptu með sèr klæðum mínum og köstuðu hlutkesti um minn kyrtil". Þetta gjörðu stríðsmennirnir; en fólkið stóð og horfði á.

---

Þegar vèr nú, kristnir bræður! í anda nálgumst Jesú kross, getum vèr þá komizt hjá því, að hrærast og vikna af þeirri sjón, sem þar ber fyrir augu vor. Jesús, sem gekk í kríng og gjörði öllum gott, hinn eingetni sonur föðursins, sem hefir þegið allt vald á himni og jörðu og sem klæðir allar lifandi skepnur, er nú flettur klæðum af miskunarlausum hermönnum og hangir blóðugur, ber og nakinn á krossins trè. Engin vinarhönd hjúkrar vorum deyjandi frelsara nè þerrar dauðasveitann af ásjónu hans; enginn mælir honum eitt líknaryrði, heldur dynja yfir hann

hæðandi og særandi brigzlyrði úr öllum áttum; en með heilagri þolinmæði og himneskum kærleika umber hann þetta allt, til þess að geta verið einka-huggun og athvarf allra deyjandi syndara. Sjáðu hèr, sála min! ímynd syndanektar þinnar. Eins og lausnari þinn varð að hanga nakinn á krossins trè, eins ert þú að náttúrunni til ber og nakin og náðar þurfi, og þig vantar þá hrósun og það rèttlæti, sem hefir gildi í Guðs augum. Syndin hefir svipt þig sakleysi þínu eins og Adam, og það er von til, að þú verðir hrædd eins og hann, þegar þú heyrir Guðs rödd í lögmálinu. En í stað þess að hann faldi sína líkamlegu nekt með fíkjuviðar blöðum og skýldi sèr milli trjánna í aldingarðinum, þá flý þú, sála mín! að Jesú krossi og feldu þig undir þessu lífsins trè, og bið þú frelsara þinn að skýla þinni andlegu nekt með skrúða síns heilaga rèttlætis og íklæða þig hertygjum ljóssins, svo þú þurfir ekki að óttast Guðs hegnanda rèttlæti, heldur getir elskað hann af öllu hjarta og þjónað honum í anda og sannleika. Hèr sèr þú enn fremur, kristinn maður! afmálaða fátækt frelsara þíns af þessum tímanlegu gæðum; hann lèt ekki aðra veraldar auðlegð eptir sig en þau föt, sem hann nú var flettur; og hvílík huggun er þetta ekki fyrir þig ef þú átt við fátækt og örbyrgð að búa. Þú sèr af þessu, að það er engin minkun að fátæktinni og að þú ert ekki olbogabarn Guðs, þó hann hafi synjað þèr um

þessi tímanlegu gæði. Þú getur verið ríkari mitt í skorti þínum en hinir mestu auðmenn þessarar veraldar, ef þú að boði frelsara þíns safnar þèr þeim andlegu og himnesku fjársjóðum, sem hvorki mölur nè ryð getur grandað, nè þjófar fá eptir grafizt; og þessi andlegu auðæfi skilja ekki við þig í dauðanum, heldur fylgja þèr út yfir gröf og dauða inn á land eilífðarinnar. Gættu þess jafnan, sem Páll postuli segir, að „guðhræðslan er mikill ávinníngur, samfara nægjusemi; og að fyrst vèr höfum ekkert flutt inn í heiminn, þá er það bert, að vèr ekkert munum þaðan geta burtu haft" (1. Tím. 6., 6.—7.). Og þèr, sem Drottinn hefir meira lánað af gæðum þessa heims, gleymið ekki að verja þeim samkvæmt gjafarans tilgangi; gleymið ekki að gjöra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast Guði; gleymið ekki að bæta úr neyð yðar bágstöddu bræðra og gjöra það með mannelskufullu hugarfari, og minnist þess, að það sem þèr gjörið einum af frelsarans minnstu bræðrum, það álítur hann sèr gjört. Margir hafa allan hugann á því, að draga saman fyrir konu og börn og nánústu náúnga, og er slíkur tilgangur ekki víta verður í sjálfum sèr, þegar menn vinna í ótta Drottins og á leyfilegan hátt og drýgja efni sín með framsýni, dugnaði og sparsemi; en það verða menn að varast, að láta þetta kæla hjá sèr mannelsku og miskunsemi við nauðstadda, eða vekja hjá sèr ágirnd og ásælni.

Ekki gat klæðnaður frelsara vors hlotnazt móður hans, heldur framandi hermönnum, og þannig er ekki ætíð víst, að arfurinn lendi hjá þeim, er menn helzt óska; en eins og Drottinn hafði fyrirhugað móður sinni aðra betri arfleifð, eins er hann enn nógu ríkur að ala önn fyrir börnum vorum, þó vèr ekki látum auð fjár eptir oss. Auðurinn blessast líka misjafnt og verður stundum tilefni til syndar og óvildar milli systkina og náúnga. Eða sýnir ekki sorgleg reynsla, hvernig arfurinn stundum vekur ásælni, ófrið og ósamlyndi milli þeirra, sem ættu að unnast hugástum og sem ættu að vilja gjöra hver öðrum allt gott? Og ferst mörgum kristnum mönnum miður í þessu efni en þeim hinum heiðnu hermönnum, sem krossfestu frelsara vorn, því ekki er þess getið, að skipti á klæðum hans hafi orðið þrætuefni milli þeirra. Sú bezta auðlegð, sem vèr getum eptir skilið börnum vorum, er gott og kristilegt uppeldi, ráðvendni og guðsótti, og það er heilög skylda allra foreldra og allra, sem ganga börnum í foreldra stað, að leitast af alefli við að auðga þau að kristilegum dygðum. Auk þess sem guðhræðslan er hinn bezti arfur fyrir börnin sjálf og gjörir þau sannfarsæl um tíma og eilífð, þá gjörir hún þau einnig elskurík og þakklát við foreldra sína, þar sem hin veraldlega auðlegðin einatt vekur syndsamlegt vanþakklæti í brjósti þeirra, svo þau heimta allt af foreldrunum með sjálfskyldu, og geta

varla beðið eptir því, að þeir gefi upp andann, til þess að ná í fjármuni þeirra, rètt eins og hinir heiðnu hermenn, sem skiptu með sèr fötum frelsarans áður en hann var dáinn. Látum oss þá, kærir bræður! nægja Drottins náð; hans náð er óþrjótandi uppspretta himneskra og eilífra gæða og hún gjörir oss og börn vor að erfíngjum eilífs lífs. Ó, Guð! gjör þú oss alla að þínum börnum og vertu oss náðugur og miskunsamur í Jesú nafni. Amen.

---

# 37. hugvekja.

En hjá krossinum stóð Jesú móðir og móðursystir hans María, kona Kleófasar, og María frá Magdölum. Þegar Jesús sá nú móður sína og þann lærisvein, sem hann elskaði, standandi þar hjá, sagði hann til móður sinnar: „Kona! sjá, þar er þinn sonur"! Síðan sagði hann til lærisveinsins: „sjá! þar er þín móðir"! Og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana að sèr.

Jesús elskaði sína allt til enda; mitt í sinni sáru kvöl og pínu gleymir hann ekki neinum ástvini sínum og því síður sinni ástkæru móður. Frelsaranum varð nú litið á móður sína, þar sem hún með harmþrúngnu hjarta stóð undir krossi hans ásamt systur sinni, Maríu magdalenu og Jóhannesi. Móðurástin hafði þrýst henni til að fylgja syni sínum til Golgata, þessa hryllilega aftökustaðar, og vèr getum getið því nærri, hvað hún hefir hlotið að reyna í sínu viðkvæma móðurhjarta, af því að vera sjónar- og heyrnarvottur að Jesú kvölum og pínu, að heyra öll þau háðúngarorð, sem yfir hann dundu, og sjá hans blóðuga sundurflakandi líkama, hangandi á krossinum, án þess að mega nálgast hann, tala við hann eða leitast við að lina kvöl hans með hjúkrandi hendi. Æ, nú kom það fram, sem Símon hafði sagt við hana: „sverð mun þína eigin sál í gegnum smjúga" (Lúk. 2., 35.). Sèrhvert smánaryrði, sem til hans var talað, sèrhvert sár á hans blessaða líkama, sèrhver blóðdropi, sem dundi úr benjum hans, vóru allt beittir og sárir sverðsoddar, er særðu og nístu hjarta hennar. Og mun það ekki einnig hafa hlotið að auka pínu vors guðdómlega frelsara, að horfa á sorg sinnar harmþrúngnu móður? Hann sèr þá kvöl, sem sundur slítur hjarta hennar, þá angist, sem hún er í stödd, og það munaðarlausa eymdarástand, sem bíður hennar. En að hinu leytinu hefir það þó verið huggunar-

full sjón fyrir hann mitt í hörmúngum hans, að sjá þessa hreinu og brennandi móðurást, að sjá, hvernig elskan er sterkari en dauðinn. En hvað er þó jafnvel sú heitasta elska syndugra og dauðlegra manna í samanburði við Jesú himneska kærleika? Allt hans líf, öll hans pína og dauði var eintómur kærleikur, einskær náð og óendanleg miskunsemi. Mitt í krossins kvalafulla dauða heyrum vèr orð kærleikans og huggunarinnar streyma út frá hjarta hans, út frá þessari himnesku elskunnar fyllíngu, sem nær til allra, óvinanna og ástvinanna, og umfaðmar bæði himin og jörð; og vèr höfum heyrt, hve kærleiksfulla ráðstöfun hann gjörði fyrir sinni sorgbitnu móður, og hvernig hann fól hana umsjón síns ástkæra lærisveins á hendur, „og frá þeirri stundu tók lærisveinninn hana að sèr". Guð gæfi, að allur fèlagskapur meðal vor kristinna manna væri gjörður undir Jesú krossi, að sèrhver samníngur vor væri gjörður í hans anda: æ! þá mundi syndsamleg eigingirni síður lýsa sèr í viðskiptum vorum, þá mundu góðverk vor spretta af hreinni hvötum, af elsku til Guðs og manna. Guð gæfi, að sèrhver munaðarlaus ekkja mætti finna mannelskufulla hluttekníngu samkristinna bræðra, og að öll munaðarlaus börn mættu finna meðaumkunarsamt móðurhjarta! Hve huggunarfull er ekki Jesú umhyggja fyrir móður sinni fyrir oss, kristnir bræður! þareð vèr vitum, að hann elur sömu önn fyrir öllum ástvinum sínum

og skoðar þá eins og mæður, systur og bræður. Ef vèr trúlega fylgjum honum, aðhyllumst hann og elskum, þá megum vèr trúa því og treysta, að hann lítur til vor í náð og miskunsemi, að hann hefir fyrirhugað oss einhverja hjálp í þrautunum, einhverja huggun í hörmum vorum. Já, hversu báglega sem áhorfist fyrir oss, þó vèr stöndum einmana og yfirgefnir í veröldinni, þó vèr höfum misst þá, sem voru stytta vor og stoð í lífinu, vort einka skjól og athvarf á jörðunni, þá erum vèr þó ekki yfirgefnir af frelsara vorum; og þessi vor himneski almáttugi ástvinur fylgir oss með sínu nærgætna föðurauga, og þó móðirinn gleymdi barni sínu, þá gleymir hann engum, sem elskar hann og á hann vonar. Hann þekkir alla sína, gætir þeirra og verndar þá, og þegar neyðin er stærst, þá er hans hjálp jafnan næst, því hann leggur engum þýngri byrði á herðar, en hann sèr hverjum einum fært að bera. Jesú breytni við móður sína stráir helgandi geislum á samband foreldra og barna, með því hún sýnir oss, hvernig börnin eiga að elska foreldra sína og veita þeim alla þá hjúkrun og umönnun, sem í þeirra valdi stendur, og af Jesú móður geta foreldrarnir sèð, hve viðkvæma hluttekníngu þeir eiga að taka í kjörum barna sinna. Ó! að samband og sambúð foreldra og barna hjá oss væri eins og það á að vera, væri lagað eptir Jesú heilaga dæmi og í hans

anda, þá mundi húsfèlag og heimilislíf vort verða farsælla og Guði þóknanlegra en það víða er; þá mundi skyldurækt og guðsótti ekki einúngis hafa blessunarfull áhrif á sambandið milli þeirra, sem náttúran hefir tengt með ósjálfráðu ástarbandi, heldur einnig lýsa sèr í allri sambúð vorri og viðskiptum vorum við vora samkristnu bræður.

Ó, Jesú! sendu þinn heilaga anda í vor hjörtu, svo vèr verðum skylduræknir og mannelskufullir, svo vèr treystum þèr og vonum á þig, hvað sem oss mætir í þessu lífi; æ! „tak þú oss að þèr", mildiríki frelsari! ekki einúngis hèr í tímanum, heldur um tíma og eilífð! Amen.

---

# 38. hugvekja.

Og þeir, er framhjá gengu, hæddu hann, skóku höfuð sín og sögðu: „Svei! þú, sem ætlaðir að niðurbrjóta musterið og byggja það upp aptur innan þriggja daga, hjálpa þú nú sjálfum þèr; ef þú ert Guðssonur, þá stíg niður af krossinum". Líka hæddu hann hinir æðstu prestar, ásamt öldúngunum og hinum skriptlærðu, og sögðu: „Öðrum gat hann

hjálpað, en sjálfum sèr getur hann ekki bjargað. Sè hann Kristur og konúngur Ísraels, þá stigi hann niður af krossinum, þá viljum vèr trúa honum; hjálpi hann nú sjálfum sèr, ef hann er Kristur, hinn útvaldi Guðs; hann treysti Guði, hjálpi hann honum nú, ef hann hefir mætur á honum, því hann kvaðst vera Guðs sonur". Hann hæddu og stríðsmennirnir, gengu til hans og færðu honum edik, og sögðu: „Ef þú ert konúngur Gyðínga, þá hjálpa þèr sjálfum".

---

Þegar djöfullinn freistaði frelsara vors á eyðimörkinni, sagði hann: „Ef þú ert Guðs sonur, þá bjóð þú, að steinar þessir verði að brauðum"; og þegar hann hafði leitt Jesúm upp á musterisbustina, sagði hann aptur: „Ef þú er Guðs sonur, þá fleyg þèr hèr ofan af". Þannig ætlaði djöfullinn að fá frelsarann til að sýna sitt guðlega vald, með því að koma honum til að aðhafast eitthvað það, er lýsti skorti á undirgefni undir föðursins heilaga vilja. Hin sömu djöfullegu freistíngarorð heyrum vèr nú af munni þeirra, sem gengu fram hjá krossinum, hæddu Jesúm, skóku höfuð sín og sögðu: „Ef þú ert Guðs sonur, þá stíg niður af krossinum". Og hinir æðstu prestar, ásamt öldúngunum og

hinum skriptlærðu brigzluðu Jesú þar að auki um það traust, sem hann hafði sett til Guðs, er nú hefði yfirgefið hann og slegið hendi sinni af honum. En vor guðdómlegi endurlausnari sigraðist eins á hinni fyrstu og hinni seinustu freistíngu; undirgefni hans undir föðursins vilja var ótakmörkuð, og hann var föðurnum hlýðinn fram í krossins kvalafulla dauða. Hvorki gat veraldarinnar ginnandi dýrð, nè hinar bitrustu kvalir komið honum til að yfirgefa lífið í Guði, eða teljast undan að tæma þann beiska bikar, sem faðirinn hafði að honum rètt; það var matur hans og drykkur, að gjöra vilja föðursins, og hann lifði og dó til þess að framkvæma föðursins eilífu ráðsályktun, oss syndugum mönnum til frelsis og sáluhjálpar. Gyðíngarnir — þessi spillta og holdlega sinnaða þjóð — trúðu ekki nema þeir sæu tákn og stórmerki, og trúðu jafnvel ekki fyrir það, því það er vantrúarinnar eðli, að rengja allt, þó hún taki og þreifi á Guðs forsjónar hendi. Því miður á þessi vantrú sèr einnig stað hjá mörgum kristnum mönnum, því hún á alstaðar heima þar sem hjartað er spillt og hugarfarið Guði fráhverft. Meðan þeim leikur allt í lyndi, ganga þeir fram hjá Jesú krossi, án þess að hugsa um Guð og frelsarann, án þess að hugsa um sína eilífu farsæld og sáluhjálp. Þeir hafa engan tíma til að standa við eða nema staðar undir frelsarans krossi, því heimurinn hrífur þá með sèr, og þeir hafa allan hugann á því,

að komast eitthvað áfram í veröldinni; þeirra syndsamlegu girndir og ástríður reka á eptir þeim og hrjá þá og hrekja á hinum breiða vegi glötunarinnar. Verði þeim litið upp á krossinn um leið og þeir ganga fram hjá honum, verði þeim þar litið á lausnarans blóðugu mynd, þá hneyxlast þeir á honum eins og Gyðíngarnir, því að holdlegur maður skynjar ekki hvað Guðs anda er; já, þeir hæða frelsarann í hjarta sínu með því þeir fyrirlíta hans lærdóm, fótum troða hans boðorð og gefa engan gaum að hans áminnandi röddu. Og þegar þeim sjálfum er lagður einhver kross á herðar og þeir ekki geta lengur ætt viðstöðulaust áfram, þá hljóta þeir að sönnu að standa við, en þeir gjöra það ekki með kristilegu hugarfari nè undirgefni undir Guðs vilja; þeir nema ekki staðar hjá Jesú krossi, til þess að leita sèr þar huggunar, hjálpar og aðstoðar, heldur fullir óþreyju og óþolinmæði, möglandi yfir Drottins handleiðslu, óánægðir við Guð og menn. Með sjálfskyldu heimta þeir hjálp af Guði og kalla þetta að treysta Drottni, og við frelsarann segja þeir: ef þú ert Guðs sonur, þá lètt þú af mèr krossinum. Sè nú krossinum ekki af þeim lètt eins fljótt og þeim líkar, þá liggur þeim við að segja í hjarta sínu: öðrum getur hann ekki hjálpað. Lærum af Jesú, kristnir bræður! að umbera með hógværð og þolinmæði álas og ómilda dóma heimsins barna, og kappkostum umfram allt að halda

trúnni og góðri samvizku, og látum það vera vort æðsta mark og mið að geta verið í náð hjá Guði. Dæmi Gyðínganna varni oss við því, að dæma hart um náúnga vorn, þó vèr sjáum hann verða fyrir einhverju þúngu mótlæti, eða halda, að hann sè fyrir það yfirgefinn af Guði. Gætum þess miklu fremur, að hvern Drottinn elskar, þann agar hann, og að hann einatt lætur krossburðinn fullkomna trú og elsku sinna barna. Og þegar vorum algóða föður þóknast að reyna oss í mótlætínganna skóla, þá beygjum oss undir hans voldugu hönd; vörumst að freista hans með mögli og óþolinmæði, en mænum stöðugt augum trúar og vonar upp á Kristi kross, og leitum hjá honum liðs og krapta til að bera þjáníngarnar með undirgefni undir Guðs vilja, og minnumst þess, að oss byrjar fyrir miklar hörmúngar inn að ganga í guðsríki. Ó, Jesú, Guðs eilífi sonur! brjót þú niður vald og hervirki syndarinnar í hjarta mínu, en gjör þú það að þínu musteri, að helgu musteri þíns anda, svo eg geti farið dagvaxandi í dygð og guðsótta og reynzt þèr trúr til dauðans! Amen.

---

# 39. hugvekja.

Um hið sama brigzluðu honum ræníngjarnir, sem með honum vóru krossfestir. En annar af þeim illvirkjum, sem hengdir vóru, hæddi hann og sagði: „Sèrtu Kristur, þá frelsa þú sjálfan þig og okkur". Þá tók hinn til orða, ávítaði hann og sagði: „Hræðist þú ekki Guð, þar sem þú þó líður sömu hegníngu? Vissulega líðum við maklega fyrir okkar athæfi, en þessi hefir ekkert illt að hafzt". Þá sagði hann við Jesúm: „Minnst þú mín, herra! þegar þú kemur í ríki þitt!" Jesús mælti: „Sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís".

---

Flestir urðu til þess að hæða og smána Drottinn vorn; fyrst þeir sem fram hjá krossinum gengu, því næst öldúngarnir, hinir æðstu prestar og hinir skriptlærðu og loksins annar rænínginn, sem með honum var krossfestur. Sá einasti, sem ekki fyllti þeirra flokk, var sá iðrandi ræníngi, eins og vèr heyrðum af hinum upplesna texta. Hjá honum var vöknuð alvarleg umhugsun um dauðann, samfara innilegri sannfæríngu um Jesú guðdómlega sak-

leysi. Og hann játar nú Jesú sakleysi hátíðlega, viðurkennir hann sem Drottinn sinn og frelsara, og andvarpar í sannri iðrun og lifandi trú: „Minnst þú mín, herra! þegar þú kemur í ríki þitt"! En Jesús ávarpaði hann með þessum himnesku huggunarorðum: „Sannlega segi eg þèr, í dag skaltu vera með mèr í Paradís". Af dæmi beggja þessara ræníngja sjáum vèr, kærir bræður! hvernig menn eru misjafnt undirbúnir undir dauða sinn. Hinn iðrunarlausi ræníngi hèkk líka við Jesú hlið, sá hans blíðu ásjónu og heyrði þau huggunarfullu lífsins orð, sem hann talaði við hinn iðrandi ræníngja; en hann sinnti þessu ekki og lèt það engin betrandi áhrif hafa á sitt harða og þverúðarfulla hjarta. Ó! því miður er mörgum þannig varið enn í dag; þó þeir alla æfi mættu verða varir við frelsarans andlegu nálægð og eigi alla æfi kost á að heyra hans himneska lífsins orð, þá getur þetta ekki hrært hjörtu þeirra nè betrað þá; jarðvegur hjartans er orðinn svo harður og hrjóstrugur af langvinnum áhyggjum og sorgum þessa lífs, af langvinnum syndavana, að það getur ekki orðið snortið af neinum háleitari tilfinníngum, af neinum æðri hugarhræríngum. Verði þeim einhvern tíma að ávarpa frelsara sinn, þá er það til þess að heimta af honum hjálp í einhverjum líkamlegum krossburði, eða í einhverri tímanlegri neyð; en um sína andlegu eymd, um sína eilífu sáluhjálp hugsa þeir ekki. Að vísu

ætla flestir sèr að deyja rèttlátra dauða, hversu óguðlega sem þeir hafa lifað; en hver segir þèr, syndugi maður! að hugarfar þitt geti breyzt allt í einu þegar dauðinn ber að dyrum? eða hver getur sagt þèr, hve nær hann muni kveðja þig til burtferðar hèðan? Hafir þú alla æfi fyrirlitið ríkdóm Guðs gæzku, þolinmæði og langlundargeðs, átt þú þá víst, að hann meðtaki í náð þau andvörp, sem þú deyjandi sendir upp til hans úr eymdanna og angistarinnar djúpi af ótta fyrir dauða, eilífð og dómi? Vèr megum ekki láta það ráðast eins og verkast vill, hvort vèr verðum sáluhólpnir eða eilíflega glataðir, og þá hefði postulinn ekki þurft að bjóða oss „að gjöra vora útvalníngu vissa". Þess vegna í dag meðan þú heyrir Guðs rödd, þá forhertu ekki hjarta þitt, svo þú bakir ekki sjálfum þèr hegníngu „á degi reiðinnar og opinberunar Guðs rèttdæmis". Kom þú og nem þú staðar hjá krossi frelsara þíns, og lær þú af hinum iðrandi ræníngja að búa þig kristilega undir dauða þinn. Hjá honum var vaknaður ótti fyrir Guðs hegnanda rèttlæti, og þessi ótti kom honum til þess með innilegu angri að viðurkenna, at athæfi hans hefði til hegníngar unnið. Þar eptir snýr hann sèr til Jesú, og biður hann að minnast sín þegar hann komi í ríki sitt. Hann var svo gagntekinn af tilfinníngu síns eigin óverðugleika, að hann ekki þorði að biðja Jesúm að leysa sèr

inntöku í hans ríki, heldur fól sig í auðmýkt náð hans og miskunsemi á hendur. Prófa þig nú sjálfan, kristinn maður! hvort þú hræðist Guð, hvort þú hræðist hans heilaga rèttlæti, hvort þú hræðist syndina og hennar ófarsælu afleiðíngar, hvort þú hræðist dauða, eilífð og dóm. Verið getur, að þú sèrt ekki illræðismaður eins og hinn iðrandi ræníngi; verið getur, að þú sèrt ekki grófur glæpamaður og hafir sloppið hjá hegníngu mannlegra laga; en ertu þar fyrir sýkn saka í Guðs heilaga augliti, sem lítur á hjartalagið? Ef hjarta þitt er kalt og kærleikslaust; ef þar býr sjálfsþótti og hroki; ef þú ekki af alefli reynir til að uppræta þaðan illgresi syndarinnar með rótum, þá er þèr hætta búin og þú mátt hræðast Guð, sem ekki lætur að sèr hæða: hræðast dauðann og hegnandi eilífð. Æ! fleyg þèr þá flötum frammi fyrir augsýn hins alltsjáanda með harmþrúngnum og sundurkrömdum anda, og játaðu í auðmýkt og af öllu hjarta, að þú hafir til hegníngar unnið; bið þú miskunsemdanna eilífa föður að minnast þín í náð sökum frelsarans friðþægjandi dauða og að fullvissa þig í hans nafni um, að þinna synda skuli ekki að eilífu minnst verða. Bið þú hann að gefa þèr styrk og krapta til að sigrast á freistíngunum og stöðuglyndi í hinu góða, svo þú getir eflt þína sáluhjálp með ótta og andvara og fáir á dauðastundunni það huggunarríka fyrirheit af frelsara þínum, að í dag skulir þú fá að vera hjá

honum í Paradís, í sælunnar himnesku bústöðum á landi lifenda. Ó, Drottinn minn! í þínu heilaga augliti er eg ræníngi og illræðismaður; eg hefi rænt þig þeirri lofgjörð og því þakklæti, sem þú átt skilið fyrir allar þínar náðarríku velgjörðir við mig og þína dásamlegu handleiðslu á mèr; eg hefi rænt náúnga minn þeim bróðurlega kærleika, þeirri hluttekníngu, hjálp og aðstoð, sem þú hefir boðið mèr að sýna honum, og sjálfan mig hefi eg svipt barnarèttinum og þeirri himnesku arfleifð. Æ! en eg kem nú eins og iðrandi ræníngi að krossi frelsara míns, og hefi engu að treysta nema þinni náð og hans friðþægíngu. Þú hefir sjálfur sagt, að þú vilir ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi; snú þú mèr, Drottinn! svo eg geti höndlað lífið í þèr, hið eilífa lífið, og verði þinn, hvort sem eg lifi eða dey. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

# 40. hugvekja.

Jesús sagði: „Sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís".

Sífelt ættum vèr, kærir bræður! að hafa það hugfast, hversu ískyggilegt og hættulegt það er, að skjóta iðrun vorri á frest þangað til á banasænginni. Vèr höfum heyrt það frá blautu barnsbeini og sèð þess dagleg dæmi, að dauðastundin er mjög óviss, og að ótal-margir kallast burt hèðan fyrr en þá sjálfa eður aðra varir, og fá því ekki færi á að búa sig undir dauðann, heldur verða að deyja eins og þeir hafa lifað. Þessi umhugsun ætti að vera einhlít til þess að knýja oss til að leita Drottins, meðan hann er að finna, og kappkosta í tíma að taka sinnaskipti og bæta ráð vort. En því miður er sú hugsun of almenn hjá syndugum mönnum, að það sè nógur tími til þessa þegar dauðinn gjöri vart við sig, og að hans muni enn vera langt að bíða; og af þessari hugsun leiðir hjá þeim lèttúðarfullt hugarfar og skeytingarleysi um þeirra sáluhjálparefni. Ó, Drottinn minn! hversu margir skoða ekki lífið eins og leikfang og gamanspil; hversu margir sóa' því ekki burt án þess fyrir alvöru að hugsa um dauðann og hvað við muni taka hinu megin grafarinnar! En hjá flestum, sem dauðinn

ekki kippir burt allt í einu, vakna þó alvarlegri hugsanir þegar þeir sjá hann nálgast, og fyrir marga verður dauðastundin að iðrunarstund. Mun þá hinn eilífi miskunarinn útskúfa þeim, sem þannig leita hans um elleftu stund? Nei, sá Guð, sem veitti hinum iðrandi ræníngja inntöku í sitt himneska ríki, rekur engan frá sèr, sem til hans flýr með sannri iðrun og varpar sèr af hjarta í hans náðarfaðm. En þó hefir þessi áminníng Síraks (18., 22.) ævaranda gildi: „auðmýktu þig áður en þú legst veikur, og bættu ráð þitt meðan þú enn getur syndgað". Ó! sá sem einhvern tíma hefir staðið hjá banasæng deyjanda manns og sèð, hvílíkum þjáníngum líkaminn þá er vanur að vera undirorpinn, og hversu erfitt hinum deyjanda veitir jafnvel að geta haldið óskertri rænu: mun hafa átt hægt með að sannfærast um, að sá er í sannleika aumkunarverður, sem dregur það fram undir andlátið, að leita Drottins síns og frelsara. En þó þessu væri ekki þannig varið, þó hinn deyjandi syndari hefði viðþol fyrir verkjum og veikindum líkamans, mun þá sá, sem af ásettu ráði og vísvitandi alla æfi hefir flúið Guð og fyrirlitið hans laðanir, áminníngar og aðvaranir, geta treyst því af hjarta, að Drottinn muni svara honum þegar hann ákallar hann ekki fyrr en í andarslitrunum: þessi fáu augnablik, þegar hann er staddur á vegamótum tímans og eilífðarinnar? Mun ekki vísvitandi og þverúðarfull fyrirlitning guðlegrar

náðar hafa guðlegan hegníngardóm í för með sèr? Eða höfum vèr aldrei heyrt þeirra getið, sem ekki gátu beðið Guð þegar þeir vildu, af því þeir höfðu ekki viljað biðja meðan þeir gátu? Æ, hvað stoðar það þá í dauðastríðinu, að lypta skjálfandi höndum til himins, þegar hjartað er kalt og dautt og fjötrað við jörðina? Látum því ekki áminníngar Guðs aðvarandi raddar lengur þjóta eins og vind um eyru vor, heldur leyfum þeim inngöngu í hjörtun, og látum þær vekja hjá oss alvarlega sjálfsprófun, alvarlega umhugsun um vor sáluhjálparefni. „Sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís". Óvenjulega huggunarrík hafa þessi orð frelsara vors verið fyrir hinn iðrandi ræníngja, og óvenjulega huggunarrík eru þau fyrir sèrhvern sanniðrandi syndara. Um þetta getur þú bezt borið, iðrandi sannkristna sál! þú skoðar þetta líf eins og einn dag, eins og náðardag, sem Drottinn hefir gefið þèr, og á hverjum degi býr þú þig undir dauða þinn. Þegar hèr á jörðunni finnur þú til nálægðar frelsara þíns, finnur að hann er með þèr, að hann styrkir þig í freistíngum og baráttu þessa lífs, að hann rèttir þèr hjálparhönd og sendir þèr hugsvölun í sèrhverju böli og andstreymi, að hann veitir þèr frið og fyrirgefníngu synda þinna, að hann er ekki einúngis höfundur, heldur og fulkomnari trúar þinnar; já, að hann er þèr allt í öllu, hvernig sem ástatt er fyrir þèr; og þessi andlega sam-

eining við hann er sælufull fyrir þig, hún er forsmekkur hinnar eilífu sælu, sem þú átt í vændum, og þegar æfidagur þinn er liðinn og þú sèr framundan þèr dauðans nótt og þú andvarpar og biður: „vertu hjá mèr, Drottinn! því að kvölda tekur og á daginn líður", þá muntu algjörlega verða var við hans himnesku nálægð og hann mun flytja þig frá dauðanum til lífsins, á hið eilífa landið, þar sem þúsund ár eru eins og einn dagur. Þar muntu sjá hann augliti til auglitis, eilíflega taka þátt í hans dýrð og njóta þeirrar óumræðilegu sælu, sem ekki hefir auga sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið. Æ, himneski faðir! gef þú oss öllum náð til þess að geta fylgt frelsara vorum og lifað þannig í samfèlagi við þig og hann, að vèr á dauðastundu vorri fáum að heyra þetta huggunarríka fyrirheit talað til vor af hans munni: „Sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís". Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# 41. hugvekja.

Það var um sjöttu stund, að myrkur kom yfir allt landið, sem varaði allt til hinnar níundu, og sólin missti sína birtu. Og um níundu stund kallaði Jesús hátt og mælti: „*Elí! Elí! lama sabachtaní*“? Það þýðir: Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig? En er nokkrir af þeim, sem viðstaddir vóru, heyrðu þetta, sögðu þeir, að hann kallaði á Elías.

---

„Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig“? Þetta var hið fjórða orð, sem Jesús talaði á krossinum. Sólin missti nú birtu sína og svartnættismyrkur hafði hvílt yfir jörðinni í þrjá tíma samfleytt. Þetta var óttalegur forboði þeirra guðlegu hegníngardóma, sem vofðu yfir höfði Gyðíngaþjóðarinnar, og merki upp á það, að náðarsólin á Ísraels andlega himni var gengin undir, en nótt hinnar guðlegu refsíngar runnin upp. Nú stóð hin harðasta orusta yfir milli ljóssins og myrkursins, og það leit svo út eins og ljósið ætlaði að bíða ósigur, en að myrkrið mundi bera hærri hluta. En Krists óendanlega þolinmæði og undirgefni undir föðursins vilja sigraðist á hinu vonda valdi. Drottinn vor vann dýrðlegan sigur, en óvinur ljóssins

þeið ósigur. Þegar Jesús kallaði og sagði: „Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig"? þá var sigurinn þegar unninn yfir hinum eilífa dauða, sem er hinn seinasti óvinur, hin seinasta hegníng syndarinnar; þá var endurlausnarverkið þegar fullkomnað og hin eilífa friðþægíngarfórnin fram borin fyrir mannanna syndir. Í þetta eina sinn fannst frelsara vorum hann vera yfirgefinn af sínum himneska föður, til þess að vèr skyldum aldrei um alla eilífð af honum yfirgefnir verða. Ekkert getur heldur hugsazt hræðilegra en það, að vera yfirgefinn af heilögum og almáttugum Guði, af hinum eilífa höfundi alls ljóss og lífs, en vita sig hrifinn og hertekinn af myrkranna valdi; ekkert ástand getur hugsazt óttalegra en það, að mega ekki lypta vonaraugum upp til miskunsemdanna föðurs á himnum, heldur verða að falla hjálpar- og huggunarlaus í örvæntíngarinnar og eymdanna djúp. Og þetta aumkunarverða ástand hefði þó legið fyrir oss syndugum mönnum, ef Jesús hefði ekki vor vegna tæmt kvalanna beiska bikar. Þá hefðum vèr sífelt setið í dauðans myrkrum, og enginn geisli guðlegrar náðar hefði þá uppljómað vegu vora. Lofa þú því Drottinn, sála mín! og allt hvað í mèr er, fyrir hans óendanlegu náð og miskunsemi. Frelsara þínum áttu það að þakka, að þú aldrei ert yfirgefinn af gæzkuríkum Guði, ef þú ekki sjálfur yfirgefur hann, heldur heldur þèr stöðuglega til hans. Já, kristnir bræður! vor

himneski faðir er oss jafnan nálægur, því að í honum erum, lifum og hrærumst vèr. Og þó er breytni margra manna svo óguðleg og andvaralaus, að það lítur svo út, eins og þeir væru yfirgefnir af Guði; og þó eiga margir við svo bág kjör að búa hèr í lífi og eru undirorpnir svo margvíslegum þrautum og þjáníngum, að það á stundum lítur svo út eins og hinn algóði faðirinn hafi sleppt af þeim sinni verndarhendi, og jafnvel Guðs börn fá það að reyna, að þeim finnst Drottinn hafa yfirgefið sig. En þessu er þó ekki þannig varið. Þú, sem lifir í andvaraleysi og eins og enginn Guð væri til; þú, sem um ekkert æðra hugsar, en það sem þú getur sèð og þreifað á og orðið var við með skilníngarvitum þínum: hugfestu þann sannleika, að Guð hefir ekki yfirgefið þig; gættu þess á freistínganna tímum, að hans alskygna auga sèr til þín og að hann er þèr nálægur með sínu heilaga rèttlæti; já, hann er þèr enn þá nálægur með sinni náð og dregur hegnínguna undan, „ef ske kynni, að þú tækir sinnaskipti, svo þú kæmist til þekkíngar á sannleikanum og endurvitkaðist, laus við snöru djöfulsins, í hverri þú hefir af honum flæktur verið til að gjöra hans vilja" (2. Tím. 2., 25.—26.). Fyrirlíttu því ekki ríkdóm Guðs þolinmæði, gæzku og langlundargeðs, heldur snú þú þèr til Guðs og bið þú hann af öllu hjarta fyrirgefníngar á því í Jesú nafni, að þú hefir yfirgefið hann, yfirgefið þann sáluhjálpar veg,

sem hann vísaði þèr á. Leita þú Guðs meðan hann er að finna, meðan hann breiðir sinn náðarfaðm út á móti þèr; leita þú hans áður en hans miskunsemi yfirgefur þig, áður en þú hefir fyllt mæli synda þinna, áður en þèr verður útskúfað frá hans augliti í hin yztu myrkur. Æ! þá er of seint að hrópa úr hinu eilífa hörmúnga djúpi: Guð minn! Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig? því þá mun samvizkan með brennandi ásökunum gefa þèr þetta svar: „Guð yfirgaf þig, af því þú yfirgafst hann; hann er nú ekki lengur þinn Guð, af því þú aldrei vildir vera hans barn". En þú, sem stynur undir krossins þúngu byrði og heldur, að Guð hafi yfirgefið þig: láttu ekki hugfallast, heldur leita þú þèr hjálpar og huggunar undir krossi frelsara þíns; hugsaðu til þess, hve miklu þýngri þjáníngar hann varð að þola þín vegna, og að þínar þrautir komast hvorki í samjöfnuð við hans kvöl og pínu, nè heldur við þá dýrð, sem þú átt í vændum í öðru lífi, ef þú ber mótlætið með kristilegri stillíngu og þolinmæði, og leyfir Guði að ná þeim gæzkuríka tilgangi sínum, að mennta þig í mótlætínganna skóla og undirbúa þig undir eilífa sælu. Treystu Guði, treystu því, að hann leggur þèr ekki þýngri byrði á herðar, en hann gefur þèr krapta til að bera, og að hans hjálp er næst þegar neyðin er stærst. Og þú guðhrædda, góða sál, sem ert hreld og angráð af því, að þèr finnst að Drottinn hafi

yfirgefið þig og snúið augliti sínu frá þèr: vertu hughraust og ókvíðin; þetta er reynsla, sem Drottinn sendir þèr, til að styrkja trú þína og stöðuglyndi þitt; þreyttu við Guð í bæninni og hættu ekki að vona á hann, heldur seg þú eins og Jakob: „Drottinn! eg sleppi þèr ekki fyrr en þú blessar mig"; og huggun, ljós og friður mun streyma frá honum niður í sálu þína og gjöra sameiningu þína við hann enn þá hjartanlegri, enn þá innilegri en áður. Ó, Guð minn góður!

„þú yfirgefur aldrei þann,
aðstoð þinni sem treysta vann";

gef þú mèr náð til þess að treysta þèr af öllu hjarta og setja alla mína von til þín, svo að þú sèrt mín huggun og mitt hjartans hlutskipti æfinlega. Og þegar augu mín apturlokast í dauðans myrkrum og sólin missir sína birtu og himinljósin hverfa sjónum mínum, æ! láttu þá þína náðarsól skína móti mèr á eilífðarinnar himni og leiddu mig á ljóssins og sælunnar land. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

# 42. hugvekja.

Eptir þetta, þar eð Jesús vissi, að allt var þegar fullkomnað, svo að ritníngin skyldi rætast, sagði hann: „mig þyrstir". Þar var ker, fullt af ediki; jafnsnart hljóp einn þeirra til og tók njarðarvött og fyllti af ediki, og setti hann á reyrlegg og gaf honum að drekka, og sagði: „Lofið mèr að! vitum til, hvort Elías kemur að hjálpa honum".

---

Frelsari vor vissi nú, að allt var þegar fullkomnað, og hans óumræðilega sálarkvöl var þegar á enda. Þá sagði hann: „mig þyrstir". Einkanlega var það líkamlegur þorsti, sem Jesús fann til eptir alla þá dauðans pínu, sem hann hafði liðið, og hann andvarpaði nú eptir svaladrykk. En hvílíkur var nú sá svaladrykkur, sem honum var gefinn? Njarðarvöttur, fylltur af ediki, var sá einasti og seinasti svaladrykkur, sem einhver hermaður af meðaumkun rètti honum. Ó, hversu djúpt hefir Drottinn orðið að litillækka sig mín vegna! Hann, sem breytti vatni í vín, hann sem á allar ár og uppsprettur, hann, sem sendir frjófgandi dögg niður á jörðina og heldur vötnum sjáfarins saman: vanmegnast af brennanda þorsta og fær ekki annan svaladrykk en súrt edik. En þetta Jesú andvarp:

„mig þyrstir“ hefir líka aðra æðri þýðíngu. Hann fann ekki einúngis til líkamlegs, heldur og til andlegs þorsta; með því hann þyrsti eptir sáluhjálp vorri, eptir mannanna andlegu og eilífu farsæld. En hjá þeim fær hann ekki heldur annað en edik að drekka; vantrú og kærleiksleysi, óhlýðni og vanþakklæti er sá svaladrykkur, sem þeir rètta honum. Þannig launa þeir alla hans elsku og allar hans náðarríku velgjörðir. Æ! hlýtur þú ekki einnig að játa það, sála mín! að þú hefir fyllt þenna flokk? Hlýtur þú ekki einnig að játa, að þú lèzt þèr mest umhugað um, að svala þínum eigin þorsta? Og hvernig var nú þínum þorsta varið? Þyrsti þig eptir Guðs ríki og hans rèttlæti? Æ, nei! það var þorsti þinna syndsamlegu girnda, sem þú leitaðist við að slökkva; stundum þyrsti þig í munað og makindi, stundum í álit og upphefð, stundum í auðæfi þessa heims, og þú leitaðist við að slökkva þenna þorsta með því að drekka úr þeim svölunarlindum, sem syndin vísaði þèr á. En því meir sem þú drakkst úr þeim, því meir þyrsti þig, því þetta eru lindir dauðans, og sá þorsti, sem leitar sèr svölunar í þeim, er dauðans þorsti, þorsti hins eilífa dauða. Öðru vísi var þorsta frelsara þíns varið; það var þorsti hins eilífa lífsins, og hann þyrsti einnig eptir þínu lífi, eptir þinni eilífu sáluhjálp. Æ! getur þú nú lengur fengið af þèr að neita honum um þenna svaladrykk, með því að ala hjá sjálfum þèr

syndarinnar þorsta? Getur þú lengur fengið af þèr að fylla þeirra flokk, sem með andvaraleysi og syndsamlegu athæfi bera honum hinn beiska og súra drykk? Ættir þú ekki feginsamlega og með fögnuði að flýja í þann miskunarfaðm, sem hann breiðir út á móti þèr? Ættir þú ekki með sárri löngun að geta sagt: „Sálu mína þyrstir eptir Guði, eptir lifanda Guði"? og taka þèr þessi Davíðs orð í munn: „Drottinn! þegar eg hefi þig að eins, þá hirði eg hvorki um himin nè jörð"? Ættir þú að láta þig þyrsta meir eptir heimsins hverfulu gæðum, en himinsins dýrðlega hnossi? Ættir þú að vera tilfinníngarlaus fyrir elsku frelsara þíns, en opna hjarta þitt fyrir syndarinnar skammvinnu gleði? Æ! hve nær sem heimurinn freistar mín til syndar og mitt hvikula og óstöðuga hjarta ætlar að draga mig á tálar, hve nær sem holdlegar girndir og tilhneigíngar vakna hjá mèr, þá láttu hljóma í eyrum mínum þetta þitt aðvarandi og þýðíngarfulla orð: „mig þyrstir", svo að eg í eilífðinni ekki þurfi að biðja með orðum hins ríka manns í dæmisögunni og segja: „Miskuna þú mèr og send Lazarus, að hann dýfi fíngurgómi sínum í vatn og kæli túngu mína, því eg kvelst í þessum loga" (Lúk. 16., 24.). Ó! sannarlega hefir þú einnig afrekað mèr þá náð, að eg ekki skuli kveljast af hinum eilífa þorsta angistarinnar og örvæntíngarinnar. Þess vegna sýngjum vèr

þèr eilíft lof og þakkargjörð fyrir þann þorsta, sem þú þjáðist af á krossinum. Þar hefir þú leitt hinar eilífu lindir lífsins í ljós, svo að engan, sem af þeim drekkur, mun að eilífu þyrsta. Já, kristnu bræður! sá einasti sanni þorsti sálar vorrar er eilífðarinnar þorsti, þorstinn eptir Guði, eptir hans ríki og hans rèttlæti; þessi þorsti felur í sèr eilífa sælu, og hann er vottur um tign og yfirburði vors ódauðlega anda. En þessum þorsta getur enginn svalað nema vor guðdómlegi endurlausnari. Í hans himneska lærdómi, í hans heilaga dæmi og hans friðþægjanda dauða finnum vèr svölun, huggun og hvíld fyrir sálir vorar, og hvergi nema þar, því „það er eilíft líf að þekkja einn sannan Guð og þann, sem hann sendi, Jesúm Krist". Þess vegna segir hann líka sjálfur: „sá sem drekkur af því vatni, er eg mun gefa, skal að eilífu ekki þyrsta, heldur mun það vatn, sem eg mun gefa honum, verða í honum að lind, uppsprettandi til eilífs lífs" (Jóh. 4., 14.). Æ! komið þá kærir bræður! að þessari eilífu lind og svalið sálum yðar; innrætið yður Jesú sáluhjálplega lærdóm, hafið hans heilaga dæmi jafnan fyrir augum yðar, og látið hans friðþægjanda kærleika vekja hjá yður heita og hjartanlega elsku til hans.

Himneski, algóði faðir! vek þú hjá oss þorsta eptir þèr, löngun eptir lífinu í þèr, eptir samfèlagi við þig og frelsara vorn, svo

vèr getum fundið til þess í hjörtum vorum, að dauðinn er oss ávinníngur, og að það er betra að vera hjá þèr en í þessu útlegðarstandi. Og þegar þorsti dauðans tekur til að þjá oss og vèr ætlum að örmagnast í voru dauðastríði, æ! dreyptu þá á oss himneskum svaladrykk af straumum þinnar náðar og taktu oss í þinn eilífa miskunarfaðm. Þessa biðjum vèr þig í Jesú nafni. Amen.

---

## 43. hugvekja.

En er Jesús hafði til sín tekið edikið, sagði hann: „það er fullkomnað".

---

Með þessum orðum: „það er fullkomnað" fullkomnaði Jesús sitt háleita endurlausnarverk. En þessi orð vors deyjanda frelsara hljóta að hafa haft aðra þýðíngu fyrir þá vini hans og lærisveina, sem stóðu hjá krossi hans, en þau hafa fyrir oss. Þeir, sem þá ekki fullkomlega þekktu tilgang Jesú komu í heiminn og voru hræddir og ístöðulausir, hafa eflaust haldið, að Jesús með þessum orðum boðaði heimsendinn ásamt dauða sínum, og

í þessari sannfæríngu hafa þeir styrkzt bæði af því er þeir sáu, að sólin missti sína birtu, jörðin skalf og björgin klofnuðu, og líka af því, sem þeir höfðu heyrt Jesúm segja um hinn síðasta dag og apturkomu sína til dómsins. En hvað oss snertir, kærir bræður! þá vitum vèr, að við heimsendinn og hina seinustu fullkomnun allra hluta mun Drottinn vor og frelsari koma til dómsins, ekki eins og hann nú var í sinni djúpu niðurlægingu á krossinum, heldur í skýjum himins með guðlegri almættis hátign. Þegar vèr nú hugleiðum þessi hans orð: „það er fullkomnað", þá gefa þau oss marga lærdómsríka hugvekju. Fyrst og fremst líta þau til þess, að stríðinu var nú lokið og sigurinn unninn, að hið háleita endurlausnarverk var nú til lykta leitt. Nú var frelsi vort fullkomnað, rèttlæti vort og sáluhjálp. Syndasektin var burtnumin, Guðs rèttlæti fullnægt, himininn opnaður og dauðinn upp svelgdur í sigur. Enn fremur sýna þau oss, að mannleg synd var nú fullkomnuð, bæði af því að hún birtist á sínu æðsta stigi í Jesú lífláti, og af því að Guð hafði hana til að auðsýna þeim hina mestu miskunsemi og framkvæma sína eilífu ráðsályktun til þeirra frelsis og sáluhjálpar. Hèr sjáum vèr mannlega spillíngu í ótal myndum, hvort heldur vèr virðum fyrir oss drottinssvik Júdasar, afneitun Pèturs, hugleysi lærisveinanna, heipt og hatur hinna æðstu presta, hviklyndi lýðs-

ins, rangsleitni Pílatusar, grimmd og mannvonzku þeirra, sem krossfestu Jesúm. En í pínu og dauða frelsara vors sjáum vèr líka fullkomnaðan Guðs eilífa kærleika og hina fullkomnustu ímynd hans óendanlegu elsku og náðar. Öll hans pína sýnir oss svo ljóslega, hvernig sèrhver tilfinníng í hans heilaga hjarta var einber miskun og kærleiki. Áður en hann gengur út í pínuna, situr hann til borðs með lærisveinum sínum, eins og þegar ástríkur deyjandi faðir kallar börn sín að banasæng sinni, kveður þá með óviðjafnanlegum huggunarorðum og gefur þeim sína himnesku náðarmáltíð; hann vill hlífa þeim við hörmúngunum og bera þær allar einn saman, og því biður hann, „að þeir megi fara burt" (Jóh. 18., 8.). Hann vill ekki, að sín pína hryggi nè græti aðra, og því segir hann við hinar grátandi konur: „grátið ekki yfir mèr, heldur yfir yður og börnum yðar". Hann hugsaði meir um þeirra eymd en sínar þjáníngar; hann biður óvinum sínum líknar og miskunar; hann elur önn fyrir sinni syrgjandi móður og heitir hinum iðrandi ræníngja himneskri og eilífri sælu. Og þegar hinn eilífi kærleiki er búinn að vinna allt, sem unnið varð, til sáluhjálpar vorrar, þá segir hann: „það er fullkomnað". Ó! mikinn fögnuð hafa þessi orð vakið á himnum hjá englum Guðs, sem, eins og postulinn að orði kemst, „fýsir að skygnast inn í leyndardóm friðþægíngar-

innar" (1. Pèt. 1., 12.), og hjá öllum Guðs útvöldum, sem höfðu mænt vonaraugum fram í hinn ókomna tíma og vóru burtsofnaðir í trúnni og trausti á Drottins fyrirheitum. Ættir þú þá ekki líka, sála mín! að sýngja Guði lof og þakkargjörð? Ættir þú ekki af innsta grunni hjartans að vegsama hans heilaga nafn, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist? Láttu nú aldrei framar vantraust nè örvæntíng fá yfirhönd hjá þèr, því einnig fyrir þig hefir Jesús fullkomnað allt, og þú þarft nú ekki annað en að tileinka þèr hans verðskuldun með bljúgu og auðmjúku hugarfari, og finna af hjarta til þinnar syndaeymdar og að þú ert náðarþurfi. Þó syndir þínar sèu miklar, þá er þó Guðs náð langtum meiri; og þó elska þín sè ekki eins heit og hjartanleg eins og þú feginn vildir, þá getur þú huggað þig við það, að það er ekki þín elska til Guðs, sem hefir afrekað þèr sáluhjálpina, heldur Guðs elska til þín, og að hún er eilíf og óumbreytanleg. Seg þú því skilið við allt syndsamlegt athæfi og flýðu til frelsara þíns; trúðu honum og treystu og helga þú honum hjarta þitt; berstu trúarinnar góðu baráttu gegn öllum óvinum sáluhjálpar þinnar; þá mun Krists endurlausn fullkomnast innra hjá þèr og hafa helgandi áhrif á hugarfar þitt, eins og hún á krossinum fullkomnaðist þín vegna, svo þú getir tekið undir með postulanum og sagt: „Hver

vill ásaka Guðs útvalda? Guð er sá, sem rèttlætir; hver er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er; já, miklu meira, sá sem líka er upprisinn og er Guði til hægri handar og biður fyrir oss" (Rómv. 8., 33.—34.). Sú kemur stundin einnig fyrir þig fyrr eða síðar, að þú getur sagt eins og frelsarinn: „það er fullkomnað". En á þessari seinustu stundu æfidagsins, þegar skeiðið er á enda runnið, þá er allt undir því komið, hvernig það er fullkomnað, hvort það er í iðrunarleysi og syndsamlegu athæfi, eða í trú og guðsótta, því að undir því eru þín eilífu kjör komin. Ó! þú himneski höfundur og fullkomnari trúarinnar! lífgaðu og styrktu mína veiku trú, svo hún verði sönn og kröptug og fullkomin; vertu máttugur í mínum veikleika og fullkomna þú í mèr hið góða verkið, verk helgunarinnar, svo eg á dauðastundu minni geti hughraustur sagt: það er fullkomnað fyrir þinn krapt, Drottinn minn og frelsari! Amen.

---

# 44. hugvekja.

Og Jesús kallaði hárri röddu í annað sinn og sagði: „Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda".

---

Þetta voru Jesú seinustu orð á krossinum. Endurlausnarverkið var nú fullkomnað og Jesús átti ekki annað eptir en að deyja. Nú var kvalanna bikar tæmdur í botn og hinu eilífa rèttlæti fullnægt. Ásjóna föðursins, sem um stund hafði verið hulin, ljómaði nú aptur í lausnarans hjarta, og hans andi hvarf í föðursins himnesku hendur. Með sínum andlátsorðum hefir frelsarinn líka opnað oss aðgang til föðursins, svo vèr einnig á vorri dauðastundu megum eins og hann og í hans nafni hrópa og segja: „Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda". Þetta hjartans andvarp sykrar alla dauðans beiskju; svo að hann er ekki framar hegníng fyrir þá, sem deyja í trúnni á Jesúm og samfèlagi við hann, heldur náðarrík velgjörð Drottins, lausn frá öllu illu og inngangur til eilífs lífs og eilífrar sælu. Þegar eg nú íhuga andlát frelsara míns og jafnframt renni huganum fram til dauðastundar minnar, þá renna allar óskir mínar og vonir saman í þessari einu bæn: „sála mín deyi dauða hins rèttláta og mitt hið síðasta verði

eins og hans" (4. Mósisb. 23., 10.). Og mun þetta ekki vera innilegasta ósk vor allra, kærir bræður! Ef það ekki væri, þá værum vèr í sannleika blindir og aumkunarverðir; því þó vèr höfum allt, sem vèr viljum hendinni til rètta í þessu lífi, þá vantar oss þó alltaf það, sem mest á ríður, og það er: sáluhjálplegur dauði. Æ! Guð minn góður! láttu kjör mín í þessu lífi vera eins og þèr þóknast; en gef þú mèr einúngis sáluhjálplegan dauða; ef þín eilífa speki sèr það hentugast, þá láttu lífsstundir mínar vera sút og sorgum hlaðnar, en vertu mèr að eins náðugur og miskunsamur Guð á minni dauðastundu! En til þess að vèr, kærir bræður! getum með kristilegri djörfúng tekið dauða vorum, og á vorri andlátsstundu falið anda vorn í föðursins hendur, verðum vèr í tíma að búa oss undir þessa hátíðlegu og alvörufullu stund og læra í tíma að þekkja og elska þá guðlegu föðurhönd, sem vèr ætlum að fela vorn anda. Þetta getum vèr nú bezt með iðulegri og innilegri bæn til Guðs. Vèr getum ekki orðið sannkristnir nema vèr lærum að biðja Guð rèttilega; en, því miður, lifa margir svo allan sinn aldur, að þeir aldrei læra það, af því þeir sannfærast aldrei um nauðsyn og nytsemi bænarinnar. Opt er neyðin sá bezti skólameistari í þessu efni, og opt lærum vèr ekki að þekkja hvílíkan krapt og hvílíka hugsvölun bænin veitir, fyrr

en vèr höfum reynt, hversu fallvaltir og óáreiðanlegir þeir tímanlegu hlutir eru, sem vèr svo mjög treystum. Ekkert styrkir betur en bænin trúnaðartraust vort á Guði og elskuna til hans í vorum hjörtum. En það er nauðsynlegt, að vèr í tíma lærum að treysta honum og elska hann, til þess að vèr í dauðanum með hjartanlegu trúnaðartrausti getum falið vorn anda í hans hendur. Eða hvernig getur sá af hjarta trúað Guði fyrir sèr í dauðanum, sem ekki þorir að reiða sig á hann í lífinu? Og hvernig á sá að reiða sig á hann, sem sjaldan eða aldrei biður hann, sjaldan eða aldrei hugsar um hans óendanlegu fullkomlegleika, sjaldan eða aldrei þakkar honum fyrir hans náðarríku velgjörðir; sem ekki kannast við hans föðurlegu handleiðslu, ekki sækist eptir neinu nema tímanlegum gæðum, ekki hlýðir neinu nema fortölum sinnar spilltu náttúru og sinna syndsamlegu girnda? En með því bænin kennir oss að þekkja og elska Guðs föðurlegu forsjónar hönd, þá kennir hún oss einnig að beygja oss undir hans voldugu hönd. Þegar vèr fyrir daglega bæn verðum Guði handgengnir, þá lærum vèr æ betur og betur að þekkja hans ómræðilegu og eilífu hátign, en vorn eigin lítilmótlegleika og óverðugleika; lærum æ betur og betur að sjá, að hann er allt, en vèr erum ekkert; og þessi þekkíng vekur hjá oss kristilega auðmýkt og undirgefni undir

hans vilja, svo vèr með lotníngu beygjum oss undir hans alveldis hönd og með auðsveipni og glöðu geði tökum hverju því, sem hann lætur oss að höndum bera, af því vèr þá finnum, hve fávíslegt og syndsamleg það væri að mögla á móti hans almáttugu, alvitru og mildiríku forsjón. Þegar vèr þannig, kærir bræður! treystum Guði, elskum hann og hlýðum honum, þá getum vèr verið vissir um, að vèr erum í Guðs hendi, hvort sem vèr lifum eða deyjum, því þá fær hvorki meðlæti nè mótlæti, hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði skilið oss við Drottins kærleika; þá getum vèr af hjarta kallað hann vorn föður, og falið líf og sál og öll vor efni í hans föðurhönd; þá þurfum vèr ekki að hræðast gröf nè dauða, heldur getum hughrautir beðið hans atlögu, og í trausti til Jesú friðþægíngar sagt: „dauði, kom þú sæll þegar þú vilt"! Og þegar hann þá kemur og kveður oss til burtferðar, og vèr ekki eigum annað eptir en gefa upp andann, þá getum vèr ókvíðnir tekið oss frelsarans orð í munn og sagt: „Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda". Guð gefi oss náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# 45. hugvekja.

Og þegar Jesús hafði þetta sagt, hneigði hann höfuðið og gaf upp andann.

---

Við höfum nú, sála mín! staðið um stund undir Jesú krossi og virt fyrir okkur hans blóðugu píslarmynd; við höfum sèð, hvernig hinn heilagi kærleiki gefur líf sitt út fyrir oss synduga menn, hvernig hann þolir og umber allt með himneskri hógværð og þolinmæði, og nú sjáum við, hvernig hann loksins hneigir höfuðið og gefur upp andann. Hefir nú þessi sjón haft nokkur áhrif á þig? Hefir íhugun Jesú krossdauða vakið hjá þèr nokkra guðrækilega tilfinníngu? Hefir hún glætt hjá þèr elsku til frelsara þíns og þakklæti við hann? Hefir hún styrkt þig í þeim ásetníngi, að deyja frá syndinni, en lifa honum, sem fyrir þig dó á krossinum? Eða hefir Jesú píslarsaga alls ekki vakið neinar guðlegar hræríngar í hjarta þínu? Ertu, sála mín! eins holdlega og veraldlega sinnuð eins og þú varst í byrjun þessa útlíðanda föstutíma? Hefir lærdómurinn um krossinn verið þèr heimska, eða hneyxli? — Þessar spurníngar ættum vèr, kærir bræður! að leggja fyrir oss og svara þeim með hjartans hreinskilni, svo vèr ekki drögum sjálfa oss á tálar, því til þess miða vorar andlegu hugleiðíngar, að þær

gjöri oss guðræknari og betri. En það sem vèr á þessari guðræknisstundu sèr í lagi viljum láta huga vorn dvelja við, er Jesú andlát, það seinasta atvik í hans lífi, að hann hneigði höfuðið og gaf upp andann. Þetta hátíðlega og merkilega augnablik, sem endaði Jesú kvöl og pínu, kemur líka fyrir oss, kristnir menn! og verður hið mest áríðanda augnablik í voru lífi. Að deyja — það er hið seinasta stig þessa lífs og jafnframt hið mikilvægasta fótmál þess, því allt vort líf er undirbúníngur undir dauðann, og hann ákveður kjör vor í eilífðinni og opnar oss veg annaðhvort til eilífrar sælu, eða eilífrar ófarsældar. Æ! lærum þá af Jesú, hvernig vèr eigum að deyja sáluhjálplega; en fyrst verðum vèr að læra af honum, hvernig vèr eigum að lifa kristilega, því til þess að geta dáið sáluhjálplega útheimtist að lifa kristilega, og frelsari vor gat hneigt sitt deyjanda höfuð með himneskri hugarrósemi, af því hann hafði unnið meðan dagur var, af því hann hafði álitið það mat sinn og drykk að gjöra vilja síns himneska föður. Svo framarlega sem vèr því óskum þess, kærir bræður! að geta hneigt vor höfuð á dauðastundunni með kristilegri hugarrósemi, þá kappkostum meðan dagur er, að gegna trúlega vorum skyldum og vinna það verk, sem Drottinn hefir falið oss á hendur, og vèr megum ekki vera tómlátir við það eða hætta við það í miðju kafi, heldur

verðum vèr daglega að stríða við vorar syndsamlegu girndir, daglega reyna til að afleggja vora bresti og daglega ástunda að taka framförum í dygð og guðsótta. Vort helgunarverk er ekki unnið á lítilli stundu, því holdið er alltaf veikt, þó andinn sè reiðubúinn, og vèr þurfum alltaf að vaka og biðja. En þetta verk hefir líka háleit verðlaun í för með sèr, bæði hèr í tímanum og í eilífðinni. Eða geta nokkur verðlaun verið stærri og nokkur meiri sæla gefist í þessu lífi, en að geta gengið móti dauða sínum með velgrundaðri og sannkristilegri hugarrósemi? Vèr getum aldrei nógsamlega gætt þess, að enginn getur tekið dauðanum með sannri sálarrósemi, nema sá, sem lifir í samfèlagi við Jesúm Krist, nema sá, sem er orðinn hluttakandi í hans friðþægíngu og Guðs náð. Mitt í sínum fasta andvaraleysis svefni hlýtur iðrunarlaus syndari að ónáðast af því, að hugsa til dauðans og eilífðarinnar; og ætti þetta ekki að hvetja hann til að leita Drottins meðan hann er að finna, og ákalla hann meðan hann er nálægur? Ætti þetta ekki að hvetja hann til þess með sannri iðrun að afla sèr þeirrar sálarrósemi, sem er einka-skilyrði fyrir kristilegri djörfúng á dauðastundunni? Æ, Drottinn minn! þegar ótti fyrir dauðanum ætlar að óspekja hjarta mitt og vekja hjá mèr kvíða fyrir honum: þá vil eg hugsa til þín og þíns friðþægjanda dauða; hugsa til þess, að dauðinn

er ekki lengur syndahegníng, heldur ávinníngur fyrir hvern þann, sem deyr í trúnni á þig, að hann er inngangur til þeirrar eilífu sælu, sem ekki hefir auga sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið. Hvað getur þá framar vakið hjá mèr ótta fyrir dauðanum? Að sönnu er eg breyskur og ófullkominn, og í það góða, sem eg vil gjöra, blandast einatt óhreinar og eigingjarnar hvatir; en eg fulltreysti því, að þitt heilaga rèttlæti verði mèr tilreiknað, og að Guð muni því taka mig til náðar af sinni óendanlegu miskunsemi og líta á minn góða og einlæga vilja. En má ske mínar líkamlegu þjáningar verði svo þúngbærar á dauðastundu minni, að þær trufli sálarrósemi mína og veikli mína kristilegu djörfúng. Æ! ef þetta á fyrir mèr að liggja, þá láttu mig hugsa til þess, að hversu miklar og langvinnar sem þessar þjáníngar kunna að verða, þá eru þær þó lèttvægar og skammvinnar í samanburði við þá eilífu gleði, sem þú hefir mèr afrekað. Má ske dauðinn slíti mig úr faðmi ástvina minna, og mèr falli þúngt að skilja við þá og vita þá yfirgefna og munaðarlausa í veröldinni: æ! láttu mig þá muna til þess, að þú ert faðir allra föðurlausra, og lofa þú mèr að deyja með þeirri sannfæríngu, að mínir eptirskildu ástvinir muni óttast þig og ganga á þínum vegum, og að enginn þeirra muni glatast: þá veit eg, að þó eg fari hèðan, þá

koma þeir á eptir innan lítillar stundar, og að eg fæ að sjá þá aptur hjá þèr í þínum himnesku sælunnar bústöðum; þá get eg í þínu náðarnafni hughraustur hneigt höfuð mitt og gefið upp andann. Amen.

---

# 46. hugvekja.

Þá rifnaði fortjald musterisins í tvennt, ofan frá og niður í gegn; jörðin skalf og björgin klofnuðu, og legstaðir hinna dauðu opnuðust, og margir helgir menn risu upp, þeir er áður vóru dauðir; og sem þeir vóru útfarnir af gröfum sínum, komu þeir eptir hans upprisu í borgina helgu og urðu þar sènir af mörgum. Nú er hundraðshöfðínginn og þeir sem með honum vóru, sem áttu að gæta Jesú, sáu jarðskjálftann og það sem skeði, urðu þeir næsta hræddir og sögðu: „sannarlega var þessi maður Guðssonur". En allur sá mannfjöldi, sem þar var hjá og horfði á það er skeði, barði sèr á brjóst og snèri heim aptur.

---

Jesú dauði er hið mesta náðarinnar undur, og því er ekki furða, þótt náttúrunnar undur sèu honum samfara. Fortjald musterisins, sem að greindi helgidóminn frá hinu allrahelgasta, rifnaði eptir endilöngu, svo að náðarstóllinn með örk sáttmálans og Kerúbim var nú ekki lengur hulinn, heldur blasti við allra sjónum; og bendir þetta til þess, að hinn forni sáttmáli var nú upphafinn, að spádómarnir voru nú framkomnir, allar fyrirmyndanir uppfylltar og fórnfæríngarnar af teknar. Með sínum dauða opnaði Jesús oss aðgang til náðarstólsins, svo að vèr í trausti til hans friðþægíngar getum leitað fyrirgefníngar synda vorra hjá miskunsemdanna himneska föður; hann „hefir niðurbrotið skilrúmsvegginn", og „honum er það að þakka, að vèr með einum anda höfum aðgang til föðursins" (Efes. 2., 14., 18.). „Jörðin skalf og björgin klofnuðu". Þessi umbrot í innviðum jarðarinnar, þessi titríngur og skjálfti náttúrunnar benda oss á þá miklu breytíngu, sem Jesú dauði kom til leiðar í hinum andlega heimi og náðarinnar ríki; þau voru merki upp á það, hvernig kraptur hans friðþægíngar mundi endurskapa mannleg hjörtu, og hvernig hin steinhörðu hjörtu syndugra manna mundu eins og klofna, vikna og mýkjast af iðrunarinnar og trúarinnar tárum. „Legstaðir hinna dauðu opnuðust og margir helgir menn risu upp, þeir er áður voru dauðir". Jesú dauði var þeirra

líf, eins og hann er vort líf. Þetta sýnir oss, hvernig hans dauði er lífgjöf allra lifenda og dauðra. Þegar hann dó, streymdi hans almættisandi gegnum hina dauðu líkami, og þegar hann upp reis, leiddi hann þá lifandi með sèr út af gröfunum. Þetta átti að fyrirmynda upprisu alls holds á efsta degi, og sýna í hve nánu sambandi vor upprisa stendur við hans upprisu og við þann sigur, sem hann með sínum dauða vann yfir dauðanum; en það átti líka að minna oss á, hvernig vèr eigum að tileinka oss hið æðra líf, sem Jesús þannig hefir flutt heiminum, og ganga í endurnýjúngu lífdaganna, svo vèr á síðan verðum hluttakandi í hans upprisudýrð. Ó, Drottinn! láttu þinn anda, láttu þína raust þrengja sèr niður í grafir þeirra, sem í syndunum sofa, svo þeir geti vaknað og risið upp af svefninum; svo þeir geti sèð og viðurkennt, hvað skeð er þeim til frelsis og sáluhjálpar, „barið sèr á brjóst og snúið sèr — ekki frá þèr, eins og mannfjöldinn, sem stóð undir þínum krossi, heldur til þín, snúið frá syndum sínum og lifað eilíflega með þèr. Vèr höfum, kristnir menn! heyrt, að björgin klofnuðu við Jesú dauða; æ! eru þá ekki þau hjörtu harðari en steinn, sem ekki vikna nè komast við af þessari sjón? sem ekki finna til angurs af syndum sínum, ekki til elsku nè þakklætis við íhugun Jesú friðþægjanda dauða? sem geta heyrt og lesið

Jesú píslarsögu — þessa helgu og himnesku sögu guðlegrar elsku — án þess að snúa sèr til Drottins með heitri og einlægri iðrun? Hugsum þó til þess í tíma, kærir bræður! að það liggur fyrir oss öllum, að sjá „fortjaldið rifna í tvennt", það fortjald, sem aðskilur tímann og eilífðina. Fortjaldið í Jerúsalems musteri aðskildi helgidóminn og hið allrahelgasta. Ef vèr skoðum þetta líf kristilega, þá sjáum vèr, að það er Guðs helgidómur, því að í þessu lífi erum vèr hvervetna umkríngdir af helgum dásemdarverkum Drottins, bæði í náttúrunnar og náðarinnar ríki, og sjálfir eigum vèr að verða heilagir eins og sá, sem oss hefir kallað, og leggja alla stund á helgun vora; en hèr í lífi sjáum vèr þó ekki hið allrahelgasta, því það er hulið af fortjaldi tímans, og hèr göngum vèr í trúnni, en ekki í skoðuninni. En þegar fortjald tímans rifnar í dauðanum, þá upp rennur eilífðin, sem er hið allrahelgasta sjálft; en í stað náðarstólsins munum vèr sjá þar dómstólinn uppreistan; vèr munum sjá þar sáttmálsörkina, og í lífsinsbók munum vèr sjá þann sáttmála ritaðan, sem Guð gjörði við oss hèr í tímanum, og þá verður það leitt í ljós, hvernig vèr höfum haldið þenna sáttmála. Já, vèr munum einnig sjá þar Kerúbim, heilaga engla Guðs, með brugðnum sverðum, til að gæta þess, að ekkert saurugt nè syndugt fái inngöngu í hans himn-

eska ríki. Æ! þá mun jörðin skjálfa og vèr munum sjálfir skjálfa og titra af eilífri angist, ef vèr ekki í tíma flýjum til náðarstólsins og leitum Guðs miskunar með einlægri iðrun og lifandi trú. Þá munu björgin klofna og hin harðsvíruðu hjörtun munu bráðna í augsýn hins heilaga rèttlætis, því þá verður allt það leitt í ljós, sem nú er í myrkrunum hulið. Þá munu „hrellíngar og harmkvæli koma yfir allra þeirra manna sálir, sem ílsku drýgja" (Rómv. 2., 9.); en guðhræddir „munu koma til borgar Guðs lifanda, til þeirrar himnesku Jerúsalem og til margfjölda margra þúsund engla" (Hebr. 12., 22.). Amen.

---

# 47. hugvekja.

Allir Jesú kunníngjar stóðu langt frá og margar konur, sem höfðu fylgt honum úr Galíleu, og horfðu á allt þetta. Meðal þeirra voru þær María Magdalena, María móðir þeirra Jakobs og Jósis, og Salóme móðir þeirra Sebedeusar sona, sem honum höfðu fylgt og þjónað þegar hann var í Galíleu, ásamt mörgum öðrum, sem höfðu farið með honum úr Galíleu til Jerúsalem.

---

Sá upplesni heilagi texti segir oss, að Jesú kunníngjar og þar á meðal margar konur, sem höfðu fylgt og þjónað honum, hafi staðnæmzt undir Jesú krossi, en þó álengdar. þessir Jesú vinir elskuðu hann af hjarta og voru orðnir gagnteknir af hinum háleitu sannindum hans guðdómlegu kenníngar. þess vegna gátu þeir nú ekki fengið af sèr að yfirgefa Jesú kross eða missa sjónar á sínum deyjanda lærimejstara. Einnig þetta atvik í pínu frelsara vors getur verið lærdómsríkt fyrir oss, kæru vinir! með því það sýnir oss, að þó Jesú sönnu ástvinir, sökum mannlegs veikleika og breyskleika, stundum kunni „að verða álengdar fjær", missa þeir þó aldrei sjónar á krossi frelsara síns, heldur horfa

jafnt og stöðugt á hann með sínum trúar og vonar augum, og þessi andlega sjón hins helga kross aptrar þeim frá að hlaupa út í soll veraldarinnar og fara villir vegar. Af hjarta taka þeir undir með postulanum Páli og segja: „lærdómurinn um krossinn er þeim heimska, er sælunnar missa; en oss, sem hólpnir verðum, guðlegur kraptur" (1. Kor. 1., 18.); já, eins og sami postuli, álíta þeir það hina einustu og æðstu speki, „að þekkja Krist og hann krossfestan". Og í sannleika er þessu líka þannig varið, því að lærdómurinn um Krists krossdauða kennir oss bezt bæði að þekkja vora syndasekt og hve dásamlega Drottinn hefir bætt úr þessari vorri djúpu neyð með sinni friðþægíngarnáð, og jafnframt sýnir hann oss, hvernig vèr eigum að bera krossinn á eptir frelsara vorum. Heilög ritníng og allra alda reynsla eru samvizku vorri samdóma í því, að vèr erum allir syndarar, og að oss alla „vantar þá hrósun, sem hjá Guði gildir". Ef útvortis siðsemi, einstöku góðverk og yfirskyn guðhræðslunnar gilti hjá Guði, þá kynnu menn að hafa eitthvað að hrósa sèr af. En hver getur staðizt í dómi hins heilaga, sem einúngis lítur á hjartalagið? Ó, Guð minn góður! hve fánýt og einkisverð er öll mannanna hrósun? Þeir hrósa sèr af skyldurækni; en í hjarta sínu bera þeir einatt skylduna nauðugir eins og þúngan kross. Þeir hrósa sèr af mannelsku; en þessi

mannelska er einatt eigingjörn og ætlast til launa. Þeir hrósa sèr af sjálfsafneitun; en í rótum hjartans hreifir sèr þó löngun eptir tímanlegum hagnaði og hègómadýrð. Þeir hrósa sèr af samvizkusemi og sálarþreki; en þessi samvizkusemi og þetta sálarþrek villist við sèrhvert fótmál af fortölum heimsins og holdlegra girnda. Vissulega gæti maðurinn þannig með sjálfsprófun lært að þekkja syndasekt sína og vanmátt sinn til hins góða — og þessi þekkíng er mjög áríðandi, því að hún er skilyrði fyrir allri sannri lífernisbetrun — en þó verður þessi þekkíng skýrari og greinilegri, þegar sjálfsprófunin er samfara bæninni til Guðs, auðmjúkri bæn í Jesú nafni og í trausti til hans friðþægíngar. Mönnunum er hætt við því, að þykja mikið koma til sinna góðu áforma, sinna guðrækilegu hugarhræringa og sinna iðrunartára, og þess vegna er þeim nauðsynlegt að standa við undir Jesú krossi, því hvergi geta þeir eins vel og þar lært að þekkja sína miklu syndaeymd og sekt og spillíngu, því hvergi sjá þeir eins vel og þar Guðs heilaga vandlæti, og hvernig hans rèttlæti heimtar ótakmarkaða hlýðni og undirgefni undir hans heilaga vilja, og hvergi sjá þeir eins vel og þar, hvernig syndugum mönnum er ómögulegt af eigin ramleik að fullnægja kröfum hins heilaga rèttlætis. Jesú friðþægjandi dauði á krossinum sýnir oss því bæði vora þörf á guðlegri náð

og stærð Guðs óendanlegu miskunar. Meðvitund um synd og sekt liggur eins og þúng byrði á sálum allra manna, og að lètta af sèr þessari byrði er innileg ósk og löngun allra þeirra, sem finna til þess, að syndin gjörir eðli vort auðvirðilegt og að hún sviptir oss allri sannri farsæld og friði samvizkunnar. En hvernig eiga þeir að losast við þessa hörmúnga byrði? Hvar geta þeir leitað sèr hjálpar og huggunar? Umliðni tíminn ásakar og umhugsun um ókomna tímann hrellir hið veika og breyska hjarta syndugs manns. Æ! hvergi er þá huggun og frið að finna nema undir Jesú krossi, því það er kross hins eilífa kærleika, og þar standa rituð þessi huggunarfullu orð: „Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf í dauðann sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf" (Jóh. 3., 16.). Þá verður hjartað snortið af náðarinnar friðþægjanda krapti, þá fær það frið við Guð og fyrirgefníng synda sinna. Já, lærdómurinn um Krists dauða á krossinum er gleðiboðskapur guðlegrar miskunar, og væru hjörtu syndugra manna svipt honum, mundu þau fyrirfarast í syndunum, eða sökkva í örvæntíngarinnar djúp. En þessi lærdómur er ekki einúngis huggandi, heldur einnig helgandi, með því hann kennir oss, hvernig vèr eigum að bera krossinn á eptir frelsara vorum, hvernig vèr eigum að bera sèrhvert

mótlæti með kærleiksfullu hugarfari, þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja, að dæmi vors guðdómlega lausnara. Æ! komið þá að Jesú krossi, þèr hrelldu og harmþrúngnu sálir! sem andvarpið yfir syndum yðar og stynið undir krossins byrði: þar fáið þèr að heyra þessi huggunarríku orðin: „Komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður", og þar fáið þèr nýja krapta til að bera lífsins böl og sigra dauðans beiskju, nýja krapta til að berjast trúarinnar góðu baráttu og reynast trúir allt til dauðans, svo þèr fáið úr býtum borið kórónu lífsins. Amen.

---

# 48. hugvekja.

En Gyðíngar beiddu Pílatus, að líkamarnir væru ekki á krossinum um sabbatsdaginn, þar eð aðfangadagur var, því að sá sabbatsdagur var mikill. þeir beiddu Pílatus, að bein þeirra væru brotin og ofan tekin. þar fyrir komu stríðsmennirnir og brutu fótleggi hins fyrsta og svo hins annars, sem með honum höfðu verið krossfestir. En sem þeir komu að Jesú og sáu, að hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki hans fótleggi, en einn af stríðsmönnunum stakk spjóti í hans síðu, og strax kom út blóð og vatn; og sá hefir vitnað það, sem sá, og hans vitnisburður er sannur, og hann veit, að hann segir satt, svo að þèr einnig trúið. því þetta er skeð, svo að ritníngin rættist: „Bein hans skulu ekki brjótast". Og á öðrum stað segir önnur ritníng: „þeir munu sjá þann, sem þeir stúngu".

---

það eru einkanlega tvö eptirtektaverð atriði í hinum upplesna helga texta, og er annað þeirra það, að bein frelsara vors voru ekki brotinn þegar hann var dáinn; en hitt er það,

að einn af stríðsmönnunum stakk spjóti í hans síðu, svo þaðan út rann blóð og vatn. Guðspjallamaðurinn Jóhannes, sem skýrir frá þessum tilburðum, bætir því við, að þetta hafi skeð, svo að ritníngin uppfylltist. Gjörvallt Gamlatestamentið er fyrirmyndan Nýjatestamentisins; allar tilskipanir þess, öll guðleg fyrirheit og spádómar uppfylltust í Kristi. Eins og Gyðíngum var bannað að brjóta bein páskalambsins (2. Mósisb. 12., 46.), þannig sá og guðleg forsjón um, að bein frelsarans voru ekki brotin, með því hann var „það páskalamb, sem vor vegna var slátrað", eins og postulinn Páll kemst að orði (1. Kor. 5., 7.). Og þegar Sakarías spámaður er að útmála, hvernig ástandið muni verða þegar Messías komi, segir hann í Guðs orða stað: „þá mun eg út hella líknaranda og bænaranda yfir Davíðs ætt og innbúa Jerúsalemsborgar; þeir skulu renna augum til mín, til hans, sem þeir hafa gegnum stúngið" (Sak. 12., 10.). Þessir tilburðir við dauða frelsara vors hafa einnig, eins og allt, sem fram við hann kom, mikilvæga þýðíngu fyrir hið kristilega trúarlíf, og geta á margan hátt gefið oss eptirtektaverða og lærdómsríka hugvekju.

Guð leyfði ekki, að bein frelsara vors væru brotin; því með pínu sinni og dauða var hann nú búinn að fullnægja hinu eilífa réttlæti og friðþægja oss við föðurinn; hann var búinn að brjóta myrkranna og djöfulsins

vald, og sýna að hann var hin eina og algilda fórnin. Þetta minnir oss á Guðs eilífu gæzku og miskunsemi, sem ekki vill „brjóta hinn brákaða reyr, nè slökkva hinn líttlogandi hörkveik”, heldur tekur sín breysku og brotlegu börn í sinn náðarfaðm, þegar þau snúa sèr til hans með einlægri iðrun og lifandi trú; „því að vèr erum”, eins og postulinn segir, „limir Krists líkama, af hans holdi og af hans beinum” (Ef. 5, 30.), og verðum fyrir trúna honum sameinaðir og hans friðþægíngar aðnjótandi. Þegar Jesús kvöldinu fyrir sinn dauða sat til borðs með lærisveinum sínum, braut hann brauðið, blessaði það, gaf sínum lærisveinum og sagði: „Takið og etið! það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn”, og má því svo að orði kveða, að hann hafi sjálfur brotið sinn blessaða líkama fyrir oss, svo að vèr af elsku til hans skyldum brjóta af oss fjötur og hlekki syndarinnar. Enn fremur segir textinn, „að einn af stríðsmönnunum hafi stúngið spjóti í Jesú síðu, svo þaðan út rann blóð og vatn”. Þetta minnir oss á það, að eins og Jesú blóði var út hellt á krossinum vor vegna, eins eigum vèr að út hella tárum iðrunarinnar. Ó! hversu opt höfum vèr ekki eins og stúngið frelsara vorn með syndum og ávirðíngum vorum; hversu opt höfum vèr ekki sært hans viðkvæma og elskuríka hjarta með kaldsinni og kærleiksleysi voru; í stað þess að úthella iðrunar-

tárum, hafa úr hugskoti voru út runnið syndsamlegar hugsanir og girndir, syndsamleg orð og syndsamleg verk. Þó Guðs heilaga orð sè „beittara hverju tvíeggjuðu sverði; þó það smjúgi í gegnum merg og bein", hefir það þó lítið unnið á vor hörðu hjörtu. Ó, Drottinn! „úthelltu yfir oss líknar anda og bænar anda, svo vèr snúum oss til þín og til frelsara vors, sem vèr með syndum vorum höfum gegnum stúngið". Hrær þú hjörtu vor með heilögum anda þínum, svo að vèr hjá þèr leitum oss lækníngar á þeim mörgu og djúpu hörmúnga sárum, sem syndin hefir veitt oss. Þú þekkir allan vorn breyskleika, allt vort hviklyndi og óstöðugleik í hinu góða; þú sèr, hvernig vèr erum eins og reyr af vindi skekinn, og að oss vantar þrek og þol til að fylgja frelsara vorum á lífsins vegi; æ! brjóttu ekki þenna brákaða reyr; slökktu ekki þenna líttloganda hörkveik; virztu heldur af náð þinni að glæða vora trú, styrkja vora elsku og halda oss stöðuglega við þig, svo vèr setjum alla vora von til þín og þinna miskunarríku fyrirheita. Og þegar dauðinn vitjar vor og vèr eigum að flytja hèðan, æ! leyfðu þá anda vorum að renna til þín, en beinum vorum að hvílast og bíða upprisudagsins í friði. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

---

# 49. hugvekja.

En er kvöld var komið (það var aðfangadagskvöldið fyrir hvíldardaginn), kom maður sá, er Jósep hèt, frá borginni Arimathía, auðugur að fè, göfugur ráðherra, góður maður og rèttvís. Hann hafði ekki samþykkt ráðagjörð og breytni þeirra. Hann var líka einn af Jesú lærisveinum, þó heimulegur sakir ótta við Gyðínga, og hann vonaði eptir guðsríki. Þessi maður dirfðist að ganga inn til Pílatusar og biðja hann um, að mega taka ofan líkama Jesú. En Pílatus furðaði sig á, að hann skyldi þegar vera látinn og lèt því kalla hundraðs-höfðíngjann fyrir sig og spurði hann, hvort hann væri fyrir löngu andaður? Og er hann varð þess víss af hundraðs-höfðíngjanum, skipaði hann að afhenda Jósep líkamann og gaf honum hann. Jósep tók þá niður Jesú líkama, keypti líndúk, tók líkið og sveipaði það í hreinu lèrepti. Þar kom líka Nikódemus, sá er áður kom til Jesú um nótt; hann hafði með sèr hèr um bil hundrað pund af myrru-blönduðu alóe. Þá tóku þeir Jesú líkama og sveipuðu hann í líndúk með dýrum smyrslum, eins og Gyðínga siður er

að búa lík til greptrunar. En þar sem Jesús hafði verið krossfestur, var grasgarður og í honum ný gröf, sem enginn hafði enn verið lagður í. Og Jósep lagði hann í þessa sína eigin nýju gröf, sem hann hafði látið út höggva í kletti, velti síðan stórum steini fyrir dyrnar og gekk burt. Þetta var aðfangadaginn og hvíldardagurinn fór í hönd. En þar var María frá Magdölum og hin önnur María og konur þær, er með Jesú höfðu komið úr Galíleu, fylgdu og eptir, skoðuðu legstaðinn og sáu, hvar og hvernig lík hans var lagt. Síðan snèru þær heim til sín og bjuggu til ylmandi smyrsl; en um helgina hèldu þær kyrru fyrir, eptir því sem lögmálið bauð.

---

Látum oss nú, kærir bræður! nema staðar við Jesú gröf og sjá „staðinn, þar sem lausnari vor var lagður". Vèr höfum fylgt honum að kossinum og staðið þar nokkra stund; Guð gefi, að það hafi verið með iðrunarinnar og kærleikans tárum! Frá krossinum liggur vegur hins guðhrædda til grafarinnar, og eins og Jesú gröf var skammt frá hans krossi, eins er og krossinn og gröfin, þján-

íngin og hvíldin, stríðið og sigurinn hvort öðru nálægt í mannlegu lífi. Þetta sè þá vor huggun í sèrhverju böli lífsins, og það gefi oss krapta til að bera það kristilega og berjast hinni góðu baráttu trúarinnar. Þegar vèr með guðrækilegu hugarfari nemum staðar hjá Jesú gröf og íhugum frásöguna um hans greptrun, hljóta slíkar hugleiðíngar að styrkja trúna og glæða elskuna og vonina í vorum hjörtum. Vèr sjáum, hvernig trúaðir lærisveinar annast Jesú greptrun. Jósep, „auðugur og göfugur ráðherra", og Nikódemus, „meistari í Ísrael" — báðir guðhræddir menn og heimulegir lærisveinar Jesú, fá nú djörfúng til að láta trú sína opinberlega í ljósi og gjöra hina góðu játníngu", djörfúng til að vitna um Jesú sakleysi fyrir dómaranum sjálfum, biðja hann um Jesú lík og veita honum þá seinustu þjónustu. Þannig sýndi lærdómurinn um krossinn þegar á þessum mönnum sínar dásamlegu verkanir og að hann er „kraptur og speki Guðs". Eins og þessir guðhræddu menn, í trúnni á Jesú himneska sakleysi og hans guðlegu sendíngu, beiddu um hans helga líkama og lögðu hann með guðrækilegum tilfinníngum niður í „nýja gröf, sem úthöggvin var í klett"; þannig er enn í dag Jesú gröf trúarinnar hellubjarg fyrir hinar guðelskandi sálir. Hefði Jesú helgi líkami ekki verið lagður í gröfina nè hún verið innsigluð, þá hefði vantrúin getað

spunnið upp ýmsar efasemdir um dauða hans og upprisu. En nú er Jesú gröf orðin að hellubjargi trúarinnar; þar sezt hinn trúaði niður; þar biður hann heitt og innilega; biður, að sín veika trú megi styrkjast og eflast eins og Jóseps og Nikódemusar, svo hann fái þor og þrek til að vitna um frelsara sinn fyrir heiminum, þor og þrek til að vitna um það, að hann viti ekkert annað sèr til sáluhjálpar en þann krossfesta Jesúm Krist. Af textanum sjáum vèr enn fremur, að guðhræddar konur, sem höfðu hlýtt Jesú guðdómlegu kenningu og sèð hans dásemdarfullu mannelskuverk, nálgast nú gröf hans, gagnteknar af sorg og söknuði, af þakklæti og elsku. Þær tilbúa dýrindis-smyrsl til að verja hinar jarðnesku leifar þessa síns himneska vinar rotnuninni. Æ! ættum vèr ekki einnig að fella sorgartár yfir syndum vorum; ættum vèr ekki einnig að komast við af innilegu þakklæti og elsku, þegar vèr í anda nálgumst Jesú gröf og virðum fyrir oss hans líf og lærdóm, hans pínu og dauða, og hugsum til þess, að allt sem hann talaði og gjörði og allt sem hann leið var sprottið af himneskum kærleika til vor aumra og syndugra manna? Ættum vèr ekki að hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, svo að frelsari vor geti með sínum anda tekið sèr bústað í vorum hjörtum? Og þegar vèr fylgjum frelsara vorum til grafarinnar, hljóta

þá ekki vorar eigin grafir að renna upp fyrir hugskotssjónum vorum? Hlýtur oss þá ekki að koma til hugar óstöðugleiki mannlegs lífs, og að vèr sjálfir innan lítillar stundar eigum að hníga í dauðans faðm? Þangað liggur leið allra dauðlegra manna og þangað söfnumst vèr allir, sumir, ef til vill, fyrr en þá sjálfa varir. En Jesú gröf minnir oss ekki einúngis á gröf og dauða, heldur og á himininn og hið eilífa lífið, því Jesús hefir lífið og ódauðleikann í ljós leitt og opnað oss aðgang til síns himneska ríkis, svo að sèrhver sá, sem honum fylgir, gengur gegnum gröf og dauða til eilífs lífs og eilífrar sælu. Með sinni gröf hefir Jesús helgað vorar grafir, svo að þær eru ekki lengur geigvænlegar, heldur hægur hvíldarstaður fyrir þá, sem í Drottni deyja.

Ó, Jesú! gef þú oss náð til þess að lifa svoleiðis, að vèr fáum að deyja í samfèlagi við þig; láttu ljós þíns heilaga anda lýsa oss gegnum grafarinnar myrkur og leiða oss til þín á ljóssins og sælunnar land! Amen.

# 50. hugvekja.

Daginn eptir, sem næstur var eptir aðfangadaginn, söfnuðust hinir æðstu prestar og faríscarnir saman og komu til Pílatusar og sögðu: „oss er í minni, herra! að meðan svikari þessi lifði, kvaðst hann mundi upp rísa innan þriggja daga. Lát þú því gæta legstaðarins allt til þriðja dags, svo ekki komi lærisveinar hans á nóttu og steli honum, segi síðan lýðnum, að hann sè upprisinn, og verði svo seinni villan verri hinni fyrri”. Pílatus mælti: „hèr hafið þèr varðhaldsmennina, farið og gætið legstaðarins eins og þèr hafið bezt vit á”. Þeir fóru og innsigluðu steininn og lètu varðmennina gæta grafarinnar.

---

Ekki lètu faríscarnir sèr lynda, að hata Jesúm og ofsækja hann á allar lundir, meðan hann gekk í kríng og kenndi lærdóminn um guðsríki og gjörði öllum gott, sem hans leituðu; ekki lètu þeir sèr lynda, að bera ljúgvitni gegn honum og fá hann saklausan og heilagan dæmdan til dauða; ekki lètu þeir sèr lynda, að vera sjónarvottar að hans sáru kvöl og pínu, og hvorki gátu undur náttúrunnar nè hins heilaga kærleika sefað þeirra

grimdaræði, eða vakið hjá þeim betri og blíðari tilfinníngar. Sjaldan er mannleg vonzka svo mögnuð, sjaldan er heiptin svo djöfulleg, að henni verði ekki svalað með óvinarins dauða; en hjá Gyðíngunum var hatrið sterkara en dauðinn. Af hatri beiddu þeir Pílatus að láta gæta Jesú grafar, og sögðust hafa það í minni, að meðan svikari þessi hefði lifað, þá hefði hann sagzt mundi upp rísa innan þriggja daga; en þetta lètust þeir gjöra af umhyggju fyrir alþýðunni, svo að hún yrði ekki blekkt og dregin á tálar af Jesú lærisveinum. Þannig var hræsni og skinhelgi hjá þeim sameinuð hatri og mannvonzku; en í raun rèttri og undir niðri var það þeirra vonda samvizka, sem ógnaði þeim með því að Jesús mundi upp rísa úr gröfinni, eins og hann hafði fyrir sagt, og að þá mundi það verða opinbert, hvílíkt ódáðaverk þeir hefðu unnið. Hversu marga hendir það ekki, því miður, enn í dag, að þeir, í stað þess að kannast við syndir sínar og iðrast þeirra af hjarta, leitast á allan hátt við að fegra þær fyrir sjálfum sèr og öðrum, og þagga niður ásakanir samvizku sinnar, „svo að þeirra seinni villa verður verri hinni fyrri." En eins og heipt og hræsni og vond samvizka birtist í aðferð Gyðínganna, þannig birtist hèr og dásamleg ráðstöfun guðlegrar forsjónar, sem lèt varðhaldið við Jesú gröf og innsigli steinsins miða til þess að gjöra sigur upprisunnar enn þá dýrðlegri og óyggj-

anlegri, og sjáum vèr af þessu, hvernig sannleikurinn að lokunum vinnur sigur yfir lygjinni, og hvernig jafnvel hrekkvísi mannanna verður meðal í Drottins hendi til framkvæmdar hans eilífu ráðsályktana.

Látum þetta, kristnir menn! styrkja hjá oss trúnaðartraustið á hans föðurlegu forsjón; felum honum oss og öll vor efni og vörpum allri vorri áhyggju upp á hann; treystum því, að sèrhvað gott, sem vèr vinnum, muni bera ávöxt til eilífs lífs, og að engin mannleg vonzka nè hrekkvísi geti ónýtt hið guðlega málefni, heldur verði allt að þèna þeim til góðs, sem Guð elska. Þetta sè vor huggun, ekki einúngis þegar vèr erum staddir hjá gröfum ástvina vorra, heldur og þegar vèr rennum augunum til vorrar eigin grafar og íhugum óstöðugleik þessa jarðneska lífs; og í þessu trausti og með þessari huggun í hjörtum vorum viljum vèr biðja Guð að gróðursetja oss í kærleikanum og úthella sinni elsku í vor hjörtu. Ef hann er með oss, þá getur enginn verið á móti oss, og þá þurfum vèr ekki að óttast gröf nè dauða, því þá erum vèr hans, hvort sem vèr lifum eða deyjum. Frá Jesú gröf skín ljós upprisunnar og lífsins út yfir vorar grafir, því Jesús hefir lífið og ódauðleikann í ljós leitt, og í hans nafni getum vèr nú hugglaðir gengið til hvíldar á grafarinnar beð, með því vèr nú vitum, að gröfin er inngangur til eilífs lífs og eilífrar

sælu fyrir alla þá, sem deyja í Drottni og samfèlagi við frelsara sinn, og treystum því staðfastlega, að Guðs eilífa almættishönd muni fyrir Jesúm Krist brjóta innsigli vorra grafa og vekja oss úr duptinu á efsta degi. Æ, himneski, góði frelsari! gef þú oss náð til þess að vera þèr sameinaðir í lífi og dauða; tak þú þèr sjálfur bústað í vorum hjörtum og „innsigla þú þau með heilögum anda fyrirheitisins" (Ef. 1., 14.); gef þú oss náð til þess að skilja, „hvílík að sè breidd, lengd, dýpt og hæð þinnar óendanlegu elsku" (Ef. 2., 18.), svo að vèr verðum gagnteknir af elsku til þín og þakklæti við þig. Æ! gef þú þína náð til þess, að þær guðrækilegu tilfinningar, sem á þessum útlíðanda föstutíma hafa vaknað hjá oss við íhugun þinnar pínu og þíns friðþægjanda dauða, ekki deyi útaf aptur, heldur hafi helgandi áhrif á hugarfar vort og allt vort ókomna líf. „Þú barst syndir vorar upp á trèð"; gef þú oss náð til að deyja frá þeim, svo þær felist í grafarinnar og gleymskunnar djúpi og þeirra verði ekki að eilífu minnzt. Gef þú oss náð til að upp rísa með þèr og fylgja þèr í endurnýjúngu lífdaganna, svo að vèr í þèr finnum hvíld sálum vorum. Þèr sè eilíft lof og ódauðlegar þakkir! Amen.

